# L. Hugvekiur

Edur

# Wijslar-Pankar,

Ut af Historiu Pijnu og Dauda Drottens vors

# JESU CHRISTI;

Samañ teknir

Af Sr.

## Wigfwsa Erlendssyni,

Soknar Preste ad Setberge og Profaste i Snæfells Sijslu.

Seliast Jnbundner 16. Fiskum.

Hoolum i Hialtadal
Prickter af Petri Jonssyni.
1773.





# Til Lesarans.

Med þvi Saalenn er hiñ ypparlegre Partur Mañsins, so er þeirra Raade betur vared, er kosta Kapps um hennar Edle og Atgiørsi ad stioorna til þess Takmarks og Tilgangs, sa alvlise Natturunnar Herra hefur fyrirhugad og tilsett: Og þo þessi vor Skynsemdarfulli Andi, kunni hafa Tillit til ymsra Hialpar-Medala i Natturunnar Rijki, er leidi til Anægiu eda Farsældar, þa er eckert so ypparlegt, so naudsynlegt og alldeilis Omissandi til hinnar sonnu og eilijfu Farsældar, sem þad, ad þessi sami Andi, þessi vor Saal, sameiniſt og innlijfiſt Andanna Fodur,

þeim

þeim gooda Gudi, sem af Náttúrunni til harla slioosskignum, enn fyrir þad opinnberada Ord, uppliijstum Skilnings Augum synir þañ beinasta Veg til algiördrar Fullkomnunar. Og er þessarar Fullkomnunar og Atgiörfis, oss, sem endurskapast vilium til Guds Myndar, ei ad leita i spilltu Nátturuñar Edle, ei i Veralldlegum Viisendum eda Uñsvifum, helldur alleinasta i og hiaa honum sialfum, i þeim allann Skilning yfirgaangande Kiærleika, sem ei einasta upplijser Skilningenn, helgar Viliann, helldur og sijner oss þann einasta Mañ i Náadiñi, er med siñi Fyllingu vorn Ofullkomlegleika, og med sinne Hlijdne, vora Ohlijdne bætt hefur; Sem took uppaa sig Mannlega Natturu, ad hann forlijkade Heimenn vid Gud, vid sialfann sig; Sem strijdde, ad vier vanmegna Sigurenn innum; Sem liet sig pijna, oss til Frelsis fraa forþientum Helviijtes Pijslum; Sem deyde, ad vier lifa skylldum med honum eilijflega; Sem giördest vor Arnadar-Madur og vor Frelsare, ad Molld og Aska kinnu Diorfung hafa, ad koma fram fyrir Náadar Stoolenn; Og þess vegna skamast hann ei sijn ad kalla oss siina Brædur. Og þesse Sañleike er þad dijrmæta verduga Ord, er sier i lage finnst framsett og stadfest i Historiu Pijnu og Dauda DRottens vors JEsu Christi: Og þar hun sijner oss Grundvoll vorrar Saaluhialpar, og iñehelldur þess vegna hid Huggunarrijkasta Efne; þaa hefur Velæruverdugur Profast-

urenn Sr. Vigfws Erlendsson teked sier fyrer har-
lavel og liduglega ut af þessum Christendoomsins
Kiarna ad saman taka I essar 50. Hugvekiur, edur
Pijslar-Þanka (er hann so kallar), filgiande þeim
ægiætu Passiu Psalmum Sr. Hallgrijms Saal.
Peturssonar, hvers vegna þær nu a Prent utgaa-
nga, ad so ypparlegt og gudrækelegt Verk, verda
mætte sem flestum þessa Lands Innbyggendum til
andlegrar Uppbyggingar og bestu Nota fyrer Lijf
og Saal, hvers sier og þeim af Hiarta oskar

Hoolum i Hialltadal. G. M. S.
D. 28. Novembris B. H. St.
1773.



# 1. Pijslar Pænki.

## Um̃ Christi Utgaungu i Grasgardinn.

### Inngæangurin̄.

Ott Verk utheimtir ætijd goodan̄ Underbwning: Vid eigum nu, Saalamiin, æsamt, odrum Guds Børnum, æ nærverande Fostu-Tijma, ad taka ockur fyrer Hendur eitt gott Verk, þad stærsta Skylldu-Verk allra Manna, þad ædsta Gledi-Verk allra Guds Barna, sem er ad hallda opinnberlega Minning bitrar Pijnu og bloodugra Krossins Kvala Guds Eingietins Sonar og vors æstrijkasta Endurlausnara JEsu Christi. Vijst er þetta gott Verk, Saala mijn, þvi eckert vitum vid ockur annad til Mysknnar, helldur enn JEsum Christum þan̄ krossfesta, 1. Cor. 2. Gleimum þvi ecki ad brwka goodann Undirbwning gudrækilegrar Andagtar, Eftirtecktar og Ihugunar. Vöknum upp af ockar Andvaraleisis Svefni; Vakni Hiarta, Hugur, Maal og Min̄i,

Jaa allir ockar innri og ytri Kraftar selie sig nu hid dijrasta, so vid festum nu ockar Frelsara JEsum, og hanns heilogu Pijnu, so sem eitt Innsigli a ockar Hiarta, Lofkv. 8. Vijst er þetta hid stærsta Skyllu-Verk allra Mana, bodid af blessudum Drottins Anda fyrir Munn Postulans Pauls, ad vier skulum minnast a JEsum sem Mootmæliñ þoldi, Hebr. 12. og kunngiora Dauda DRottins þangad til hann kiemur, 1. Cor. 11. JEsus liet sig hiartanlega langa til ad lijda Kvalernar, ockur til eylijfrar Endurlausnar, Luc. 22. Verdugt er þad, ad vid, Saala mijn, gledium ockur vid þad, ad minnast þessa JEsu Mystunar-Verks, hanns hæleita Nafni til Heidurs og Vegsemdar. Enn Gud naadi ockar Opacklæti! JEsus wtgaf Lijf og Blood til ad leysa ockur og frelsa, eñ vid neñum so skalldann sem alldrei, ad minnast þess og þacka honum þar fyrir sem byriar, þetta skal ockur af Alvoru angra, og kostum nu Kapps uñ gudrækilega Boot og Betran ad giora. Vijst er þad hid ædsta Gledi-Verk allra Guds Barna, JEsu heilogu Pijnu i Munni og Minne ad hafa, þvi hvad kann þeirra hrædda Hiarta vegna Syndanna kroftuglegar ad hughreista, enn JEsu Pijna, sem er Forlijkun og Boot fyrer allar Verslldarennar Synder. 1. Joh. 2. Hvad kañ þeirra sorgande Hiarta i Eymdunum sætlegar ad svala, eñ saarar JEsu Kvaler, sem giordest Madur Hormunganna, so hañ kiñe ad hafa Sampijning med þeirra

Eymd-

Syndum. Hebr. 5. Hvad kann vor til ills hneig-du Hiortu betur ad leidrietta enn Lausnarans bitru Pijsler, sem kostade so mykiu til þess, ad vier, af Syndunum leystir, skylldum verda Riettlætisins Þioonar, Rom. 6. Hver gietur verid Sioonar-Speigillinn fegri fyrir vorum Augum, enn þad alsærda JEsu Hiarta aa Krossinum, i giegnum hvert vier meigum med Gledi siaa Guds Fodurs Astar-Þel til vor i Himninum, hver ed wtgaf sinn Eingietinn Son til þess, ad allir þeir sem aa hann trwa, skylldu ecki fyrirfarast, helldur hafa eylijft Lijf. Joh. 3. Þettà haaleita Efni vilium vid nu, Saala mijn, i DROttins Nafni nockud gior yfir-vega. O JEsu! send mier Anda Naadariñar og Bænarinnar, Anda Raads og Styrkleika, Anda Vidurkienningarinnar og þijns Otta, Sach. 12. so ad sierhvad hier uñ hugleidt, samid og upp-teiknad, verde þijnu haaleita Nafne til Dijrdar, eñ øllum þeim, er lesa eda heyra, til æskilegasta Saal-ar Gagns, og gledirijkustu Blessunar Nota. Am.

## TEXTENN.

OG sem þeir hofdu Lof-Saungiñ swngid, gieck JEsus wt, sem hañ var vanur, yfir uñ Lækiñ Kedron til Fiallsins Oliveti, eñ hañs Lærisveinar fylgdu hon-um eftir; Þaa sagdi hañ til þeirra: A þess-

ari Noottu munnd þier allir hneixlast aa mier. Petur svaradi og sagdi til hans: Po allir hneixli sig aa þier, þa skal eg þo alldrei hneixlast; JEsus sagdi til hans: Sannlega seige eg þier, ad i Dag aadur enn Hanin galar tvisvar, muntu afneita mier þrisvar. Enn hann Petur talade þaa enn frekar: Po eg ætti ad deya med þier, þaa skal eg ecke afneita þier. Slijkt hid sama sogdu aller Læresveinarner.

Styrslags Bloomstur saaluhiaalplegra Lærdooma sinnum vid, Saala mijn, i þessum himneska Alldingardi, hverium vid skulum i Hiarta ockar innsafna, nefnilega: 1. Ad DRottinn vor JEsus hafi aa, samt sijnum elskulegu Lærisveinum, Lossaungenn sionged, ad endadre sinne Maaltijd; Og þadmaa vijdar lesa i Gudspialls Sogunum, ad Frelsaranum var tamur þessi fagri Vani, ad byria sitt Bordhalld med Blessan og Bænrækne, Joh. 6. og lijka ad enda þad med Losgiord og Packlæte vid sinn himneska Fodur, Marc. 8. Hafi nu Sonur Guds, sem alls Raad aatte, bædi aa Himne og Jordu, Matth. 28. ecki viliad vid sitt Bordhalld þessu Gudrækins Verki gleyma, O! Hversu miklu framar ættum vid ad þeckia þad Skylldu vora, bædi ad leita vors Brauds med bidiandi Hiarta, og lijka ad neyta þess med þackandi Tungu og þijd-

re Losgiörd vid hinn lifanda Gud, sem fyrir oss voludum og alls goods þurfandi Vesælingum uppliÿkur daglega sinni Orlætis Hond, og sedur allt hvad lifir med Velþocknan, Psal. 145. Gud vardveite ockur miin Sæl, fraa þeirre vidurstiggilegre Synd, ad vid med vontu Oþacklæte vyrdum lijtels Drottens Naadar Gæfur, og birgium so aptur fyrer ockur Brunn hans Naadar og Blessunar.

2. Merkium vid, Saala miin, ad Lausnarinn villdi hvergi wt af Hwssins Dyrum hræra Foot sinn, fyrr enn hann hafdi Bænar og Packlætis Lof-Saung siinum blessada Fødur swngid; Lærum og holldum þessa loflegu Lausnarans Veniu, nær vier byrium Reisu nockra fraa Heimilum vorum, leitum oss þa fyrst med Bæninni Naadarriikrar Fylgdar og Fødurlegrar Vardveislu hins gooda Guds, ad hann virdist ad farsæla oll vor Foot-Spor, og giefa oss heilum heim aftur ad koma, Tob. 5.

3. Er vel athugandi, ad þegar Lausnarinn gieck wt af Hwsinu, laa hanns Leidir yfir um Lækinn Kedron, sem hefur sitt Nafn af Dimu og Sorta; Þanninn er allt vort Liif einn ydoglegur Rauna-Ferill i giegnum Hrygdar Dal og Hormunga Læke Heims þessa. Gott er Guds Vilia ad taka; Jesus hlaut þessa Sorgar-Gotu undann oss ad gannga inn i siina Diird, Luc. 24. Hiaalpi oss hanns

mikla Mykun til þess, ad fylgia hónum so fastlega eftir, ad vier um̃ sijdir fáum komist i giegnum allar Hrellingar inn i hanns himneska Dijrdar Rijki, Post. G. B. 14.

4. Sie eg hier daasamlegt Dæmi þinar ástudlegustu Hoogværdar, minn HErra JEsu! þu giekst sialfviliugur inn i Grasgardinn, og gafst þig i Hendur þinna Ovina, so ad sem minnst Vandrædi edur Oroói þyrfte þar af ad ordsakast; Feginn vil eg, DRottinn minn, af þijnu Dæmi læra, ad hafa Frid, so mikid sem mögulegt er, vid alla Menn, Rom. 12. eigi leitandi mijns Hagnadar med annarra Skada, helldur allt þad med Þolinmædi lijdandi, sem þier þocknast ad láta mier tilfalla. Eg hefi hlæandi áfram̃ anad þann breida Veg, sem leidir til Glotunar, þu giekst hier grætandi yfir um̃ Kedron mier til Hiálpradis og Myskunar; Lof sie þier Lausnari minn ad eylijfu, og vyrdstu nádarsamlega ad greida mijna Eymda Götu til æskilegrar Blessunar og Gledi.

5. Er vel merkiande, ad JEsus giek inn i Grasgardinn Gethsemane, hvar hann blessadur var fangadur til Lijflaats og Dauda; Mitt Lijf maa med ollum Retti kallast Grasgards Gaanga, á hverri eg alltijd meir og meir naalægist Grofina og minn Dauda; Vakta þig i Guds Nafne, Saala mijn, vid þeim græna og lystilega Syndanna Vegi, þvi ef ecki er i Tijma ad giort, þa leidir hann

ad

ad Lyktum til eylijfrar Glotunar; Laatum ockur þvi nidursaa heitum Ydrunar Taarum niedan vid hrekiunst i Heimenum, þaa munum vid i JEsu Nafne odlast Uppskieru eylijfrar Glede i Himnenum, Psalm. 12.

6. Lærum vid, Saala mijn, hverssu naakvæmlega naadarriikur JEsus varar sijna elskulega Lærisveina vid yfirvofandi Hrosun og Voda: A þessari Noottu (segir hann) munud þier allir hneixlast aa mier. Samur er saa blessadi HErra i Myskun sinni og Milldi vid ockur, Saala mijn, hann sier best, hver Neyd eda Vodi vill aastriida, hann hefur giesid ockur Medolinn, og vill veita ockur Kraft sinnar Naadar, allt Vol og Andstreymi ad sigra og yfirvinna. Verum þvi styrk og eruggi Gudi og hanns Naadar Hiaalpræði, Eph. 6. enn treystum alldrei ockar eigen Mætte, eins og H. DRottens Postula Petur hendte, þvi af hanns Dæmi meigum vid læra, hverssu naalægir vier erum Oluckuog Hrosun, enn Oniiter til alls Goods, þegar Gud tekur i burt sijna Hiaalpar og Naadar Hond. O minn Milderijkaste JEsu! Væg þu best og lykna Veikleika mijnum; Gief mier gudrækilega þess ad giæta, ad eg ber þann dijrmæta Fiesiood þinnar Naadar og minnar Saaluhiaalpari breyskü og brothættu Leyrkiere, 2. Cor. 4. Laat þvi, O HErra! þinn Myskunar Kraft stydia mig og styrkia, so eg faai barist goodri Baraattu Trwarinnar og hondlad þad eylijfa Lijfid. Amen.

# 2. Pijslar Psalmi.

Um̃ Christi Kvøl i Grasgardinum.

JEsus kom þaa med þeim i þad Akur-Gierdi, sem hiet Gethsemane, þar var eiñ Grasgardur, þar gieck JEsus iñ, og hañs Lærisveinar. Eñ Judas, sáa ed sveik hañ, vissi og þeññ Stad, þvi Jesus safnadist ofst þaangad med sijnum Lærisveinum. Og hañ took med sier Petrum og Jacobum og Johannem, þáa Tvo Sonu Zebedæi og took til ad hryggiast, titra af Hrædslu og Harmþrwngiñ ad verda, og þa sagdi hañ til þeirra: Mijn Saal er hrygg allt i Daudañ, blijfid hier og vakid med mier. Og hañ sleit sig i burt fráa þeim, og gieck litlu fram̃ leingra nær einu Stein-Snari, og kraup áa Knie, fiell fram̃ áa sijna Asioonu til Jardar og bad, ef þad møgulegt være, ad su Stund hiáa sier lide, og sagde: Miñ Fader! Ef møgulegt er, þa vijkie þesse Kaleikur fráa mier, Abba, Fadir miñ, allt er þier møgulegt: Tak burt þeññañ Kaleik fráa mier, þo ei hvad eg vil, helldur hvad þu villt.

Blijd er bætandi Hond, þar sem blessadur Jesus a Hlutenn ad, øllum sijnum særdum og siukum Vesælingum til Liiknarsu sra Meina Boota og Milldemiukrar Adhiukrunar i allre Neid; so hann er sannkalladur DRottiñ vor Grædare, 2. Mos. B. 15. Þad sannade hann blessadur strax i Uppbirtun sinnar Pijnu. Adam leidde fyrst Syndena inn i Heimen i Eden Alldengarde allre Verølldu til Olucku og Fordæmingar. 1. Mos. B. 3. Hiñ añar Adam af Himne. 1. Cor. 15. Drotteñ vor JEsus Christur, biriade sijna bitru Pijnu i Grasgardenum Gethsemane, Adam og øllum hans Nidium til Endurlausnar og Mykunar; Skilnings Tred i Eden færde af sier þann Avøxt sem Adam vard til Nauda og Dauda; Lijssins Tried Lausnarenn JEsus gaf af sier i Gethsemane Gudsoomlegann Avøxt Glederijkrar Liknar og Lijfgiafar; himnesk Laus-Blod hanns heiløgu Pijnu munu mijnu særda og siuka Hiarta til blessadrar Heilsubootar best duga. Opb. B. 22.

Framar vottar Textiñ, ad sa gudlause Svikare Judas hafe giorla þeckt þeñañ Stad, og er lijklegt ad sa arge Skalkur hafi adur hugad sier, ad þar munde hentugast HErrañ JEsum ad forrada, so ad minst a bære, og hann giæte þess helldur huled siin herfilegu DRottens Svik. Lær þad hier af, Saala mijn, ad vera alldrei ugglaus um þig i þessum vonda Heime, hvar þiñ skiædaste Ovin Diofullenn geingur um kring, sem grenjande Leon, leit-

alde

ande bæde efter þier og ødrum, sem hann meige upp- svelgia, 1. Pet. 5. Hann tekur vara a øllu Tæke- fære, og hefur i framme hinar hættuleguſtu Bygvie- lar til ad draga ockur wr Drottens Nadar Hen- de, og hallda faungudum under Syndarennar Prældoom, efter ſinne Villo, 2. Tim. 2. Og vid þeſsum hanns Umſaatrum meigum vid hvad allra helldſt bwaſt, þegar vid i Guds Hwſe eigum Gude hvad beſt ad þioona, og vora Saaluhiaalp ſem van- dlegaſt ad vagta, Phil. 2. Ecke er Satan helldur Sveinalaus i ſijnu Rijke; Hreckvijs Heimſins Børn eru hans Erindes rekar til ad villa ockur a Veg Glotunarennar; Voktum ockur þvi, Saala mijn, og graatbidium Giædſkurijkann JEſum, ad hann bleſſadur vijrdeſt i øllum Haaſka ad vera ock- ar Hiaalpar-Skiølldur og Sigurvinningar Sverd.

Þad vottar ſiaalf Hiſtoriann, ad Lauſnarenn hafi oftlega lagt i Vana ſinn, ad ſafnaſt med Læri- ſvenum ſijnum inn i þennann Gras-Gard; Og hefur hann bleſſadur, aan Efa, þeinkt þaa, um ſijna Pijnu og Dauda, og beded ſinn himneſka Fo- dur Hiaalpar til ad yfirvinna Pijſlernar Mannkin- enu til Myſkunar, Luc. 22. Helgud Greftrunar Plaats og Legſtader Guds Barna, meiga mak- lega kallaſt fagur DRottens Alldengardur, hvar þeirra andvana Lijk verda ſaad i ſorglegre Vanſe- md, enn nunu þadann uppriſa i dijrdlegre Veg- ſemd, 1. Cor. 15. Giæt þijns Frelſara fagra Dæmes, Chriſtenn Madur, ſo oft ſem þu geing-

ur

ur um þeñann Akur; Lat Daudans Merke, sem þu sier þar fyrer þijnum Augum, uppvekia i þijnu Hiarta Daudans og Uppriſunnar gudrækilega Endurminning, og þad med ſoddann Andagt, ad hvert ſem þu lifer eda deyr, þa meiger þu vera viſs þar um ad þu ſiert DRottens, Rom. 14.

Þegar Lauſnariñ var geingiñ iñ i Grasgardiñ, liet hañ nockra eftir af ſijnum Læriſveinum i viſſum Stad, eñ nockra took hañ aſſijdes med ſier, til ad horfa uppa ſijna Saalar Angiſt og Dauda Strijd; Þar af ſkulum vid Saala mijn taka ockur tvøfalldann Lærdoom. 1. Merk þu, ad Guds heilog Chriſtne maa maklega Andlegur Gras-Gardur heita; JEſu utvaleñ Brwdur og elſkande Læreſveirn aatt þu mijn Saal ad vera, þu ſem i þeñann Grasgard ert fyrer Skijrnena innleidd, til þeſs, ad þu ſkuler afneita ſiaalfre þier, taka þinn Kroſs uppa þig, og filgia ſo JEſu efter, Matth. 16. O! mijn Saal, ſit þu med þolenmoodu, þacklaatu og hlijdugu Hiarta þar ſem JEſus ſeiger þier, og laat þier vel lynda þad Hlutſkipte, ſem honum þooknaſt ad laata falla i þitt Skaut; Allre þinne Ahyggiu ſkalltu varpa uppa hann, hañ bleſſadur mun beſta Umſorgun fyrer þier bera, 1. Pet. 5.

2. Lærum vid Saala mijn, ad ecke villde Lauſnarenn einmana vera i ſinne hørduſtu Hiarta Sorg; Eins ſkulum vid i ockar Freiſtingum og uppaafallande Angurs-Bøle fordaſt med þung-Sinne

og Einsetum ad auka aa ockar Harma, enn aftundum hiaa Gude og hanns Elskendum ad leita ockur Hugsvolunar og Harma Boota, þui su er Naadar Raadstofun DRottens, ad Mädur skule vera Manns Gaman; Þo er su Skiemtunenn best, ad hugsa til Guds, og una sier vid hanns miklu Mysskun. O! minn Astudlegaste JEsu, hardlega slær og saarlega nagar mig mijn eigenn Samvitska, nær eg hugleide þær herfilegu Kvaler, sem Þu leidst saklaus fyrer mig sekann Præl; Ach HErra! eg hefe giort þier Erfide med mijnum Syndum, og Mædu med mijnum Misgiordum, Es. 43. Vijst meiga mijner vondu Glæper vera ein ofur þwng Byrde, Psalm. 38. Jaa þijngre enn Himen og Jord, þar ed Guds Sonur JEsus, sem ber alla Hlute med Orde sijns Almættis Kraftar, Ebr. 1. Hlaut ad falla flatur til Jardar, þegar hanns himneske Fader hafde kastad ollum mijnum Misgiordum uppaa hann, Es. 43. Af þessare bitru JEsu Pijnu finn eg Ilmsæta Svala Lind med himneskum Lijknar Straumum, er flioota til minnar aangraadu Saalar. Þwngar eru ad sonu mijnar Synder mier til Hegningar, enn laangtum þijngre Borgun og Forlijkun sie eg ad Frelsare miñ hefur hier utlagt mier til Myskunar; hier er Gud i Christo ad forlijka Heimenn vid sialfann sig, 2. Cor. 5. JEsu saar-grætelegasta Sorg er mijnu sundur kromdu Hiarta sætasta Endurnæring; JEsu titrande Skialfte er minne hræddu Sam-

vitſku efunarlaus Trwarſtyrking þar um̃, ad hvar ſem Syndenn yfirgnæfir hiaa mier, þar yfirgnæfer Naadenn miklu framar i Chriſto JEſu, Rom. 5. Enn framar lær þu þad, Saala mijn, af bleſſadre Bænar Atferd þijns Lauſnara i Grasgardinum, ad Audmiwkt, ſundurkramed og andvarpande Hiarta er þad þægaſta Offur ſem þu ſkallt ætijd fram̃bera fyrer þijns Guds Naadar Auglite, einkum þegar nockur Neyd eda Hormung er fyrer Hende: Upplaat alldrei þinn Munn chriſtenn Madur, til ad mœgla med Opolennmæde aa moote Millderijkre Guds Raadſtofun, þvi þad aflar þier meire og þijngre Refſijngar; Opnadu helldur bæde Hug og Hiarta, til ad leita DRottens, nær Hormungenn aaliggur, Eſ. 26. Og bidia hann Vægdar og Myſkunar: Gleim ei helldur, þegar þu med Bænenne villt bera þijna lijkamlega Naudþurft fram̃ fyrer Gud, ad giefa þinn Vila ætijd med Audmykt under hanns Myſkunar Vilia, þvi ad þinn himneſkur Fader veit langtum betur enn ſiaalfur þu, hvers þu helldſt vid þarft, Matth. 6. Vonadu Efunarlauſt uppaa hanns Almætte og mikla Myſkunſeme: Hann mun þvi ollu vel til Vegar koma, Pſalm. 47. Þad er eirnenn ſiaalfſogd Skyllda vor Overdugra Veſælinga bæde med Saalar og Lijkama audmiwkuſtu Lotning ad koma fram̃ fyrer Guds dijrdarfulla Auglit i vorn Bænaſtad; Þetta byriar ad giora, ad Hiartad, ſem Gud helldſt aalijtur, 1. Sam. 16.

Sie þaa hvad best prijdt med Audmyktenne, enn hitt, byriar ecke helldur epter ad skilia, ad vor vesæle Lijkame beige sig, med Bligdan, fyrer hæleitu DRottens Tignar-Vellde, vidurkiennande sig med Abraham, ad vera audvirdelega Molld og Ösku, 1. Mos. B. 18.

O! minn Giædskurijkaste JEsu, þijn grætleg Grasgards Pijna sie og vere minne ormæddre Sæalu Ilmsætur Rædar og Svala-Brunur! sæ sæarbeitte Angurs Broddur, sem þitt helgasta Hiarta særde, virdest nædarsamlega ad gledia og græda mitt Syndum hrædda Hiarta i Lijfe og Dauda. Mijns Hiarta Audmykt og Andagt skal ætijd elska, vijdfrægia og vegsama Ast og Næd þijns Hiarta; Þier sie Dijrd, Heidur og Æra ad eilijfu, Amen.

# 3. Pijslar Pæanki.

## Um HErrans Christi Dauda-Strijd.

Enn honum birtest Eingill af Himne, sæ ed styrkte hañ. Og þar kom ad hann strijdde vid Daudañ, og took ækaflega ad bidia, eñ hañs Sveite vard so sem Blood Hniklar, þeir ed fiellu æ Jordena.

Alldrei

Alldrei er good Wijsa of oft kvedenn, þarsem Meñ eiga uṁ bitra JEsu blessada Pijnu ad ræda; Þess oftar sem uṁ hana er hugad, þess fleira sem af henne er talad, Þvi betur finnur ein sannydrande og trwud Saal þar inne Ilm Lijfsins til Lijfsins, og Guddoomlegann Kraft til eilijfrar Heilsugiafar, Rom. 1. Þvi skulum vid nu Saala mijn i sönnum Guds Otta taka þar til, sem seinast hættum vid, uṁ HErrans JEsu graatlega Grasgards Kvøl ad þeinkia og tala; Hver ad vijsu hefur vered yfred stoor, og øllum allra Eingla og Manna Krafte olldunges Obærileg. Hier hafa Bønd enn Daudans spent Hertoga Lijfsins, og Belials Læket skielft Morottenn Dijrdarennar, Psal. 18. Hann gieck til og fraa uṁ Grasgardenn finnande hverge Hvijld nie Roo, Hugsvølun edur Glede; Guds Reide ognade hønum, Helvijtes Pijsler geingu lukt yfir hann, og allar allrar Veralldarennar Synder voru uppgeingnar yfir hañs Hofud; Angistenn var alla vega naalæg, enn eingenn var saa er huggade, Psalm. 22.

Lær hier af og athuga Saala mijn. 1. Hversu hrædelegt þad er, ad falla i Hendur DRottens þegar hann er reidur, Ebr. 10. So fliott sem Liooseð hverfur ur Hwsenu fillest þad af svørtu Mirkre; Þegar Myskun Guds missest ur Jördunarlausu Mannsins Hiarta, þaa missest øll Naad og Huggun bæde aa Himne og Jördu, þaa er Maske allstaad hvervetna uṁvafenn Eymd og Neyd, O-

luckꝛ og Bolvan; Gud vill tilreikna henne Syndꝛena, og hvernenn gietur hun þaa stadest? Psalm. 130. 2. Maa hier af siaa, hvad Obæreleg-ar mune verda Piisler fordæmdra i Helviite, þeir ed med forstockudu og forherdtu Hiarta hafa safnad sier Reide aa þann Reidennar Dag, Rom. 2. Þeirra sviidande Kvala Elldur mun alldrei slockna; Þeirra nagande Piisla Ormur alldrei deya, Es. 66. O! hvad illt Verk er Syndenn, sem so Ognarleg Giolld efter sig leider. Minn Gud myskune mier, so eg alldrei forherdest af hennar Svikræde, Ebr. 3 3. Maa hier finna fagurt Bloomstur Himneskrar Huggunar; Þvi med þeim beisku Hrigdar Tarum sem blessadur JEsus uthellte i Grasgardenum, meigum vid, Saala miin, og aller ydrande Syndarar, viss vera, ad hann hefur utslockt Reide Baal DRottens, sem vid hofum upptendrad med ockar Glæpum; Honum vard allt til Ama og Angistar, so allt skyllde sinwast ockur til Farsælldar og Fagnadar, ad DRottenn villde virdast til ad veita ockur Huggun i Angistenne, vera ockur naadugur og heyra ockar Bæn, Psal. 4. Eg graatbæne þig minn Giædskurijkaste JEsu! virdstu fyrer þau Hrygdar Spor sem þu gieckst til þijns Dauda, ad opna minne aumu Saal i miinu Andlaate fagra frelsis Leid inni himneska Dyrd og Sælu; fyrir þad Neydar Bol, sem laa aa þier aa þinne Kvala Noottu, virdstu ad laata fagurt Naadar og Glede Lioos liooma yfir mier i ollum

miin-

miinum Sorgar, og einkum þeim siidurstu Dauans-Mirkrum. Þu varst Adstodarlaus yfirgiefenn af þijnum Vinum, giefdu ad eg i allre Neyd meige una mier i miins Guds Elsku og Nadar Ormum, seigiande til DRottens: Mitt Traust, mitt Slot, minn Gud, a hvern eg treiste, Psalm. 91.

Enn framar vitnar Historiann, ad Hertoge Lijfsins hafe strijdt vid Daudann. O! eina Furdu yfir alla Furdu, O! eina Ilmsæta Huggun og Glede. Med þessu siinu bitra Dauda Striide hefur Guds Sonur JEsus blessad miina yfirvofande Bana Sott og efter filgiande Andlaat. Hier tapade Daudenn siinum Kvala og Bolvunar Brodde, enn blessadur JEsus leidde i Lioos Lijfed og Odaudlegleikann, 2. Tim. 1. Nu mun minn Daude i JEsu Nafne verda mier einn sætur Hvijldar Svefn og gledelegur Inngangur fraa ollum Eymdum inn i eilijfa Sælu; Lofadur sie Gud, sem mier hefur Sigurenn giefid fyrer JEsum Christum, 1. Cor. 15. Adam leidde med siine Yfirtrodslu banvæna Blood-Skulld yfir Jordena henne til Bolvunar, 1. Mos. B. 3. Guds Sonur JEsus wthellte siinum Blood Sveita a Jordena, henne og ollum Skiepnum, sem a henne hæraft til Blessunar, so ad i JEsu Nafne verdur bæde Lijfsins og Landsins Avoxtur ollum Guds Bornum blessadur, Jaa, DRottenn upplijkur daglega siinum gooda Fiesiood, og blessar oll þeirra

Handa Verk. AE miñ Hiartans Blood-Brwdgume blessade JEsu! vijrdstu fyrer þinn sarheita Dreira-Sveita, ad mijkia og græda i Mykum þinne minn sarkallda Dauda Sveita, og gief ad mijn ormædda Saal meige þar i þijnum Myskunar Hondum hvijlast, hvar eingenn Piina nie nockur Angistar Sveite mun hana ad eilijfu snerta, Spek. B. 3. Enn a medann þier, DRottenn minn, þocknast mijnar Eymda Stunder i þessum Taara Dal ad treina, vil og skal eg seigenn þijna blooduga Grasgards Pijnu mier ætijd i fersku Minne hafa. Þegar eg ad Morgne Dags stend upp af Sæng minne, og stijg fyrst Fæte a Jordena, hupa eg til þijn, HErra minn JEsu, og andvarpa i Himenenn, ad þu læter þinn helgasta Blood-Sveita vera mijna Vernd og Blessan hvar sem eg er og fer, so eg, bæde ute og inne, verde blessadur i þier, minn Gud, sem skapad hefur Himen og Jord, Psalm. 115. Þegar Syndanna og Sorganna Bol særer Huga minn, flij eg med Naudþyrstu Hiarta i Grasgardenn þiñar Pijnu, rioodrande mijna aumu Saal i Dropunum þijns dijrmæta Dreyra, er eg audmiuklega bid og esunarlaust vona, ad mijnu Maale mune vægia, mijnum Hormum hægia, og mitt Hiarta hreinsa af daudlegum Verkum til ad þioona þier, minn lifande Gud, Ebr. 9. O! eina dijrmæta Foorn! O! einn mikann Græde Plaastur! Sañheilagur Guds Sonur bar sijns Fodurs Reide, so eg

Saka

Saka-Prællenn skyllde verda riettlætur fyrer Trwna, og hafa Frid vid Gud fyrer DRottenn vorn JEsum Christum, Rom. 5.

Pad er bert'af Pijslar Sogunne, ad þeß meir sem magnadest JEsu Dauda Striid, þeß heitare og ækafare giordest hanns blessada Bæn. Minstu þeß, Sæla mijn, þegar milldum Gude þocknast ad undann draga Hiælpena i þinne Neyd; Lær þa af Lausnara þijnum, ad bidia og andvarpa ad kalla og kveina þvi audmiukelegar og alvarlegar i Himenenn til DRottens, sem honum blessudum þocknast ad læta þig leingur i Eymdunum þreia, og bijda efter Bænheyrslunne, huggande þig þar vid, ad Fader Myskunsemdanna og Gud allrar Huggunar, 2. Cor. 1. Mun æ sier þægelegum eñ þier farsælum Tijma bræadlega giora þijna Frelsan, Luc. 18.

Ad siidustu sier þu, Sæla mijn, af Dæme Lausnara þijns, ad þeir himnesku Andar, heilager DRottens Einglar, eru bæde þier og ollum, i Anda og Sannleika bidiande Guds Bornum, Joh. 4. Til Verndar og Blessunar nærlæger i Eymdum þessa Lijfs, enn einkum æ þeirra Dauda-Stundu, til ad bera þeirra Eymdum-þiæadar Sæler, lijka sem Lazari fordum, ur þessum Armædufulla Heime inn i fagrann Abrahams Fadm eiliifs Fridar og Fagnadar, Luc. 16. O miñ æstudlegasti JEsu! Pad bitra Dauda Striid,

sem so hardt ad þier þreyngdi, er vort fegursta Frelsi, og ilmsæt Hugsvolun bædi i Lijfi og Dauda, þar fyrir syngist þier eilijf Æra bædi a Himni og Jordu, þar fyrir særist þier audmiukt Astar Packlæti af allri þinni Christni, sem þu hefur afkeÿpt med þynu Bloodi, Amen.

# 4. Piislar Pænki.

Samtal Christi vid Postulana.

OG hañ stood upp fraa Bænúñ, og kom til siña Lærisveina, og fañ þa sofandi ÿt af Hrygd og sagdi til þeirra: Sofid þier nu og hvijlist, Hvad sofid þier? þad er noog, standid upp og bidied, so þier fallid ei i Freystni. Siaaed, sÿ Stund tekur ad naalgast, og er komiñ, ad Mañsins Son mun ofurseliast i Syndugra Hendur. Standid upp og gaungum hedañ: Siaaed! Saa er mig svijkur, hañ er i Naand.

Þess er hier ad framann gietid i Piislar-Sogu DRottins, ad hann hafi ÿtvalid Þria af siinum elskulegum Lærisveinum, til ad vera hiaa sier i Kvoslinne, enn sialfur hann blessadur assiidis geingid, til ad lijda þær saarustu Saalar Piisler.

Þanninn hefur þu, minn Hiartkiæri Lausnari, fagurlega uppfyllt þad allt, sem ádur var um þig spaad, og viliuglega giefid þig til ad lijda Pijslernar eptir aformu DRottens Raade og Fyrerhyagiu, Post. G. 2. Þu gieckst afsijdis til ad lijda, DRottenn minn, þvi þu varst sa, sem einsamall attir ad troda Vijnþrœgu gudlegrar Reidi, og þar var einginn af Foolkinu medur þier, Es. 63. Þu varst sa eine Madur i Raadiñe, Rom. 5. Sem ollum villdir og maattir Raadena wtvega, þad eina Guds Lamb, sem bera skylldi Veralldarinnar Synder, Joh. 1. Lofadur vertu ad eylijfu, og gief ad þijn eina Raad duge mier til ævarande og æfileigustu Blessunar!

Strax sem Lausnariñ var litlu fram leingra fra Læirisveinunum geingiñ, fiellu þeir i fastañ Svefn. Æ miina vondu, vesolu og blindu Natturu! Ef eg skal ei i Synd og Raanglæti sofa, maattu miñ Jesu ecki eitt Stein-Snar fraa mier vijkia, þvi an þijn megna eg einkis, Joh. 15. Veit þu mier af Myskun þinne bædi Viliann og Maattinn til alls hins Góoda, Phil. 2. Þvi ad eins maa Nætur Hvijldin verda mier Hættulaus og Roosom, ad þu, minn HErra JEsu, virdist ad vaka hiaa mier med þinne Vernd og Blessan, þvi vil eg ecki a Kvolldinn sofna, fyrr eñ Saaleñ mijn hefur wtvegad sier Hvijld i þijnum Raadar Fadme, og avarpad þig med þeim Tveymur Emaus Reysendum: Vertu hiaa

vs HErra, hvad kvollda tekur og æ Dagiñ lijd-
ur, Luc. 24. Stoor var Veikleike JEsu Post-
ula, sem fiellu i værann Svefn, þa þeir vaka skyll-
du, enn aungvu betur erum vid Saala miin æ ock-
ur kominn fyrir Augl:te lifanda Guds; Vid erum
af ockar blessada Lausnara leidd inn i Alldingard
hanns heilegu Christne hier i Heime, til þess, ad
vid skylldum, med vakande Ast og Hlijdne, gaanga
Gude verduglega til allrar Þocknunar, Col. 1.
Enn, Gud næde! Hvad skialldann hofum vid i
JEsu Otta og Elsku vakad! Hvad oft hofum vid i
Synd og Andvaraleyse sofid! JEsus hefur med
Þresolldum Nædar Aminningum bodid ad vid
skylldum vaka, enn samt hofum vid læted Þrefall-
dann Synda Svefn sigra ockur. A Æsku Alld-
renum þookti mier inndællt i Ungdoomsins Fæavit-
sku ad sofa, enn JEsus liet vekia mig med Forell-
dranna hoogværri Hyrtingu og Advorun, ad eg
skylldi minnast æ minn Skapara, i mijnum Ung-
doome. Þred. 12. A Uppvaxtar Arunum lagde
eg mig æ Letinnar og Giælijfesins Kodda, JEs-
us hefur sendt Þienara sijna, sem mig æminna og
advara: Vakna þu upp sem sefur og rijs af Dau-
da, so mun Christur upplijsa þig, Eph. 5. Ecki
hafa Fullordins Arinn mikid bætt um fyrir Bern-
skunni; Æ! hvad svefnsamt vill mier laungum ver-
da i svortu Myrkre Syndsamlegrar Heimsins El-
sku og sofande Bænræktarleysis; samt hefur JEsus
ecke gleymt vid mig Giædsku sinne, helldur læted

dag-

daglega lioma inn i mitt Hiarta, Nadar Geyslu sijns heilaga Anda, sem mig hefur optlega aaminnt, til ad laata af Illu, enn læra Gott ad giora, Ef. 1. Enn þad mꝏ grꝏtlegt þykia, ad þess optar sem Lausnarinn JEsus hefur af sinne Naad viliad vekia mig, þvi fastara hef eg i Synd minne sofid. AE! mijna fordæmannlega Fyfsku! AE JEsu! Forlaat mier mijna Synd og Illsku, hvar med eg hefe auked þier Mædu og Hormung, enn aflad mier Straffs og Hegningar. Laat þier þo ecki leidast, minn liwfe DRottenn, ad benda mier i Millde og Myskun þinne, og draga mig, jafnvel med Hormungunum, til sannrar Umvendunar; Eg vil feiginn kissa aa þijna hyrtandi Hond med Pockum og Þolinmædi, enn laat þitt Myskunar Hiarta mier alldrei gleyma. Gladur og giarnann vil eg med Andagt og Elsku hiaa þier vaka; Lagfær þu og leidriett naadarsamlega mitt veika Holld og Blood, sem þad vilia ofmiog hindra: Drag mig efter þier, DRottinn minn, þa vil eg hlaupa, Lofk. 1. Þu leyfder þiinum þreittu Lærisveinum um Stund ad sofa og hvijlast; Þar af veit eg og vona med Glede, ad þu gode Jesu munir og so vægia og vorkienna Veikleika mijnum, þu sem best þecker mijna Skopun. Psal. 103.

Enn framar skalltu, Saala mijn, laata Lausnarans Aminningu til Lærisveinanna, vera þier ætijd i Huga og Minni vakandi: Vak og bid, so þu faller ecke i Freystne, faa er þig svijkur, hann er i Naanþ

Naud; Daudinn forrædur aan allrar Vægdar Fior og Liif, og Maala sannast er þad, ad hañ h·f-ur morgum Ovorum ad Hondum komid, eins og Þioofur aa Noottu, 2. Pet. 3. Hanns Tiimi er ætiid Oviß; Hañs Naalægd alldrei ervænt; Ollum Mønnum er aasett einusinni ad deya, og þar efter kiemur saa Ognarlegi DRottens Doomur, Ebr. 9. saa ed giallda mun einum og sierhverium efter hanns Verkum, Rom. 2. Þa mun hiñ Ognarlegi Diofull hvad ákafastur, ad vilia draga þær aumu Saaler i Elld eylijfra Kvala, Matth. 25. Sieadu vel til, i JEsu Nafni, Saala miin, ad þessi Ognarlege Her falle ecke yfer þig andvaralaust i Syndunum sofande; Vaktu i heitri Ydran og alvarlegre Gudrækne, so þu styrk i DRottne og Mætte hanns Kraftar, gieter stadest aa þeirre vondu Tiid. Miklu siidur gietur þu hiaalpast i Heimenum, enn vopnlaus Madur gietur vared Liif sitt i Bardaganum; Brynia þig þvi med Bæniñe, þvi hun er hin oruggasta Verndar-Hliif moot allre Neyd, og so sem Lykill ad Guds Naadar Fiaarsioodum. Einn liiflaus Liikame er fyrdtur ollum mannlegum Krafte, og Oniitur til allra Athafna; so er og ein Bænræktarlaus Saal, fiarlæg allre Bleßan, Onyt til allra goodra Hluta, og annarleg fraa þvi Liife, sem i Gude er. O minn aastudlegaste JEsu! Vak þu i mier med þinne Naad og Giædsku; Gief mier ad vaka i þier i þinne Ast og Elsku. Nær miñ Liikame hviilest i siinu Svefn-

Herberge, lat þar Saalina miina med vakande Ast og Andagt Hviild og Hliiſd hreppa i þiinum Myſkunar Fadme, Amen.

# 5. Piiſlar Panki.

Um Gydinganna Komu i Grasgardenn.

OG jafnſnart ſem hañ var eñ ad tala um þetta, ſiaa, Eiñ af þeim Toolf, ſem Judas hiet, þar er hañ hafde nu til ſijn tekid Flock Maña og Þienara Kieñimaña Hofdingiaña og Phariſeaña, kom hañ þangad og med honum Flockur mikill, med Bliſum, Lompum, Sverdum og Staungum og Vopnum, wtſender af Kieñimaña Hofdingium, Skriftlærdum og Auldungum, og hañ gieck fyrer þeim. Sem JEſus viſse nu allt hvad yfer hañ atte ad koma, gieck hañ fram og ſagdi til þeirra; Ad hveriu leited þier? Þeir ſvorudu honum: Ad JEſu af Nazareth. JEſus ſagde til þeirra: Eg em hañ. Eñ Judas, ſa er ſveik hañ, ſtood eirniñ hiaa þeim. Eñ ſem JEſus ſagde til þeirra: Eg em hañ, horfudu þeir bak aftur, og duttu til Jardar.

Maklega maa Mañskiepnuñar vesæla Liif i Verolldu þessare, lykiast vid standande Striid og bloodugann Bardaga, Job. 7. hvar ed Hæaske og Hormungar, vidlyst og Oflyande Her, fara at Hendur Guds Elskendum, þeim til Saalar-Tjons og Samvitsku Hrellingar. Alla vegana lijda Þau Hrygd, hid ytra Barættu, hid innra Otta, 2. Cor. 7. Midt i þvi ad DRottinn var ad ræda vid siina elskulegu Lærisveina i Grasgardenum, þuste þangad vopnadur Flockur hanns Ovina: Eins mœttu, Saala miin, vid þvi bwast, ad þegar miñst Vonum varer, þa er Vodeñ fyrer Hende, og jafnvel er Nætur-Hviildiñ ecke ætiid Ohullt fyrer Neyd og Hæaska: Gleymum þvi ecke, Saala miin, a sierhveriu Kvollde, ad aakalla Milldiriikann JEsum, ad hann virdest ad vardveita ockur under siinum Naadar-Vængium, so vid þursum ei ad skielfast fyrer Ogn Næturennar. Psal. 91.

Hrædelegt er ad hugleida Otrygd og Vielræde Svikarans Judæ, hver ed giordest Foringe þessa gudlausa Skara, og sveik siñ eigiñ Laavard og Lausnara med Kosse; Varastu, Saala miin, þetta vonda Dæme, og hreinsa bæde Huga og Tungu fraa allskonar Falsi og Flaarædi; Laat þier til Hugar koma, ad þoott nockrum luckest uñ Stund, ad hylia Prette siina under Hræsnennar Yfirskine, þa faa þeir þo ecke flwed eda falest fyrer DRottens Doome, saa ed ollum Yfirbootarlausum til Smaanar og Hegningar mun a, siinum Tijma augliisa

lijfa, Þad sem i Myrkrunum er hulid, og opinnber giora Rædenn Hiartnanna, 1. Cor. 4. Bidium Þvi Gud ad skapa i ockur hreint Hiarta, og taka alldrei sinn Nædar Anda burt fra ockur, Ps. 51.

Eñ framar er hier adgiætande guddoomlegt Almætte vors giædskurijkasta Lausnara JEsu, hver ed med Þessu eina Orde: Eg Em Hann, lagde vid Velle vopnadann Her Ovina sinna. Þetta Almættis Orded JEsu, sem hanns Illskufullu Ovine fellde med Ogn og Skielfingu, mun ockur, Saala mijn, i allre Neyd stydia og styrkia, med Lijfskroftugre Huggun og Endurnæringu. Þegar eg fell i Synd og Yfirtrodslu, og riettlætur DRotteñ vill reidast mier, sem eg optlega, æ Þvi midur! verdskulda, Þa geingur lyknarfullur JEsus, sa himneske Aaron, med ylmande Reykelsis Kier sijns Nædhroopande Bloods og Arnadar Ords, midt a millum Þeirra Lifendu og Daudu, 4. Mos. B. 16. midt a millum hins reida Guds og mijn ræanglætrar Saka-Skiepnu, segiandi: Eg Em Hann, sem med mijnu Bloode og bitru Pijnu, hefe giordt Frid og Forlijkun mille Guds og Manna, Col. 1. Forlæt Þvi, kiære Fader! Þessum Vesæling, hañs framda Synd; Gief honum upp af Myskun Þiñi, Þad forÞienta Straff! O JEsu! gief ad Þessi Þijn fagra Fridar-Boon, sie og verdi miña Synda Forlijkun, miñar Saalar ædsta Huggun! Þegar Andskotinn vill Ogna mier eñ Syndenn ofbiooda mier,

og Samvitskann Aklogun veita sokum Illverka minna, þa mun Nadarrijkur JEsus breyda sinn Myskunar Fadm yfir mijna Saalu, segiande: Eg Em Hann, sem afmae þijnar Synder, sem annad Sky, og þijnar Misgiörder, sem adra Þöku: Snw þier til mijn, þvíad eg vil frelsa þig, Es. 44. Þegar Sootter og Siwkdoomar þvijnga minn Lijkama, Faatækt og Volæde mæda mitt Hugskot, Bol og Bægiende særa Hiartad, þa mun Lausnarinn JEsus lijta i Lyknog Naad til mijn, segiande: Eg Em Hann, sem bædi hefi almaattugann Kraft og myskunsamann Vilia til ad græda allar þijnar Meinsemder, Psal. 103. og vil efter wtendad þetta Eymdarfulla Lijf, giefa þier þaa Oflekkudu, Oforgeingilegu og Oumskiftelegu Arfleyfd eylijfrar Sælu og Dijrdar, sem þier er vardveitt i Himnenum, 1. Pet. 1. Eg Em Hann, sem vil laata þijna stundlega Eymd snwast i eylijfann Dijrdar Fögnud; J Heimenum hefur þu Þreyngíng, enn vert hughraustur, þvi eg yfirvann Heiminn, Joh. 16. A Daudans Tijd og Doomsins Degi, þegar öll mannleg Hiaalp er hvad fiærlægust, vona eg og treyste, þott overdugur sie, ad milldur Jesus muni verda mier med Myskun sinne nærstur, seigiande: Eg Em Hann, sem efter allar þær Hörmungar, sem þu hefur lided i Heimenum, vil nu hugsvala þier med eylijfri Sælu i Himnenum, Jer. 31. so ad þar sem eg er, þar skalltu minn Þienare vera, Joh. 14. Gack nu blessadur inn i þijns Herra Fögnud, Matth.

Matth. 25.

O minn æstwdlegaste Lausnare! hversu feiginn mun eg Symdum þiærdur Vesælingur sofna þa hiñ seinasta Daudans Dwr i þiinum Myskunar Fadme? Hversu gladur mun eg þaa hiedann i Fride fara, og miin Augu munu siaa þitt Nædar Hialpræde, Luc. 1. Eg vil nu Hiartans feiginn, O miñ JEsu! þiinu Elsku Avarpe audmiwklega svara og segia: Eg Em Hann, sem gief þier Hiarta mitt, og læt miinum Augum þocknast þiina Vegu, Ordsk. 23. Æ! svara mier aftur aa moot, minn sætaste HErra! Eg Em Hann, sem læt mitt Hiarta sundur brotna til þiin, so eg hliit þier myskunsamur ad vera, Jer. 31. Laat þetta ockar Samtal, liwfaste Jesu! byriast med stadfastri Trw og Von i Nædinni; Laat þad fullkomnast med Fagnadar Sioon og Skodun þiins Andlitis eyliiflega i Dyrdenne! Amen.

## 6. Piislar Paanki.

Um Judæ Koss og Christi Faangelse.

HAñ spurde þaa eñ einusiñe: Ad hverium leited þier? Eñ þeir sogdu: Ad JEsu af Nazareth. JEsus svarade: Eg sagde ydur þad; Eg em hañ. Þar fyrir, ef þid leitid ad mier, þaa laatid þessa

burtu fara. So ad uppfyllltist þad Ord, hvad hañ hafdi sagt, ad aungvum glatadi eg af þeim sem þu gafst mier. Eñ Svikariñ hafde giefid þeim sameiginlegt Teikn og sagt: Hvern hellst eg kysse, sa er þad, griiped hañ, og leided i burt varrygdarlega. Og þa hañ kem, nálgadist hann JEsum, ad hañ kysse hañ. Og jafnsnart gieck hañ til hañs og sagde: Heill siert þu Rabbi, Rabbi, og kyssti hañ. Eñ JEsus sagde til hañs; Vinur, hvar fyrer ertu komiñ? Juda, svijkur þu Mañsins Son med Kosse? þa geingu þeir þangad, og løgdu siinar Hendur á JEsum og griipu hann.

Med gudrækilegri Forundran meigum vid, Salamiin, dáðst hier ad DRottins vors JEsu Christi Dijrdarfulla Almætte, og allra hellst hañs dæmelegre Ast og Millde. Alhægt hefde Lausnaranum verid, ad láta Ovine siina liggia flata á Jordunne, eins og þeir, fyrer hanns Almættis Avarpe fallner voru, þar til hann blessadur hefde giętad fordad sier, og flwid wr þeirra Hondum; Enn DRottenn stood hier ad laangtum frægara Dásemdar-Verki, enn ad frelsa sitt Liif, hann var nu blessadur i Tilbwninge, ad giefa þad wt, til Endurlausnar fyrir alla, 1. Tim. 2. Þess vegna leifdi

hañ

hann i Lykn og Vægd Ovinum sijnum, ad standa a Fætur aftur, sagdest vera sa, ad hverium þeir leitudu, og gaf sig so sialfviliugur i þeirra Valld og Hendur; Einginn megnade hanns Lijf fra honum ad taka, helldur lagde hañ þad af sier sialfur, Joh. 10. af bliidre Hliidne vid sinn himneska Fodur, og brennande Elsku til vor aumra Maña. Tak þier hier af, Saala mijn, Lijfkrøftuga Huggun og glediléga Trwar-Styrking. Einginn Ovinur megnade þijnum Lausnara, añ hanns eiginn Vilia, hid minnsta Mein ad vinna; Eingiñ Andskoti kann þier helldur, añ hanns Leyfis edur Lyknarfullrar Raadstøfunar, hid minnsta Grand ad giora; So adgiætid Auga Fodurlegrar Forsioonar hefur JEsus vakande yfer Elskendum sijnum, ad oll þeirra Høfud-Haar eru talinn, og eckert af þeim fellur a Jord an hanns Raadar-Vilia, Matth. 10. Fleyg þvi allre þinne Ahyggiu uppa JEsu Forsioon og Fodurlega Umsorgun, hann mun þig alldrei ad eylyfu yfergi fa, Psal. 55. JEsus giordist sijnum himneska Fodur hliidenn allt til Krossins Dauda, Phil. 2. Þar med hefur hann blessadur fullkomna Boot og Forlikun giort fyrer miina margfallda Ohliidne; Hann galt þaa Skulld, sem eg ætte ad giallda; Hann bar þad Straff, sem eg ætte ad liida; J hanns Nafne og fyrer hanns Forþienustu, er og verdur minn Misgiørdningur fyrergiefenn, og hefe Tvofalldlegt, nefnilega: Fodurlega Fyrergiefning, Saaluhi-

ælplegt Riettlæti, medteked af Hende DRottins fyrer allar miinar Synder, Es. 40. O! miin Saal, gleym alldrei, hvilik Þiin Skyllda sie aftur æ moot, fyrer Þessa Ometannlega Lausnarans Astog Millde; JEsus gaf siaalfviliugur sitt Lijf Þiær til Frelsis og Endurlausnar, gief honum Þitt Liif og alla Liissens Krafta til so viliugrar sem skylldugrar Þioonustu og Þocknunar; Hanns Naadar-Bilia skallt Þu giarnann giora, hans Liissens Ord ydduglega i Hug og Minne vardveita, Ps. 40.

Vor Formooder Eva liet banvæna Lysting til Þess bannada Eplis tæla Munn sinn, sier og allre Verolldu til Olucku og Angistar, 1. Mos. 3. JEsus leifde Svikaranum Judæ ad minnast vid siinar æstvdlegu Varer, æ hveriar Naadenn er vothellt, Ps. 45. ollum Naud-liidande Saalum til Lyknar og Svolunar. Miñ goode og Giædskuriike Herra, sem Svika-fullann Flaaræde̋is Koss fieckst ad reyna, vyrdstu myskunsamlega ad vardveita mig fraa Diofulsins, Heimsins og Holldsins Svikum, so eg kunne Þau i Þiinum Krafte gledelega ad yfirvinna; Laat Þiina Myskun og Trwfeste geyma Liif mitt og Æru fraa allre Smaan og Olucku, Ps. 57. Þegar Diofulsins og hanns Utsendara Fals og Hrecker vilia sigta mig, sem Hveite, virdstu Þa blessade Lausnare minn best fyrer mier ad bidia, so miin Trw Þrotne ecke, Luc. 22. Oll Veralldarennar Prettviise og Svik eru ber og nakenn fyrer Þiinum blessudu Augum, Ebr. 4. DRotteñ miñ! Laat

Laat alldrei þaa fordæmannlegu Andstygd stadnæmast i miinu Hiarta; Þu aavarpadir þiñ Svikara med Vinar Nafne; Veit, ad eg aumur Veslingur megi heita og vera þinn elskande Vinur og aastriikur Læriſveinn, ſaa er af Hiarta hliide þiinum bleſſudu Bodordum, Joh. 15. og efter þiinum Vilia framgaange i Einfalldleik og Guds Grandvarlegleika, 2. Cor. 1, Þad maa med ollum Riette ſegia, ad vid, Saala miin, ſaum i andlegann Maata, ad minnaſt vid JEſum þegar vid i þvi haaverduga Altariſins Sacramento medtokum med Munnenum hanns allra heilagaſta Liikama og Blood, ſem wtgiefed er Heimenum til Liifgunar, Joh. 6. Giætum ad ockur, i Guds Nafne, Saala miin, og giefum þa ecke ockar aaſtriika Frelſara nockurn falſkann Flaarædis edur Hræſnennar Koſs; Þroofum ockur med heitre Hiartans Andagt, og priidnm ockur med ſanñri Yd̃ran og Saaluhiaalplegre Trw, ſo vid verdum ecke ſek vid Holld og Blood Drottins, 1. Cor. 11. Minnunſt med heitre Elſku og Bænar Koſſe vid þann bleſſada Guds Son, ſo hann verde ockur ecke reidur, Pſalm. 2.

J annann Maata vitnar Hiſtoriann, ad hinn Gudlauſe Gydinganga Skare hafe þad bleſſada Guds Lamb, Lauſnarañ JEſum, Hondum teked og i Fiotur fært, hvar af hanns helgaſta Holld hefur aan Efa mætt hryggelegre Medferd, og hon-

um Mynskanarlaust misþyrmt vered. Minn Hiartans Giædskurikaste Lausnare! Med audmiwkum Tarum og Trega maa eg þad medkienna, ad eg hefe med syndugum Hondum Glæpa minna, orded so sem samtaka Ovinum þiinum, sem krombu og kvolldu med hordum Fiotrum þinn helgasta Liikama; Þess ydrar mig nu af ollu Hiarta; Æ DRottenn! Mynskuna mier epter Mynskunsemd þinne, og afmaa miinar Synder af þinne stooru Giædsku; Ps. 51. Þu lietst þig sem annann Fanga fiotra og binda, veit mier ad odlast naadarsamlega Lausn og Kvittun minna Synda i þiinu Nafne; Þu varst med hordum Fiotrum reyrdur, laat mig alldrei ad eyliifu slitenn verda wr þinne Mynskunar Hende, Joh. 10. Þu lietst Kvalanna Fiotur aa þig leggia; Veit mier, ad eg laus wr ollum Bolvunar Snorum, mætti i þiinum Elsku og Naadar Bondum, Hos. 11. bædi lifa og deya; Giefdu mier þad, DRottinn minn, ad Minning þeirra hordu Fiotra, sem þinn helgasta Liikama kromdu, aptre ꝛ jafnann og i Tame hallde ollum minum Tilhneigingum, Lidum og Limum fraa vondum Glæpum og Gudlausu Holldsins Giaaliife; Bind miina Saalu vid þitt Mynskunar Hiarta, med Elskunnar Bande. Festu Vilia minn vid Veginn þinna Bodorda med Hliidnennar Fiotrum, so ad eg med lidugu Hiarta og loflugu Giede, þioone trwlega þiinum Naadar-Vilia, og bevare þiin blessud Bodord allt til

Enda

Enda, Amen.

# 7. Piislar Pænki.

Um Vorn St. Peturs og Malchus Eyra-Saar.

Enn þa þeir, sem hiaa hönum voru, saa hvad verda villde, sögdu þeir til hans: Herra! Skulum vier ecke slaa med Sverde? Og siaa, ad Einn af þeim, sem med JEsu voru og þar stoodu, Simon Petur hafde eitt Sverd, riette wt Hondena og rickte þvi, og sloo til Presta Hofdingians Þienara, og hioo af hönum hans hid hægra Eyra, og saa Þienare hiet Malchus. Enn JEsus svarade og sagde; Leyfed þeim ad giora enn frekar, og sagde til Peturs: Sticktu þijnu Sverde i Slijdrer, þvi hver ed Sverded tekur, saa mun fyrer Sverde farast. Eda meinar þu, ad eg kunne nu ecke ad bidia minn Fodur, ad hann sende mier meir enn Toolf Legion Eingla? Skal eg ecki drecka þann Kaleik, hvern ed minn Fader hefur mier gefed? Enn hvernen skylldu þa Ritningarnar uppfylldar verda? Þvi þad hlijtur so ad skie. Og hann aahrærde

hans

hañs Eyra, og læknade hañ.

Þvi stærre sem er Hæfke og Hormung þessa daudlega Lijfs, þess gudrækilegar ættum vid, Saala miin, ad giæta þess, ad framgaanga forsiallega, og hafa jafnann vakande Auga a þvi, hver ad sie Vilie DRottens, Eph. 5. Lærisveinarner spurdu Lausnarann JEsum Raada, hvert ei skyllde til Vopna taka, so afvendt yrde yfervofande Voda; Giorum hid sama, Saala miin! Leitum i sierhvoriu uppafallande Vanda-Efne goodra og gudrækilegra Raada, Syr. 37. og leggium alldrei Hug nie Hendur a þad Verk edur Aform, sem eckert i Otta DRottens, og med Raade stofnad, þvi þad verdur ad aungvu og til Olucknar eiñrar, Ordsk. V. 15. Reidum ockur ecke helldur ofmiog uppa Mannaña Raad, þvi þau eru opt vidsiaal og vandhitt, hvsum þvi almaattugann Gud fyrer Augunum, og laatum hanns heilaga Ord vera ockar Raada-Reyte, so vid hotum alla vonda Vegu. Ps. 119.

DRottenn bannade Læresveinunum ad bregda Sverde, edur brwka þad til Varnar sier: Þar eru Tvennslags Sverd, sem Menn hafa medferdis i Heimenum, hid fyrra er Sverd þess veralldlega Rettar, eda Doomara Embættesins, sem Drottenn hefur Valldstiornenne i Hendur feinged, ad hun skyle bera þad og bregda þvi goodum til Forsvars og Fridar, enn vondum til Straffs og Hegningar, Rom. 13. Þad annad er Sverd eigenn

Hefnd

Hefndar og Heiptargyrne, hveriu JEsus alvarlega bannar med Brædé ad beita, enn alvarlega bijdur ad geyma pad i Slydrum christelegrar Hogværdar og Poliñmæde. Take sier hier af gurækelega Aminning aller Virdugleger Yfervallds Menn. 1. Ad þeir, so sem riettskickader Drottens Þienarar, fare i Guds Otta vel og varlega mz Sverd Laganna og sijns Embættis Myndugleika; Laate pad særa og stijnga Jllvirkia og vonda Meñ, eñ vernda og forsvara frooma og raadvanda Guds og Kongsins Þegna, so vier mættum hafa spakt og roosamt Lijfernei allre Gudrækne og Sidseme, 1. Tim. 2. 2. Varest aller Yfervallds-Menn, ad brwka sijns Embættis Valld og Myndugleika, til ad sækia sinn eiginn Rett, eda hefna sijn a þeim, sem þeir þykiast sialfer eiga nockrar Saker vid; Giæte þeir þess, ad JEsus vill þeim i soddann Tilferli sagt hafa: Sticktu þijnu Sverde i Slijdrer, þvi hver sem tekur Sverd Heiptar og Hefndargyrne, hann skal farast fyrer Sverde Reide og Refsingar. Giallde þvi einginn, sem Guds Barn vill vera, nockrum Manne Jllt a moote Jllu, helldur legge Kapp a gudrækelega Goodmeñsku; Hefne sijn eigenn sialfur, helldur giefe Rwm Reide DRottens, hanns er Hefndenn, hann mun endurgiallda, Rom. 12.

Enn framar athugum vid Saala mijn, ad Malchus sem miste sitt hægra Eyra i Flocke JEsu Ovina, maa med øllum Riette merkia Guds hei-

legu Orda Foracktara sem læta sig Christna kalla enn apturbirgia þó, edur og olldunges afhoggva þad hægra Eyrad Hiartanlegrar Andagtar, med hveriu þeir ættu ad heyra þau sætu DRottens Orda Roddu sier til Saaluhiaalpar, halldande heilu og opnu hinu vinstra Eyra, hvert ed laungum klæar epter skamarlegum Ordum, Fiblslegu Hiale og Kieskn:, sem christnum þo ecke soomer, Eph. 5. Þetta er hid vissasta Merke allra DRottens Ovina, ad heyra ecke Guds Ord med nockre Andagt, þvi þeir sem so giora, eru ecke af Gude, Joh. 8. Jeg grætbæne þig, minn Giædskurijke JEsu, læt hverke þetta, nie annad Ogudlegleikans Merke aa mier siaast eda finnast; Laat mig so þitt Ord med Eyrunum heyra, ad eg meige þijna Elsku i Hiarta mijnu vardveita, allt þangad til eg fæ ad elska þig fullkomlega, og siaa þig berlega i eilijfu Lijfi.

Ad sijdustu skijn hier fagurt fyrir Augum ockar, Saala mijn, blessud JEsu Ast og Raad, er hann auglijste med þessum Ordum: Skal eg ecke drecka þann Kaleik hvern ad minn Fader hefur mier giefed? Lærum hier af Lausnara ockar heilaga Þolennmæde i Hormungum ollum, sem honum blessudum þocknast aa ockur ad leggia. JEsus nefner sijna Kvol, sem hann leid fyrir ockur, Kaleik af sijnum himneska Fodur auskeinktann; Guds Ande nefner med sama Nafne þær Hormungar, sem hin eilijfa Giædskann lætur sijnum Elskendum til Handa bera; Heime þessum; Þu fæder þaa med

Har-

Harma-Braude og birlar þeim Dryck med stoorum Mæler fullum Taara, seiger hin heilage David, Psalm. 60. Giörum fyrer Guds saker, Saala miin, og forsmaaum ecke Adryckiu vors allra hædsta og allena gooda Födurs; Ecke mun hann birla fyrir ockur beiskare Harma-Bikar, enn vid saaum fyrir hanns Hiaalp afdrucked; Ecke leggia ockur þijngre Mædu-Byrde aa Herdar enn vid gietum med hanns Adstod under risid. JEsus hefur sialfur afdrucked þann fleite fulla og sjarasta Kaleik Kvalanna, enn hann afhender ockur annan laangtum minne, og af Lijkn og Myskun sætann Mædu og Mootlætis Kaleik; Lijka sem vid höfum miked af Christi Pijnu, so verdum vid eirnenn rijkuglega fyrer JEsum Christum hugguð, 2. Cor. 1. Tokum þvi tveim Hondum Aftar Packlætes og Polennmæde aa moote ockur af Almaattugum Gude uthlutudum Eymda Bikar, og seigium med ockar Saaluhiaalpara JEsu: Skal eg ecke drecka þann Kaleik, sem minn Fader hefur mier giefid? Og med þeim Guds Manne David: Þann Heilsusamlega Kaleikenn vil eg medtaka, og Nafned Drottens vegsama, Psalm. 116.

Framar maa hier finna merkelegt Dæme milldeijkrar JEsu Hoogværdar vid Malchum, hvers Eyra-Saar Endurlausnarenn læknade, og liet hann ecke giallda þess, þott hann fillte Flock hanns Ovina; Æ! hiaalpadu mier, minn Hiarta goode JEsu, ad eg i sama Maata elske Ovine mijna, og

gief

giore þeim gott ſem mig hata, Matth. 5. Virdſt þu med þinne Myſkunar Hende ad upplioka mijnum dopru Skilnings Augum, og ahræra mitt ſærda Hiartans Eyra, ſo eg meige riettilega ſkilia og þeckia, gudrækelega heyra og vardveita þitt heilaga Lijfſins Ord mier til Saaluhiaalplegra Nota, Pſalm. 110. Jeg grꝏtbæne þijna grunnlauſa Millde, laat mig alldrei med nockre Oþolennmæde mootmæla, veit mier med ſonarlegri Hlijdne ætijd Vidtoku ad veita þeim Kroſs Bikar ſem þier þecknaſt fyrir mig ad ſkeinkia, og nær mijnar Eymder vilia mier ofbitrar og beiſkar verda, O Drottenn minn! dreiptu þaa aa Saalu mijna, og leid hana fram̃ ad ferſkum Votnum þinnar Naadar og Hugſvꝏlunar! Amen.

# 8. Piiſlar Pꝏnke.

Predikun Chriſti fyrir Gydingum.

A Þeim Tijma ſvarade JEſus og ſagde til Foolkſins og þeirra Preſta Høfdingia, og Høfuds Maña Muſtereſins og Ølldunganna ſem til hañs voru komner. Þier erud ſo ſem til añars Rænsingia utgeingner med Sverdum og Staungum ad grijpa mig. Daglega hef eg hiaa ydur verid ſeted og kient i Muſterinu

og hier hafid aungvar. Hendur at mig lagdt, og ecke griped mig, helldur er þetta ydar Tijme og Magt Myrkrana, so ad Ritningarnar uppfyllduſt. Eñ allt þetta er ſkied, ſo ad uppfyllteſt Ritningar Spamanana.

Ometanleg er Nærd og Polenmæde DRottens / ſem med wtriettre Hende ſinnar Hiartgroon ar Nadar og Giædſku, Eſ. 65. Virdeſt ad locka og lada Syndarann til ſannrar Hiartans Yfirbootar, Rom. 2. Soddann Lijknarfulla Myſkun ſijnde Lauſnarenn JEſus hinum blindu og Prioſtſkufullu Gydingum, advarande þa med hoogværum enn þo alvarlegum Aminningar Ordum um þeirra Illſku Breitne og yfirhangande Reidennar Straff; Allt eins er hanns Myſkunar Hiarta enn nu i Dag ſinnad vid oſs villuraſande og brotlega Veſælinga; Hann hefur aungva Þocknan a Dauda hinns Ogudlega, helldur þad ad hann leidriettteſt og lifi, Eph. 33. Enn framar er Athuga verdt herſilegt Opacklæte hinna gudlauſu Gydinga; DRottenn hafde i langann Tijma gienged a medal þeirra, giort gott og grædt alla þa ſem af Dioflenum voru underþryckter, Poſt.G. 10. Hann var ſier i lage ſendur Iſraels Lijd til Frelſis, Luc. 1. Og ollum Heime til eilijfrar Endurlauſnar; Enn ſo illar Packer galldt þeſſe vonda Kynſlood Gude ſijnum, ad þeir afneitudu hinum

hei-

heilaga og riettlæta, Post. G. 3. Og sielldu sinn og alls Heimsins Lausnara i Krossens Kvaler og Dauda. Lært þier, Sæla mijn, þesse Gydinganna vondu Wijte ad gudrækilegum Warnade verda; Allt þad gott sem þu færd af Guds og Manna Hende ad þiggia, skalltu med verdugu Astar Þacklæte æsannast læta, giætande þess, ad hver gott med illu launar, af þess Hwse mun Oluckann ecke linna, Ordsk.B. 17. J þridia lage merkium vid Sæla miin, ad ecke megnudu JEsu Oviner ad giora hønum blessudum hid minsta Mein, edur leggia Hendur æ hann, fyrr enn sæ Tijme var komenn, sem hid alviissa Guds Rææd hafde ætlyktad, æ hverium Christur ætte ad lijda, Post. G. 3. Eiliif Huggun æ og skal ockur þetta vera mijn Sææl i allskonar Mædu og Mootlæte; Allteins og þvi var hættad um JEsu Pijslar Tijma, eins er þvi og so vared um ockar Sorga og Rauna Stunder; Þær eru allar fyrer siedar, takmarkadar og talldar af Rædar Forsioon og Mysknnar Rææd stofun hins alvallda og alleina gooda Guds, hvers Verk og Weiger ecke eru annad enn Myskun og Sañleike, øllum þeim sem hanns Bodord og Witnisburde af Hiarta geyma og vardveita, Psalm. 75. Hañs Guddoomlega Almætte rædur mest; hanns giædskurijka Umhyggia sier best fyrer Uppbyrian Framgææge og Endalykt ockar Mootlætis og Sorgar Tijma; Þeir eru aller i hanns Book teiknader, Psalm. 139. Og er þar gott

hañs

hanns blessada Naadar Vilia ad taka; Þegar vid hofum DRottens Otta alla Tijma fyrir Augunum, meigum vid vera viss þar um, ad þvi leingur sem ockar Sorgar Tijmar vara til ad nidursaa i Taarunum hier stundlega, þess meir naalægiast ockar Glede Tijmar til ad uppskiera med himneskum Sælunnar Fognude eilijflega, Psalm. 126.

Þesse ero ydar Tijme, sagde Lausnarenn JEsus vid Ovine sijna; Laatum þesse Ordenn DRottens þiena ockur, mijn Saal, til gudrækilegrar Aminningar. Nu yfirstendur saa þægilege Naadar Tijme og fagre Hiaalpræded Dagur, 2. Cor. 6. A hverium ockur er Kostur giefinn ad leita DRottens med sannre Ydran, so vid meigum Naad og Fyrirgiefning hiaa honum finna, Es. 55. Enn nu hefur hin eilijfa Giæskann Polennmæde vid ockur, 2 Pet. 3. Og sparar ockur til Bootar og Betrunar; O! mijn Saal, siaaum vel til, ad vid medtokum ecke Mykun Guds til Onijtes, 2. Cor. 6. Edur forsoomum Tijma Guds Naadar og vorrar Ydrunar; Giætum þess, ad þvi leingur sem Guds Ofreitt Polinnmæde bijdur forgiefens epter vorre Lijfernes Betran, þvi Obærilegre verdur ockur hanns Reide, þegar saa Tijme kiemur, ad hann gielldur sierhverium epter þeirra Verkum, Rom. 2. Æ! þad er noog ad vid hofum þann umlidna Tijma Lijfdaganna illa vanbrwkad og til goods forsoomad, laatum ockur nu i Dag, medan vid faaum ad heyra Naadar Rauist DRottens

ecke

ecke forherda leingur vor Hiortu, Ebr. 3. Tesium ecke i Dag af illu ad lata, enn þad gooda ad ástunda, Es. 1. Þvi annars er hætt vid, ad Naadar Dyrunum verde i Noott ad eilijfu aptur lokad, Matth. 25.

JEsus nefner Aræsir og Ofrijke sinna Ovina Magt Myrkraña: Giætt þess oll good Yfirvolld, hverium Gud hefur Magtena i Hendur feinged, ecke til ad vera Skalka-Skiool og Forsvar vondra Verka, helldur, so sem Liioosid burtdrijfur Myrkurenn med sijnum fagra Liooma, so eiga og Yfirvolldenn, med Liioosi christilegra Laga og gudrækelegrar Stioornseme, ad burt taka þad vonda ur Landenu: Athuge þau, ad Myrkra Magt Heimsins mun endast og afmaast, þegar sa kallde Daude kiemur ad Hondum, og hanns dimu Myrkur yfirdynia, þaa mun Dijrd þeirra Velldis ecke med þeim fara, Psalm. 49. Og i þeim ytstu Kvala Myrkrum mun Reide, Hrelling og Harmkvæle gaanga so vel yfir volldugа sem vesæla, þaa er Illsku hafa drijgt a Jordunne, Rom. 2. Oll Veralldar Mannaña Magt og Metord eru fallvollt sem Myrkur og Skugge, saamijt sem Hey og Hiegoome, Es. 40. Vertu þvi alldrei so blind Saala mijn ad þu hrædest ofmiog þeirra Valld, Matth. 10. Eda reider þig uppa Hofdingianna Hylle, þvi þeir megna optlega ecke ad hiaalpa, enn sa er sæll, hvers Hiaalp ad Gud Jacobs er, Psalm. 146. DRottenn JEsu, þu sem ert Lijf og Lioos allra Maña,

Manna, Joh. 1. Lijs þu øllum Christnum Ysir-valldz Monum med þijnum Nædar Anda, ad þeir, verande Lioos i DRottne, meige i gudrækelegum Digdum og Dædum framgaanga, so sem Lioossins Born, Eph. 5. Þu lietst, DRottenn minn þaa straungu og strijdu Kvalanna Tijma yfir þig koma; Giesdu Gud minn, ad mijn Hrygd, sem stundleg og liett er, afle mier eilijfrar og ometanlegrar Sælu og Dyrdar, 2. Cor. 5. Þu leidst Grymdarfullre Myrkra Magt þinna Ovina yfir þig ad falla, veit mier, ad eg fraa ytstu Kvala Myrkrum eilijflega leystur, meige giegnum Daudann inngaanga i þaa himnesku Jerusalem, hveria þijn Dijrd upplioomar, og þu Lambed Guds ert hennar Lioos, Openb. B. 21. O! JEsu, veit mier þann Sooma! Amen.

# 9. Pijslar Pænkj.

Um Flootta Lærisveinannna.

Þaa forlietu hañ aller Lærisveinarner og flijdu. Og þar var eirn ungur Mañ sa ed honum eptersilgde, hañ var med Lijne klæddur yfir bert Hørund, og Ungmeñe gripu hañ. Enn hañ snarade Lijn-Klædenu, og flijde nakeñ i burt fraa þeim. Eñ Flockurenn og hiñ ypparste Hofuds Madur gripu

JEsum og bundu hañ.

Hier maattu Saal mijn siaa og læra af Flootta Læri sveinanna, þegar þeirra Laavardur var til Fanga tekenn:

1. Hversu fallvølt og faanijt er Hialp og Adstod daudlegra Manna i Neydenne. Þegar einum geingur vel maa hann faa fagnande Vin i hverju Hwse, Syr. 37. Enn eirn Brooder, sem i Neydenne verdur fundenn, Ordsk. B. 17. maa seigiast Gulle og Gersemum fægiætare; Nockra brestur Viliann, nockra Maattenn, og suma kañske hverutveggia i Haaska og Hormungum Hiaalp ad veita; þeim fer þaa vidlijkt vid Vine sijna, og Leigulidanum, sem yfirgiefur Saudena, þaa hann sier Ulfinn koma, Joh. 10. Og verdur þad fyrst ad Veige ad forda siaalfum sier; Og þann Veg hygg eg Vinerner reinest laungum vesæler Lids og faanijter Huggunar Menn, Job. 16. Varastu þvi Saal mijn ad setia ofmikla Von uppaa Heimsins vallta Adstod og vesællt Vinfeinge, þvi faa Madur er af Guds Anda bølvadur, sem hefur so sitt Traust aa Mannenum, ad hanns Hiarta burt vijkur fraa DRottne: Enn sæl er, og verdur um̃ Tijma og Eilijfd blessadur, sem treyster aa Gud og setur sijna Von til hanns, Jer. 17.

2. Athuga þu, Saala mijn, hversu miklu midur þier sie fared enn Læresveinum vors Lausnara; Þeir høfdu Leise sijns Meistara ad flija og forda Lijfe

Lijfi sijnu, viliande nauduger vid hann skilia; Enn hvad opt hofum vid, þvert i moote DRottens Vilia og Bode, flwed ur Þioonustu ockar himneska HErra, og stoleft undann Blood-Merkium vors blessada Hers-Hofdingia JEsu, hafande Lyst og Glede af þvi ad lia ockar Limu til ad þioona Ohreinleikanum fra einu Raanglætenu til annars, Rom. 6. So vid vorum sialfdæmd til ad fara so sem Farsloottafra Guds Naadar og Dijrdar Auglite i Afgrun eilijfra Kvala. Enn losadur siertu, Lausnare minn, sem Naadarsamlega hefur mitt Bol alited, og minne Naudsyn biargad; Eg foor villtur sem Saudur, Es. 53. J minne Blindne og Þvermoodsku; Þu leitader ad mier sem goodur Hyrder i Myskun þinne og Giædsku, Eph. 34. Og leidder mig a riettann Veg fyrer þijns Nafns saker; Þu varst einmana yfirgiefinn i hardþrakande Hondum þinna Ovina, so eg skillde i minne Neyd verda niootande þinar Hiaalpar og Hiaastodar; Þu varst af ollum forlaatenn i þijnum Hormungum, so allt skillde snwast mier til Huggunar og Glede i mijnum Mañraunum. Æ! minn hiartkiære Lausnare! vert þu alldrei laangt fra mier med Lijkn og Lidsemd þinne; Laat mig ei Hiaalpar lausañ þreya i Þrautum mijnum; Gud! minn Heilsugiafare, flijttu þier ad hiaalpa mier, Psalm. 71.

3. Lær þu þad Saala mijn af þeim unga Mañe sem flwde nakenn fra Ovinanna illum Skara; Ad

betra er med nockrum Skada sijnum ad skilia sig vid Samfielag illra og Orærdvandra Maña, enn med sannijtum Abata og under eins illre Samvitsku ad verda samdauna þeirra vondre Breitne. Su er ein skiær og ofleckud Guds Pioonusta, er aller ræki skylldu, ad vardveita sig af fremstu Kroftum ofleckada fra þessum vondu Heime, Jac. I.

4. Er þad af Historiunne auglioost, ad hid saklausa Guds Lamb Lausnarenn JEsus Christur hafe med myskunarlausre Medferd mest alla Noottena hrakenn og dreigenn vered under Kvaler og Krossins Dauda af þeim gudlausa Ovinaña Skara. Allt hefur þu þetta lided, Lausnare minn! mier til Myskunar, og minna Synda vegna; Jeg er sa vonde Pioon, sem med Glæpum miinum hefe allt til þess unned, ad dragast i giegnum Daudans dimu Myrkur til eilijfra Helvijtes Kvala; Enn þu gieckst i minn stad, goode JEsu, til ad bera mijn Illsku Giolld, og burttaka mitt Synda Straff; Þu gieckst dimann Kvala Ferel til þijns Dauda, so eg skyllde i mijnu Andlaate finna lioomande Fridar Braut til þess eilijfa Lijfsins; Þu varst vægdarlaust hräkenn og hrisadur af þijnum Hatursfullu Ovinum, þvi veit eg og vona, ad Saalenn mijn mune a mijnum Dauda Deige sa ad hvijlast i þijnum Myskunar og þinna heilagra Eingla Verndar Hondum; Myrkur Kvalanna ognudu þier nærsta hormulega, þvi lise eg aumur Vesælingur i þeirre Von, ad þu muner

giefa

giefa mier um̃ sijder, ad lijta himneskann Lioomа Þinnar eilyfu Dijrdar i þeirre niju Jerusalem hverrar Sool og Tungl þu sialfur ert, Openb. 21.

DRottenn minn JEsu! þu sem þaſt Þyrnumlagda Kvala Veg villder i dim̃um Nætur Myrkrum undann mier ganga; Virdstu med Liooma Þinnar Nаadar ad lijsa mier, med Hende þinnar Hiаlpar ad stidia mig a ollum þeim Mædu og Mootgængs Veige, sem þier þocknast ad læta mig i þessum Taara-Dal feta; Laat ecke þann vonda Diofsul faa slited mig þinn Saud ur þinne Hende, Joh. 18. Nievillt af þijnum Sannleiks Veige; Og þaa eg skal, epter þijnum Nаadar Vilia, i mijnu Andlaate ganga Veg allrar Veralldar, Jos. 23. Æ! Laat mig þaa hiedañ i Fride fara, og gief ad Dagar minnar Hormungar fæe eilijfann Enda i þijnu himnesku Dyrdar Rijke, Amen.

# 10. Pijslar Pаnki.

Um̃ fyrsta Ransak Christi fyrir Caipha.

OG þeir leiddu hann fyrst burt til Hañas, sa var Fader Konu Caiphæ, hver ed þaa var þess Ars ædste Prestur: Og þeir burt leiddu JEsum fangeñ til Caipham Kleñemaña Hofdingia. [Eñ Cai-

þhas var sa sem Gydingum gaf þad Raad, ad betur være þad eirn Madur dæe fyrir Foolked. Enn Kieñemaña Høfdingeñ spurde JEsum þaa ad-uñ hañs Lærisvei-na og Kieñingu. Og JEsus svarade hønum: Eg hefe openberlega talad i Hei-menum, eg hefe og med jafnade kiendt i Samkundu Hwsum og i Musterinu, þar ed Gydingar allsstadar ad komu til samans, og eckert hef eg i Leindum talad. Hvad spyr þu mig ad þessu? Spyr þu þaa þar ad, sem heyrt hafa hvad eg hefi talad til þeirra, sia þu, þeir hinir somu vita hvad eg hefe sagdt. Eñ sem hañ talade þetta, þa gaf eiñ Þienaraña, sem þar stood hiaa, hønum eiñ Kiñ-Hest, og sagde: Skallt þu so svara Biskupenum? JEsus svarade: Hafe eg illa talad, þaa bevijsa þad, ad þad sie Oriett; Eñ hafe eg satt sagt, hvar fyrir slær þu mig? Og Hañas sende hañ bundeñ til Caipham Kieñemaña Høfd-ingia.

JFyrstu lioomar hier næsta fagurlega fyrir Augum ockar, Saala mijn, Guddoomleg og hiartgroöenn Ast og Elska vors hiartkiæra Laus-nara, hver ed hinar herfilegustu Pijsler hefur lided ockur

ockur til Saaluhiaalpar, hinar hryggeleguſtu Misþyrmingar þolad, ockur til Huggunar; Hann var ſtrax i Ondverdre ſinne Pijnu, ſo ſem argur Illrædes Madur hrakenn og hriaadur fraa einum Illſkufullum Ovin til annars, og ur einum Kvala Stadnum i annañ, ſo vid, ſem af Naatturunne erum Born Reidennar, Eph. 2. Makleg ad rekaſt i Utlegd fraa Guds Naadar og Dijrdar Auglite, ſkylldum i JEſu Nafne hafa frijann Adgaang til ſodurlegrar Guds Naadar og Huggunar, medann ockar Hierviſt varer, og ad henne lideñe, finna opnar Dyr til eilijfrar Himnanna Sælu, hvar vid leyſt af allre Eymd munum odlaſt Gnoott Fagnadar og gledelegt Lijf hiaa Guds hægre Hende ad eilijfu, Pſalm. 16. O! minn haableſſade HErra JEſu! virdſt þu ad veita mier þaa Naad, ad bæde mitt Hiarta og Heimile ſie þier þægelegur og vel til reiddur Bwſtadur, hvar inne þu med Bleſſan þinne virdeſt þier Viſtar-Veru ad giøra, Joh. 14. Vert þu mier ætijd velkomeñ Gieſtur bæde i Lijfi og Dauda, og þoott þu komer med þinn kiæra Kroſs, þaa maa eg i þiinu Nafne verda honum feigenn, þvi gott maa af goodum hlijoota; Kome hann til mijn bleſſadur af Gude; Eg hyſe bæd bæde þier og honum Herbergе, 1. Moſ. B. 24.

J odru lage ſkulum vid, mijn Saala, miñaſt þeſs, ad Biſkupenn Caiphas, af Kieñemannlegre

Anda Gipt, enn under eins med blindu og forhertu Hiarta, talade hinn dijrmætasta Sannleika, og lagde þad besta Heilla Rꝛad: Ad betur være þad einn Madur dæe fyrir Foolked; Hann sagde satt, enn villde sialfur ecke trwa, ad JEsus være Guds Sonur, sꝛa ed giefa villde Lijf sitt til Endurlausnar fyrir alla, 1. Tim. 2. Hann talade riett og vel, eñ meinte rꝛangt og Ogudlega, ecke olijkt og Balaam Beors Son, sem hafde gudlegann Spꝛadoom a Vorunum, enn geymde gudlaust Hreckia Rꝛad i Hiartanu, 4. Mos. B. 24. Og elskade Verdlaun Rꝛanglætesins, 2. Pet. 2. O! minn ꝛastwdleg-aste JEsu! vardveittu mig frꝛa þeirra Synd, vægdu mier fyrir þeirra Straffe, sem hafa Yfirlit gudlegs Athæfis, enn afneyta þess Krapte, 2. Tim. 3. Lꝛat þinn himneskann Nꝛadar Anda leida mig i allann Sañleika, Joh. 16. So eg hreirn af allre Hræsne meige med Huga, Hiarta og Munne þijns Lofs og þinnar Dijrdar fullur verda daglega, Ps. 71.

J þridia Mꝛata skal þad skarpa Ransak, under hvert hinn riettlꝛate Guds Sonur var færdur ꝛa Kvolld Tijma sinna Kvala, minna þig þar ꝛa Sꝛala mijn, ad þu ꝛa sierhveriu Kvollde þinna Lijfsdaga hid gaumgiæfelegasta ransaker þitt undañfared Lijferne, grꝛater Jllgiorder þijnar af Audmykt og Alvoru, og leiter þier i sannre Hiartans Umvendan Lyknar og Vægdar hiꝛa nꝛadug-

um Gude i JEsu Nafne, so þijn Ydrunar Taar og Bænar Andvarpaner meige fyrir hanns Mysk-unar Auglite verda aalitnar sem þægelegt Kvolld Offur, Psalm. 141. JEsus var af þvi andlega Raade adspurdur um hanns Læresveina og Kienningu; Giære þess aller Guds Kiennemenn, ad þeir munu um sijder fyrir DRottens Doome Reikningskapar krafder verda, hvernenn þeir hafe vandad Guds heilogu Orda Kienningar, og vakad yfir Saalum sinna Tilheyrenda, Ebr. 13. Hafe nockur Saudur af Hiord DRottens tapast fyrir Hyrduleisi þeirra, þaa vill hinn strange allsheriar Doomare krefia hanns Bloods af þeirra Hende, Ezech. 3. Þeim byriar ad Dæme sins blessada Meistara, ad tala Ord DRottens med openberre Diorfung og Alvorugiefne, enn ecke so sem i Launkofum, med nockre Smiadran edur Hræsne; Þeir eiga hvorke ad hrædast ofmiog þann volldugа, helldur upphefia sijna Raust, so sem adra Basunu, seigiande sierhverium af allre Alvoru til sinna Synda og Misgiorda, Es. 58. Ecke helldur meiga þeir vanrækia edur forsmaa þann vesæla; Miklu framar skulu þeir kunngiora ollum allt Guds Raad til Saaluhiaalpar, Post. G. 20. O! minn blessade HErra og Lausnare; Væge þijn hiartgroonn Myskun og Milldе Vangiæslu minne og Veikleika; Bæte Fullkomlegleike þinar naadarrijku Forþienustu alla mijna Forsoomun og margfalldann Breiskleika; J klæd þijna Kien-

menn himneſku Naadar Hiaalpræde, og laat þijna heilaga gledia ſig i þinne Myſkun! Pſalm. 132. Tilheyrendurner take ſier eirnenn hier af þaa Aminning, ad þeir elſke og vyrde Ord DRottens med allre Gudrækne, og aaſtunde ad færa þar af Avoxt chriſtelegra Dygda i allre Þolennmæde; Giore eirnenn einardlega Jaatning ſinnar Trwar, nær ſem Þorf krefur, og laate hana fagurt lijſa med Jdkun goodra Verka, bæde fyrir Gude og Mønnum, Matth. 5.

J Fioorda Maata hefur Lauſnarinn JEſus, þa hann var Kinnheſte loſtenn af Kiennimanna Hoſdingians Þienara, efterlaated þier, Saala mijn! 1. Þann fagra LÆRdoom, ad þu med hoogværri Alvoru forſvarer þitt Sakleyſe moot lognum Laſtyrdum vondra Manna, kappkoſtande æ jafnann ad hafa hreina og gooda Samvitſku bæde fyrer Gude og Mønnum, Poſt. G. 24. 2. Þaa Saaluhiaalplegu HUGgun, ad ſo ſem Adam var i ſijnu fyrſta Syndafalle af ſinne Samvitſku hormulega ſleginn ſier og ſijnu Afkvæmi til Bøls og Mijnkunar, ſo hann took þau Oyndis Urræde af Sorg og Blygdan, ad vilia fela ſig fyrer Auglite DRottens, 1. Moſ. 3. So hefur Lijknarfullur JEſus laated ſijna helguſtu Aſioonu Høggum liooſta ſtrax i Ondverdre ſinne Pijnu, til ad burttaka alla vora Synda Smaan, og hughreyſta vor Hiortu med þeirre Lijſkroſtugu Naad og Myſkun, ad

ſo

so sem Syndenn rykte fyrer Adams Fall til Dauda, so skule nu Mysskunenn miklu fremur rijkia til Hiꜳlpræðes fyrer JEsum Christum, Róm. 5. Lofadur og blessadur siertu Lausnare minn ad eylifu, fyrer alla þꜳ Hormung, sem þu hefur miña vegna lided og alla þꜳ Hugsvolun, sem þu hefur mier þar med afrekad! Þu leidst myskunarlausum Þrælum þijna dægelegu Asioonu med Hnefa Hoggum ad særa; AE! eg grꜳtbæne þig: Virdst þu myskunsamlega ad græda oll Synda-Slog og Sorgar-Sꜳr minnar Samvitsku; Þegar mitt Hiarta fordæmer mig med Minning miña Glæpa, þa still þad til Frids, DRottenn minn, og stodva þess Angur med Nꜳdar Vitnisburde og himneskre Huggun þijns heilaga Anda; Bidie hañ þa best fyrer mier med Oum̃ræðelegum Andvorpunum, Róm. 8. og giore mig vissann þar um̃, ad eg sie Guds Barn, og Erfinge eylijfrar Himnaña Sælu. Amen.

# II. Pijslar Pꜳnki.

## Um̃ Afneytan Peturs.

Lñ Simon Petur fylgde JEsu efter ꜳleingdar, og eiñ añar Lærisveirn, sꜳ same Lærisveirn var kuñugur Kieñimaña Hofdingianum, og gieck iñ med Jesu

su i Kieñlmaña Høfdingia Saliñ. Eñ Petur stood ute fyrer Dyrunum, þa gieck ut hiñ añar Lærisveirn, sem Kieñlmaña Høfdingianum var kuñugur, og talade vid hana, sem Dyrnar geymde, og leiddi Petrum iñ. Þaa sagde Ambaatteñ, sem Dyrnar geymde til Peturs; Ertu eige Eiñ af þess Mañs Lærisveinum? Hann sagde; Eige er eg. Eñ Þienararner og Undermennerner stoodu og høfdu giordt Kola-Elld og vermdu sig, þviad Kullde var. Petur stood þar hiaa þeim og vermde sig. Og er Simon Petrus stood þar og vermde sig, þa tøludu þeir til hañs; Ertu Eiñ af þess Mañs Lærisveinum? Hañ neytade og sagde: Eige er eg. Þa sagde Eiñ af Kieñlmaña Høfdingians Þienurum, Frænde þess, sem Petur hioo af Eyrad: Saa eg þig ei i Grasgardinum hiaa hønum? Þaa neytade Petur eñ aptur. Og strax gool Haneñ.

Hørmuleg er Naatturunnar Spilling og Holldsins Breyskleike, vid hvern jafnvel Guds Børn hlioota ad beriast i Heime þessum, ad þegar þau vilia giøra hid Gooda, þa loder þoo jafnann þad Vonda vid þau, Rom. 7. Þau vita ad sønnu,

ad þad er þeirra blessada Lausnara JEsu Bodord, og vilia þvi lijka Hiartans feiginn hlijda, ad þau skule afneyta siælfum sier, taka sinn Kross uppæ sig, og fylgia honum so efter, Matth. 16. Eñ þeirra spillta Holld og Blood hefur Vidbiood æ Hormungunum, og þyker þær Hrygd, enn eingeñ Glede vera, Ebr. 12. Hinn gamle Adam vill giarnann sneida sig hiæ Krossenum, og ælijtur þad Port þraungt, og þann Veginn ersidann. Matth. 7. Þetta sær þu, Sæla mijn, glögglega sied af Dæme DRottens Postula Peturs, hver ed af heitum Kiærleika til sijns hiartkiæra Meistara Jesum, villde i Fyrstu naudugur vid hann skilia, enn vogade þo ecke, fyrer Hrædslu Saker, odruviise enn æleingdar honum efter ad fylgia. Miñ elskulegaste Endurlausnare JEsu! Hiartans feigiñ vil eg voladur Vesælingur fylgia þiinum blessada Kross-Ferle, og rwvelia helldur med þier Hormungar ad lijda, enn ad hafa stundlegt Epterlæte Syndarennar, Ebr. 11. Enn væg og vorkienn, þu blessade HErra, Veikleika miinum, þoott Framkvæmdenn verde laungum miklu daufareenn vera skillde; Og þegar mijn Trw tekur ad þrotna, og Þolinnmædenn ad bilast i Mædu minne og Mootlætis Astrijdu, æ! brioot þu ecke, DRotteñ minn, helldur bæt og styrk nædarsamlega þann marda Reyrlegg, Es. 42. Riett mier þiina Mysskunar Hond, so eg sockve ecke i Afgrunn Orvæntingarennar, og gief ad allar mijnar Eymder verde þier

til Dijrdar, enn mier til bestu Blessunar Nota.

Framvegis skalltu, Saala mijn, af Dæme Postulans Peturs varast, med Ofdyrfd eda Oframsyne, ad stofna þier vijsvitande i nockurn Haaska, nema Guds Ord leife þier, eda Kiærleikans Skyllda skipe þier; Haf Gud ætijd fyrer Augum þijnum, og aforma øll þijn Efne med goodre Skynseme, Ordsk. 13. Ef þu þikest standa, þa gaumgiæf vel, ad þu faller ecke, 1. Cor. 10. og læt þier til Hugar koma, ad hvør hann med Andvaralausre Ofdyrfd sæker efter Oluckuñe, hønum mun hun mæta, Ordsk. 11. J Aldingardenum hafde Petur soddann Hetiu Hiarta, ad hann kvadst reidubwenn ad ganga i Daudañ med JEsu; Eñ skømu sijdar fiellst hønum so Hugur vid Ord einnrar audvirdelegrar Ambattar, ad hann afneitade sijnum blessada Meistara med Eyde; Þanneñ eru aller eins sterker a Svellenu, nær Gud tekur i burt sijna Hiaalpar Hønd, og Mannskiepnann rasar fyrer Raad fram; Vakta þig þvi, Saala mijn, og bid Gud ad vernda þig fraa Voda øllum.

Mier virdest ad kitlande Vellystingar þessa vonda Heims og saurugar Gyrnder vorrar syndumspilltu Natturu, meigi maklega lijkiast vid þær logande Ellds-Glædur, vjd hveriar Petur vermde sig, og vard þvi fraa Gude villtur; Hier sitia i Hriing vonder Synda-Þrælar, sem skemta sier vid Baal bannadra Lasta og Illverka, og so sem þeir

þeir eru sialfer villter, so hafa þeir hvad hellst Ynde af þvi, ad villa adra af Guds Vege; Giœt þijn þar fyrer, Saala mijn, þvi Illt mœ af Illum hliota, þitt Hiarta filge ecke Syndurunum, helldur vertu stadfost i DRottens Otta, Ordsk. 23. Petur var i Syndena feldur af forsmœnarlegre Ambaatt, vid hana tek eg i Samjofnud þessa hreckviisu Verolld, sem med vondum Svip, og þo eñ verra Hiartalage situr œ Svikrœdum vid Guds Elskendur; Vertu O JEsu! mijn Verndar-Hlijf, moot hennar Vielum og Illsku, og lœt mig under þijnum Naadar-Vængium finna Athvarf i ollum Haaska, Psal. 59.

Þegar Petur hafde einusinne afneytad sijnum HErra, hugde hann ad gaanga wt wr Biskups Hollinne, eñ hann var œ allar Siidur umkrijngdur af illum Þrælum, so hann heïrdte ein Hrosun annare herfelegre, ad hann afneytade Lavarde sijnum og Lausnara med svornum Ende; Þanninn flasar margur wt i Haaskann, og hlijtur þvi ad fyrirfarast i honum; Vegur Glœpaña og Gialijfesins er vijdur og breidur, Matth. 7. enn hann leider ad Lyktunum til Glotunar þeirrar, hvadann einginn Endurlausnar Von er ad eplijfu, Opinb. 20. Siaadu þvi vel fyrer, Saala mijn, og haf DRottenn hier alla Tijma fyrer Augum, so þu i allskonar Haaska meiger fyrer hanns Hialp vel standa. Psal. 16. Þrælarner þooktust þeckia Petur af hañs

Twn-

Twongumæle; Lær þar af, christenn Madur, ad audsyna þad bæde med Orde og Verke, ad þu siert Guds Barn. Menn taka til Marks a Mælenu, hverninn hættad sie Hiartanu; Siaa til, ad þu af goodum Siood þijns Hiarta æ jafnann framberer þad gooda, enn fordastu þeirra Selskap, sem af illum Siood sijns Hiarta læta Jllt og Oſæmilegt til sijn siaa, edur af sier heyra, Luc. 6. Hver hann vill lifa og siaa gooda Daga, hann vare sijna Twongu, ad hun ecke Jllt mæle, og sijnar Varer, ad þær tale ecke Flærd; Hann læte af Jllu og giori hid Gooda, leite Fridarens og filge honum efter, Psal. 34.

Ad sijdurstu giætum þess, Sæla mijn, og gleymum þvi alldrei, ad hafe so hryggilegt Hrösun hendt, so hrædelegur Saalar Hæske hitt þann heilaga og hætt-upplysta DRottens Postula Petur, æ hversu tæpt munum vid þa standa! hversu hægt mun ockar Jllskufullu Ovinum veita, ad svijkia ockur, vid sem af Nattúrunne erum blind i þvi ad þeckia, vangiætenn i þvi ad varast, og vanmættug til ad umflijia þad vonda! O minn Lyknarfullaste Lausnare JEsu! þu veitst best hversu hætt eg er staddur i vondskufullum Solle Veralldar þessarar, vidlijka og Saudur mille Varga, Matth. 10. Pier er kunnugastur minn hormulegur Breyskleike, sem mig vill laungum i Syndena fella, minn hryggelegur Veikleike, ad eg megna ecke mier sialfum ad biarga; Vert þu þvi goode JEsu mitt Lijfs og mijn

minn Heilſugiafare, ſem mig med Fride og Farſælld wr ollum Hæſka leide; Vertu Kraftur mijns Lijfs, ſem mig moot allskonar Neyd og Oluckú nædarſamlega ſtidie og ſtyrkie, vardveite, vernde og bleſſe, Pſal. 27. inn til þeſs eylijfa Lijfs, Amen.

## 12. Pijſlar Pænki.

Um̃ Peturs Ydran.

OG DRottenn ſneri ſier vid og leit til Peturs, þa minnteſt Petur Ordanna JEſu, er hañ hafde ſagt til hañs: Adur eñ Haneñ galar Tviſvar, munt þu afneyta mier Þriſvar. Og hañ gieck wt, og grieť beyſklega.

Myſkunſamlega breyter hinn nædiige Gud vid oſs ſynduga Veſælinga, ad viiſu i ollu; Enn þo eirna meſt i þvi, ad æ moote þvi banvæna Eytre vorrar Illſku og Syndar, hefur hann bleſſadur lagt þæ lijfkroftugu Boot og Lækning ſiñar ſodurlegu Giædſku og Myſkunar, hverrar þeir verda aller niootande, ſem leita þar efter med ſañri Hiartans Um̃vendan og Yfirboot, ſo ad æ hverium Degi, ſem ſæ hinn Ogudlege ſnijr ſier fræ ſijnu Ogudlegu Athæfi, og giorer þad ſem riett er, þæ hefur ſiælfur Gud med ſvornum Eyde loſad, ad

 hañ

hann skule lifa og ecke deya, allra hanns Misgiør-da skule ecke ad eilijfu minnst verda, Ezech. 18. Eitt fagurt Efterdæme hier uppaa siaum vid, Saala mijn, aa heilogum DRottens Postula Petre, sem grætlega villtest fraa Gude med Syndeñe, enn gudrækelega snerest til DRottens aptur med Ydranenne; Þar af skulum vid, Saala mijn, þessa efterfilgiandi Lærdooma i sonnum Guds Otta ockur til Eftertektar adgiæta.

1. So sem Petur var med Tvennu Hana Gale til Ydrunar og Afturhvarfs aminntur, eins virdest mier ad hinn naaduge Gud med Tvennslags hroopande Rødd laate vekiä ockur, mijn Saal, af Syndanna Svefne, og aminna ockur, ad snwa aftur til DRottens, so hann laate ecke sijna Reide yfer ockur falla, Jer. 3. Vijst maa þad kalla hvellann Hana Saung i Hiarta Mannsins, þegar hanns eiginn Samvitska, og innvortis Hiartans Þaankar klaga hann og asaka hann vegna siña framdra Glæpa, jaa, Ogna honum og ofbiooda med Otta fyrer yfervofande Syndanna Straffe og eilijfre Hegningu, Rom. 2. Soddann vond Samvitska vænter ætijd hins versta, Sp.B. 17. Hun er saart nagande Ormur, sem Hiartad pijner og plagar; Hun er hin hættulegasta Snara, sem helldur Saaluñe so sem faangiñe i Angist og Orvænting, so hun megnar ecke ad leita sier Lids eda Lyknar hiaa Gude, og verdur so hennar hid sijdara verra hinu fyrra, Luc. 11. Þad annad Hana-

Salmaa med ollum Rette heita hroopande Raust Guds heilaga Logmaals; Pad opinnberar og syner Mannenum Liootleik og Vidurstygd Syndarennar, Rom. 3. Pad kvelur og kremur Samvitskuna med Ogn og Ofbode Hegningarennar; Pad hroopar Bolvan yfer ollum sem þad brioota, 5. Mos.27. Pad deyder og særer, 2. Cor. 4. eñ megnar ecke ad lijfga edur lækna: Pad so sem vijsar brotlegum Syndara ofann i þad heita Helvijte, enn hiaalpar honum ecke til ad frelsast þar fraa; Hvar af audvelldlega kann ad ordsakast elskulaus Præls-Otte, Þverwd og Hræsne, sem ad Lyktum steiper i eylijfa Glotun ollum þeim, sem ecke af Hiarta hallda sig naalægt ad sijnum Gude, Ps.73. Varastu þvi, Saala mijn, þennann sorglega Voda, lijdum alldrei Samvitskuke ad sigrast af Svefne Andvaraleysisins, og laatum Guds heilaga Logmaal hallda ætijd fyrer ockur andlegre Voku gudrækelegrar Umvendunar.

2. Merkium vid, Saala miin, ad skiott skipadest Postuleñ Petur vid Lausnarans JEsu Mynkunar Tillit: Hann minntest jafnsnart DRottens Advorunar Orda, gieck wt og griet Synd sijna med beyskum Taarum. Eñ nu i Dag lijtur Lyknarfullur JEsus til ockar, Saala mijn, þad skiedur fyrer Naadar-Verkan og innvortis Hræringar heilags Anda, saa ed huggar þaa hrelldu med Hiaalp, og styrker þaa veiku med sijnum Krafte, Ps.

51. Hann lætur i Fyrstu Logmalsins straungu Hootaner lemia og hræda Syndarans Hiarta, siidann fer hann med huggunarriikum Evangelii Fyrerheitum ad frida og græda þa Sorg-bitnu Syndarans Saalu; Hann kunngiorer þeim Voludu Myskunena; þeim veiku Lækninguna; þeim bundnu Lausnena, Es. 61. þeim syndugu Saaluhialpena; Hann kveiker og nærer þa sonnu og saaluhialplegu Trw, fyrer hveria eitt sanndrandꝛe Hiarta flur a Naader þess himneska Fodursins, Luc. 15. lætur forlika sig vid hañ i JEsu Nafne, 2. Cor. 5. og odlast so Frid; Naad og Riettlæte fyrer hanns diirmæta Forþienustu, Rom. 5. Gior i Guds Nafne! Saala miin, og lat þetta bliida JEsu Naadar Tillit ecke vera Avaxtarlaust hia þier: þeink ei, ad þad stande i þijnu Wallde, ad umvenda þier til Guds, þegar þier sialfri lijtst, og þu megir ad Osekiu draga þad so leinge, sem þijnum vondum Gyrndum liikar. Ecke fieck Postulenn Petur Rænu a ad þeckia sitt sorglega Fall, fyrre eñ DRottenn leit til hanns; So attu þad eirninn under einskiærre Guds Naad, eñ ecke þinne Fyrerætlan, hvert þier audnast ad riisa upp af þiñe Synda Hrosun og umfliia tilkomande Reide, Matth. 3. DRottenn er hann, sem verdur ad verka i þier, bæde ad vilia og framkvæma þad gooda, efter sinne Velþocknan, Phil. 2. annars liggur þu daud i Syndunum, og fraskilenn þvi Liise, sem i Gude er, Eph. 2. Oniit þvi ecke Guds Naad-

ar:

ar-Verk i Strijd vid sialfann þig; þegar JEsus lijtur til þiin i sinne Naad og Myskun, segiande: Snwed aftur þier hin fraafollnu Born, þa vil eg lækna ydur, liit þa aftur til JEsum, Saala miin med sannre Hiartans Ydrun og heitre Trwar Ast og Hlitdne, andvarpande i Himenenn til hanus, Siaa þu, vier komum til þiin, þvi þu DRottenn ert vor Gud, Jer. 3. Ætla ecke, O Madur! ad þiin seina Ydran sie hrein fyrer Gude, eda heilsusamleg þinne Saalu, ef þu gyrnest framveigis i Glæpum þijnum ad liggia. Tef. þvi ecke med þiina Ydran, betra þig helldur i sønnum Guds Otta, og af fullre Alvoru, aa medann þu kant enn nu ad syndga, Syr. 5.

3. Lærum vid, Saala miin, ad strax sem Postulenn Petur þeckte siina grætlega Hrosun, gieck hann wt wr Biskups-Hollenne fraa þessum gudlausa Solle; Gior hid sama, Saal miin, snw Hiarta, Huga og Vilia fraa ollum þeim, sem þu sier ad illa lifa, og haf eckert Samfielag eda Sidblende vid þeirra vonda Breitne, þa vill Gud vera þinn myskunsamur Fader, og medtaka þig i Naad, so sem sitt elskulegt og blessad Barn, 2. Cor. 6.

O minn elskulegaste JEsu! Lijt þiinum blessudu Myskunar Augum yfer mig viltann Saud og vesælann Syndara, Es. 53. þegar eg af Breyskleika og Blindne miins Holldz fell og hrasa i Syndena;

Æ! bend mier þa blessade HErra i Myskun þinne, so eg verde ecke fraa þiinu Naadar-Auglite wtskwfadur; Veit mier, ad eg af Hiarta graate Glæpe miina, og faae siidann Naadar ad nioota i þiinu Nafne. Til þiin, DRottenn minn, mæne eg laungum graatande Augum, og upplypte angraadu Hiarta, Ps. 121. Æ! laat þitt Andlites Lioos liisa yfer mig, og veit mier Fullting i Neydenne med þiñe Hiaalpar Hende, so ad øll miin Angurs-Taar meige ad eiliifu afþurkast i þiinu Diirdar-Riike. Amen.

# 13. Pijslar Pæntki.

Um Caiphæ Dooms-Urskurd.

Nu þeir ædstu Prestar og Ølldungar og allt Raaded leitudu Liwgvotta i giegn JEsu, so þeir giæte deydt hañ, og fundu eingeñ. Og þo mørg Fals-Vitne geinge frañ ad, þa fundu þeir eckert. Eñ ad siidurstu geingu Tveir Fals-Vottar frañ, og søgdu: Hañ hefur sagt: Eg get nidurbroted Mustere Guds, og efter Þriggia Daga byggt þad upp aftur. Sa ædste Prestur stood þa upp og sagde til hañs: Svarar þu aungvu til þessa, sem þesser

þesser vitna i moote þier? Eñ JEsus þagde. Saa ædste Prestur ansvde og sagde til hañs: Eg sære þig vid lifanda Gud, ad þu seger oss, ef þu ert Christur Sonur Guds. JEsus sagde: þu seger þad: Po sege eg ydur: Hier epter mun þad skie, ad þier munud siaa Mañsins Son sitia til hægre Handar Kraftarens og komanda i Skijum Himens. Pa reif Kleñimaña-Hofdingiñ siin Klæde og sagde: Hann Gudlastade. Hvad þurfum vær Vitnaña vid? Siaa, þier heyrdud sialfer hañs Gudlastan! Hvad virdest ydur? Peir svörudu og sögdu: Hañ er Daudans sekur.

JEskeleg Glede og ylmsæt Huggun er ockur þad, Saala miin, ad hugleida nockud gior þessa Grein af Lausnarans Piislar-Sogu, og giæta undereins þess blessada Guds Anda Bodords fyrer Munn Postulans Pauls, er þánnenn hlioodar; Minnest aa þann, sem þvilijk Mootmæle giegn sier af Syndurunum þolde, so ad þier þreytest ecke og uppgiefest i ydar Hugskotum, Ebr. 12. Minnunst þvi aa ockar millderiikann JEsum, Saala miin, og lærum af þeim Mootmælum, sem hann blessadur leid, ockur til Myskunar, þesse efterfilgiande Heilræde.

1. Ef þu verdur fyr Alijge og Ohroodre af vondum Veralldar Mønnum, þa haf þier fyrer Augum bliidast Hoogværdar Dæme þijns blessada Frelsara JEsu, hver ed ecke svarade einu Orde moot lognum Sakargiftum og Aklogunum siña Ovina, helldur þagde so sem meinlaust Lamb, fyrer þeim sem þad klipper, Es. 53. Vilier þu nu JEsu Lærisveirn vera, þa varast med Heiptarfullum Þioo ste, ad erta illt Skap Ovina þinna, enn æstunda med gudrækelegre Þøgn og Þolinnmæde þad vonda ad yfirvinna og æ goodann Hætt ad lagfæra, Rom. 12. Giæt þess, ad skinsamleg Þagmælska, edur, ad odrum Koste, hoogvær Afsokun, hefter optlega Reide, Ordsk. 15. Enn fævijsleg Brædi-Ord kinda Baal Illskunnar enn þa heitara, og spilla jafnvel goodum Maalstad; Lærum þvi Hoogværdena af lijknarfullum JEsu, so vid, moot Veralldar Adkaste, meigum hiæ honum Hælis niota, Matth. 11.

2. Varast þu, O Madur! af illu Dæmi hiña Ogudlegu Fals-Votta, ad filgia nockurn Tijma raungu Maalefne, edur bera Osatt Vitne, 2. Mos. 23. annadhvert til ad æfella þann, sem þu vetst fyrer Gude og þiñe Sámvitsku, ad rettum Lögum, saklausann, edur forsvara hinn, sem þu þecker sekann vera; Haf Gud fyrer Augum þier, og giæt þess, ad einn Liwgvottur verdur ecke Obegndur, Ordsk. 19. og sæ Munnur sem lijgur,

deyd

deyder Saalena, Spek. B. 1.

3. Merkium vid, Saala mijn, ockur til eilijfrar Huggunar, ad til þess leid lijknarfullur JEsus, þad hann være epter lognum Vitnisburdum, fyrir Ogudlegra Manna Doome, sakfelldur, ad vid sekar Stoorbrota Skiepnur, skylldum fiña Naadar-Forsvar og Affsokun hiaa honum, þegar Sannleiks Vottar Guds heilogu Orda og vorrar Samvitsku vilia fella ockur og aasaka fyrer Guds Auglite; JEsu talande Blood, Ebr. 12. mun þa verda ockar besta Forsvar, JEsu fullkomna Riettlæte ockar fegursta Affsokun: Eingenn Fordæming finnst aa ockur, sem fyrer sanna og lifande Trw erum i Christo JEsu, Rom. 8.

4. Athuga þu, mijn Saal, ad ecke villde Lausnarenn leingur þeigia, þegar hann var i Guds Nafne Andsvars krafdur þar uñi, hvert hañ Guds Sonur være, helldur giorde hañ blessadur skijra og hreina Jaatning fyrir Biskupenum Caiphas aa þeñañ haatt: Þu seiger þad, eg em hann. Lære aller christner Menn af þessu Lausnarans Dæme, ad þeigia i Tijma, og tala i Tijma, Pred. 3. Dyliande alldrei Sannleikann, þegar Guds Dijrd utheimter, ad hann openberast skule; Vere eirneñ reidubuner, aan Præls Otta og Yfirdrepskapar, greina-gott og gudrækelegt Andsvar ad giefa hverium Manne, sem Skials krefur af þeirra Trw og Christendoome, so vier aller med samstemande

Hiarta og Munne, helgum Guds hæleita Nafn, og holldum so Trwnne og goodre Samvitsku allt til Æsiloka, 1. Tim. 1.

5. Varest oll good Ysirvolld, af Dæme hinns gudlausa Biskups Caiphæ, fyrir Villd edur Vinattu, vegna Vallds eda Myndugleika annara Manna, ad beigia Veg Riettarens fra þvi sem Guds og Kongsins Løg biooda; Giætande þess, ad Doomara Embætted er DRottens, 5. Mos. B. 1. Og þeir sem hafa Mangreinar Alit i Doome, eru fyrir Gude ein Vidurstigd, Ordsk. B. 17.

6. Og ad siidustu, liit eg miinum Hugskots Augum til þiin, minn HErra JEsu, og læt þad sama vera mier ilmande Huggun i miinu Andstreime, sem þiin var i þiinu Angistar Kvalræde, þa þu minntest a þiina Diirdarfullu Upphafningu, seigiande: Nu hiedann i fra munud þier sia Mannsins Son sitia til hægre Handar Kraftarens, og komande i Skyum Himens. Þann̄ þreye og þraæ eg i Vesolld minnar Eymdar, epter Auglisingu þinnar eiliisu Diirdar, DRottenn minn, og vona i Trauste Myskunar þinnar, ad um̄ siider mune endast Armædu Stunder minnar osķiemtilegu Utlegdar i þessum auma Heime, og eg faae ad odlast Gnoogt Fagnadar, og gledelegt Liif hia þinne hægre Hende, Psalm. 16. J þvi yndesfulla Fodur Lande eiliifrar Sælu. Þu varst

ſt Lauſnari minn af lifande Munne Kiennimanna Hofdingans Caiphæ fyrir Gudloſtun ſakfelldur; Æ! giefdu mier, ad eg, kvittur fra eilijfum Afelles Doome, verde af þijnum Nadddriupande Sannleiks Muñe a ſijdaſta Deige i Myſkun avarpadur: Allt þad andlega Valldeð ælyckta de ad þu ORottenn miñ værer Daudans ſekur; æ veit mier þa Naad, þo eg ſie hennar overdugur, ad eg i þijnu Nafne verde fyrir þijnum nadarfulla Dijrdar Doome til eilijfs Lijfs og eilijfrar Sælu medtekenn og urſkurdadur; heyrande þetta Glede-Tal af þier til mijn: Kom þu bleſſadur Fodur mijns, og eignaſt þad Rijke ſem hier var tilbwed fra Upphafe Veralldar, Matth. 25. Hialeitlega lofud ſie þijn heita Hiarta Giædſka, O JEſu, ſem mier hefur afrekad ſo fagra Endurlauſn, og utveg ad eilijfa Glede! Amen.

# 14. Pijſlar Pænki.

Um Pioonanna Spott vid Chriſtum.

Ñ nockrir tooku ad ſpita a hañ, og byrgia hañs Aſioonu, og ſla hann med Knefuun, og ſeigia til hanns: Spa þu oſs; Og Piernararner ſloou hann Pwſtra i Andlited.

Stoor hefur vered Illſkunnar Offe og Heiptar Frekia JEſu Ovina, ad giora þvi bleſſada Gudslambe ſem meſt til Kvala og Hadungar; Læangtum ſtærre var þo Lauſnarans brennande Aſt og Elſka til vor aumra Manna, ad hann lagde ſig under ſo herfelegar og hriggelegar Pijſler, vegna vorra Synda og oſs til Sæluhiaalpar. Þegar hann fieck aungva Vægd hiaa illum Þrælum, giørde hann þad meſta Myſkunar Verk bæde aa þeim og øllum oſs aumum Adams Nidium; Oſs til Sooma og Sæalar Glede, oſs til Endurlauſnar og eilijfrar Lijknar, hefur hañ bleſſadur ecke birgt ſijna helguſtu Aſioonu fyrir Forſmaan og Hraakum, Eſ. 50.

O! minn elſkulegaſte Lauſnare JEſu, med þvi aangiſtarfulla Onæde, ſem þu leidſt aa þinne Kvala Noottu, hefur þu afrekad mier aumum Veſæling marga hæga Nætur Hvijld og værann Svefn-Blund i Skioole þinnar Naadar; Þijn Pijna hefur leiſt mig fraa Kvol og Kvijda, þijn Armæda hefur afrekad mier æſkelega Roo og Glede: J þijnu Naadar Nafne ſæ eg med Fride ad hvijlaſt, þvi þu, ODrottenn, ert mitt Athvarf og Trwnadar Trauſt, Pſalm. 91. Vid þeſſa þijna Naad kannaſt eg nu, ODrotteñ minn, med audmiwku Aſtar Þacklæte, og graatbæne framveigis þijna Guddoomlega Millde; Þegar ſu dima Hrygdar og Harma Noott, og ad Lyktunum hid ſijdaſta

Dauds-

Daudans Svartnætte skal yfir mig koma, æ! lattu mig þaa Prælenn þinn, mier til Myskunar, niota þeirra sorglegu Nætur Kvala sem hier aa þierlau. Fyrir þau hordu Hogg og Pwstra sem þu leidst aa þinne helgustu Asioonu, Virdstu i Naad og Lijkn ad lina og mijkia Samvitskuñar Klogun og Sathans Ognaner i mijnu vesæla Hiarta. Fyrir þaa smaanarlegu Hraaka, hverium varpad var i þijna daafrijda Asioonu, virdstu ad laata sæta Svolunar Strauma þijns heilaga Anda driwpa yfir mijna mædda og þiaada Saalu; Vertu O! JEsu mitt Lijf, Phil. 1. Sem allt Daudans Osbod og Andlaats Pijn kroptuglega bæte og græde, so eg med Glede meige gaanga i giegnum Daudann til þeirrar Sigre hroosande Sion aa Himnum, hvar eilijfur Fognudur mun verda yfir allra Utvalldra Hofdum, Glede og Fognud munu þeir hondla, enn Hrygd og Andvarpan mun i burt fraa þeim flija, Es. 51.

Jeg veit ad sonnu, þad marger, Jaa, aller þeir sem nockurn Guds Reista hafa, lasta og fordæma efter Maklegleikum þaa illu Skaalka, sem hinn saklausa JEsum so haaduglega utlieku; Eñ þad maa graatlegt þikia, ad þeirra sannkallader Sporrekiendur skule enn nu i Dag finnast medal þeirra jafnvel, sem christens Manns Nafn bera; Eda munu þeir i nockru betre Prælum þeim, sem DRottenn daarudu, þeir ed nu aa vorum Dogum

heyra

heyra Guds Ord, vita Guds Vilia, enn giøra þar þo eckert epter? Þeir ed hafa Þienara DRottenns ad Skimpe, og þeirra heilsusamlegar Aminningar ad Hiegooma-Mœlum, anande so fram epter sijnum glœpafullu Gyrndum? Ezech. 32. Eg voga ad seigia, ad þeir sem eitt sinn uppliister eru i riettre Þecking a Nadar Verkum og Vilia lifanda Guds, þeir ed smackad hafa hid gooda Guds Ord, og Kraft epterkomande Alldar, Ebr. 6. Enn hafa þo aungvu ad sijdur Mok vid hinn vonda Diøful, med Heidinglegre Hiatrw og ødrum Ogudlegum Apaskap, þeir eru jafnvel verre hinum blindu Caiphæ Prælum, sem hæddu DRottenn Diirdareñar, og kvøldu Hertoga Lijfsins; Þvi þesser giørdu þad af Ovitsku, og vissu ecke vid hvern þeir ættu, enn hinna Synder þeim mun svivyrdelegre, og þeirra Straff mun verda þvi Obærelegra, sem þeir auglooslegar þeckia og vidurkienna sinn Gud og Lausnara med Muñenum enn afneita hønum þo med Verkunum, Tit. 1.

Aller Skynhelger Hræsnarar, sem hafa Yfirlit gudlegs Athæfis, enn afneita þo þess Krafte, 2. Tim. 3. Þeir ed hylia þad grima Ulfs Hiarta Ogudlegra Hreckia, under føgrum Saudar Fellde Froomleika og bliidlegrar Vinættu, Matth. 7. Þeir eiga allt of skilldt vid þesse vondu Varmenne, sem birgdu blessada JEsu Asioonu og børdu hána med Knefum; Þesser dæmdu HErrann i eigenn Persoonu: Enn hiner eru aungvu betre, sem hæda ad

ad honum i hanns andlegum Limum. O! þier gudlausu Gaarungar og giaalifu Spott Fuglar! vited fyrir vijst, ad þad Haad og Spie, sem þier giored ad froomum og faraadum Guds Vesæl-ingum, hveria blessadur JEsus bligdast ecke sijna Brædur ad kalla, Ebr. 2. Þad vill hann vyrda og reikna so sem vid sig siaalfann giort hefde vered Matth. 25. Fared þvi ecke leingur viller Vega, þvi Gud lætur ecke ad Oſekiu ad sier hæda, Gal. 6. Þad sem Madurenn saaer nidur, þad mun hann uppskiera; Saa sem nidur saaer Laste og Ligum, Spotte og Spielne hier i Heime, hann mun (Ef hann giorer ecke alvarlega Yfirboot) uppskiera Skom̃ og Skielfing, Neide Hrelling og Harm-kvæle ad eilijfu i Helvijte. Varastu þvi, O-Madur! þier okiendann, þoott aumur þike, med Hædnis Ordum edur Atlotumad aareita; þvi skie maa, ad þu hitter þann fyrir sem sijst skyllde, eins og þaa blindu Gydinga hendte; Siaadu þvi vel, fyrir ad þu i Otta Guds, og af einfolldum Kiær-leika, breiter so jafnann vid adra med Ord og Verk, eins og þu villder fyrir siaalfann þig kioosa, Matth. 7.

Æ! minn elskulegaste JEsu! eg medkienne med audmiwku og angraadu Hiarta, ad eg hefe med margfolldum Misgiørdum mijnum syndgad i Himeninn og fyrir þier, Luc. 15. Eg hefe nidur saad Synd og Ranglæte, og er þvi Mannanna

maklegastur ad uppskiera Ressing og Reide; Blessadur siertu, minn Hiartans Blood-Brwdgume, sem med þinne Smaan hefur afrekad mier eiliifa Æru, med þinne Hormung Naadarfulla Liifgun og Lækning. Þu saader nidur fullkomnu Sakleise og Heilagleika, og gafst mier þar af ad uppskiera fagurbloomgad Blessunar og Naadar Hiaisprœde: Þiiner diirmætu Blood-Dropar eru minne Syndum þiaadre Saalu himneskur Jurta-Gardur, sem mier ber Þusundfalldann Avoxt Millde og Myskunar, Synda Kvittunar og Saaluhiaalplegrar Endurlausnar. Þu varst DRottenn minn hæddur, mier til Heidurs og Upphefdar; Þu varst sleigenn mier til Liiknar og Lækningar. Þvi er þad miin stædsta Skyllda, og skal vera miin ædsta Glede, þier til Lofs og Þackunar, þiinar blessudu Fætur med audmiwkum Ydrunar Taarum ad væta, med heilgum Trwar Kossead kissa, med ilmande Elskunnar Oleo ad smyria, Joh. 17. Eñ myskuna þu blessadur best Maattleisi miinu, og gief ad hverke hid nalæga nie okomna faae mig fraa þier slited, Amen.

# 15. Piislar Panki.

Uñ Raadstefnu Prestanna yfir Christo.

OG er Dagur var, søfnudust saman Ølldungar Liidsins, og hiner ædstu Prestar, og hinir Skriptlærdu, og leiddu hann upp fyrir sitt Raad, og sogdu:

sogdu: Ef þu ert Christur, seig oss þad. Og hañ sagde til þeirra; Ef eg seige ydur þad, þaa trwed þier þvi eige, enn ef eg spyr ydur, þaa svared þier mier eige; og lææted mig þo ei lausañ. Nu hiedann i fraa mun Mañsins Son sitia til hægre Handar Guds Kraptar. Enn þeir sogdu aller: Ertu þaa Guds Sonur? Hann sagde til þeirra: Þier seiged þad, þviad eg em. Þaa sogdu þeir: Hvad þurfum vier nu Vitnisburden leingur? Vier sialfer heyrdum þad af hañs Muñe. Og allur saa Hoopur stood upp, og leidde hann fyrir Pilatum.

AF þessare Grein skalltu Saala miin hier til gudrækelegrar Yfirvegunar taka;

(1) Hvilijka Frekiu og Akiefd hiner Heiptarfullu Gydingar hofdu i frame, i þvi ad fordæma og i Krossens Kvaler og Dauda ad framselia þad meinlausa Guds Lamb, Lausnarann JEsum Christum: Þeir satu langt fram̃ aa Nott, og voknudu aarla um̃ Morguñenn, til ad bera sijn Raad samann moot DRottne og i moote hanns Smurda, Psalm. 2. Þanneñ eru Born Veralldar þessarar kiæn, kostgiæfinn og aarvokur i vondum og vesolum Diofulsins, Heimsins og Holldsins

Prædoome. O hvǫersu grætlegt er þaa til þess ad vita, ad þu, Saala mijn, sem ert kołud og kiorenn, til ad þioona þijnum himneska og hæblessada Gude og Fodur, i Heilagleika og Riettlæte alla þijna Hiervistar Daga, þu ert samt sofande, dofenn og dædlaus i heilsusamlegre Guds Dijrkan og þijnu heilaga Christendooms Verke. Hiner vesolu Mamons Prælar sofa varla værann Dwr fyrir Heidinglegum og Hiegoomlegum Sorgum þessarar Næringar, Luc. 21. Er þad þaa ecke mesta Minnkun fyrir ockur, mijn Saal, ad sofa Andvaralaus aa Letennar Kodda? Vid, sem eigum ad verka ockar tijmanlega og eilijfa Velferd med Ugg og Otta, Phil. 2. Og vera ockar himneskum Fodur og HErra trw allt til Daudans, so vid Coronu Lijfsins mættum ur Bijtum bera, Opinb. B. 7. Prestarner risu aarla upp, ad Dæma DRottenn JEsum til Lijflaats og Dauda; Giæte þess þeir, sem Gud hefur sett Vokumenn aa Mwr Veggium hinnar andlegu Jerusalem, Es. 62. Þeir ed vaka eiga yfir Saalum sinna Tilheyrenda, so sem þeir ed Reikningskap þar fyrir giora skulu, Ebr. 13. Risi þeir aarla aa sierhverium Morgne af ollum Letinnar Svefne, til ad giæta sijns Embættis med Gudrækne, og bera sig ad gaanga verduglega i þeirre heilogu Kallan, til hverrar þeir eru kallader, Eph. 4. Laate þeir, med sierhverium upprennande Dags Morgne, nija Bæn fyrir Naadar Auglite DRottens uppstijga,

nija Arvekne Trygd og Dygd i sijnu Embætte auglioosa verda, so þeir bæde med heilsusamlegre Kienningu heilagra Guds Orda, og hreinferdugu Lijferne, audsijne sig i øllum Hlutum sem Guds Þienara, 2. Cor. 6. Guds og hanns Barna Oviner eru ætijd vakande og vijser til Olucku og Skada ad giora; Uppriijse þvi ærla aller Guds Elskendur til ad bidia sier Lijknar og Myskunar fyrir Guds Auglite, til ad leita sier Heilræda og Hugsvølunar i Guds Orde, so þeir bijvare blessadann Veg hanns Riettinda allt til Æfeloka, Psalm. 119.

(2) Adgiæt þu, Saala mijn, þaa hryggilegu DRottens Harma Klogun yfir Gydinganna Prioostu og Þverwd, ad þoott hann blessadur segde þeim Sannleikann, þaa trwdu þeir honum ecke, þoott hann spyrde þaa, samt svorudu þeir honum eige. O! HErra Gud! hvad saaer eru þeir nu medal þeirra, er sig laata Christna kalla, sem trwe so DRottens Orda Predikun, ad þeir hage þar epter sijnu Framferde? Hvad saaer þeir, hverium Armleggur DRottens Refsingar og Reide Hootana verde so openberadur, ad þeir laate af sijnum Syndum? Es. 53. DRotten er daglega med sijnu Naadar Orde og Aminningum ad hroopa, enn Menn vilia þo ecke med gudrækilegre Yoran og Yfirboot andsvara edur hlijda honum; DRottenn straffar og tiptar, enn þeir snwa sier ecke ad helldur fraa sinne Vondsku, Jer. 44. O!

Millde JEsu! væg þu blessadur best Veikleika minnar Trwar: Fyrir þier jaata eg og græt Jlsku og Ohlijdne mijns Hiarta, sem so er sein og treg fraa Syndunum ad snwa; Æ eg trwe ad sonnu, DRottenn miñ, enn hiaalpa þu og legg Lijknar Boot minne veikre Trw, Marc. 9. Eg vil feigeñ þiinu Naadar Orde riettilega trwa, þiinum Naadar Aminningum gudrækilega giegna; Enn laattu þinn Myskunar Kraft til allrar Blessunar vera maattugann i mijnum Breiskleika, 2. Cor. 12.

(3) Lær þu þad, Saala miin, af Lausnara þiinum, þegar þu verdur fyrir Araasum og Oskunda af illum Monnum, og eingenn Assokun eda Maals Boot maa þier til Varnar verda, brynia þig þaa moot allre Ohollennmæde med blessadre JEsu Hoogværd og Umburdarlyndе; Halltu þier fast vid hanns fogru Footspor, og hugga þig vid hañs blessada Dæme, saa ed ecke ognade þaa hann leid, helldur ofur-gaf þad honum sem riett dæmer, 1. Pet. 2.

Nu hiedann i fraa munud þier siaa Mannsins Son sitia til Kraptarens hægre Handar, sagde Frelsarenn. O HErra Gud! þad er sem mier hlioome nu fyrir Eyrum, saa strange og riettlaate Dooms Urskurdur sem heyrast mun af Muñe hins alvallda Doomara, DRottens JEsu Christi, þegar hann aa Endurskickunar og Uppprisu Deige alls Holldz mun dijrdlega openberast af Himne

med

med Einglum sijns Kraptar, til ad giallda obæres lega Hefnd med eilijfu Reidennar Baale ollum Guds Orda og Naadar Forogturum, 2. Teß. 1. Þaa mun þeim eckert Forsvar duga, eingenn Afsokun hialpa, ef DRottenn vill tilreikna þeim Syndena, þaa gieta þeir alldrei ad eilijfu stadest, Psalm. 130. O! minn Astudlegaste JEsu! gief, ad eg viliugur hlijde þijnu Lijknar Orde og Avarpe mier til gudrækilegrar Betrunar aa Tijma Naadarennar, so eg hliote ecke naudugur ad heyra þinn ognarlega Dooms Urskurd mier til Fordæmingar aa Tijma Reidennar. Þu hlaust aarla Morguns saklaus þinn Dauda-Doom ad heyra; Æ! giefdu ad eg sek Synda Brots Skiepna meige aarla aa þeim efsta Doome Naad og Fyrirgiefning hiaa þier finna! Arla Morguns allra minna Eymdafullu Lijfs Stunda skal eg med audmiwkre Bæn og Astar Lofgiørd fram fyrir þitt Naadar Auglit koma; Æ! virdstu ætijd bæde sijd og aarla i Naad og Mykun til mijn ad hugsa! Þu varst ranglega sakfelldur aarla aa þijnum Pijnu Deige; Minstu þess O! JEsu og mykuna mier, so eg kome ecke fyrir þinn Fordæmingar Doom aa þeim sijdasta Deige; Legg mier þaa Lyknar Maal, Lausnarenn goode, og veit ad eg i þier blessadur meige þreingiast i giegnum Daudann til eilijfs Lijfs og ævarande Himnanna Dijrdar og Glede, Amen.

# 16. Pijslar Pannki.

## Um Judasar Ydran.

Aer Judas, saa er hann hafde forraaded, saa þad hañ var til Dauda dæmdur, ydradest hann þess, og færde aptur þeim ædstu Prestum og Olldungum þaa þriatijger Silfur Peninga og sagde: Syndgad hef eg ad eg forried saklaust Blood; eñ þeir sögdu: Hvad kiemur þad vid oss? Siaa þu þar fyrir. Og hann snarade þeim Silfur-Peningum i Musterid, gieck i burt þadann og heingde sialfann sig.

So sem þeim froomu og meinlausu mun fyrir Guds födurlega Millde ad sijdustu vel vegna, Psalm. 31. So munu og i annañ stad aller otrwer Svikarar, epter Guds strænga Riettlæte, i herfelega Smaan og Olucku rata. Þad reinde saa Glötunar Sonur Judas, sem sinn eigeñ Lavard og Lausnara forried med fölskum Flaarædis Kosse, og fieck þvi kvalafullañ og smaanarlegann Dauda-Daga. Giæt þessa ognarlega Dæmes, mijn Saal, þier til gudrækelegrar Vidvorunar, og siaadu hier so sem i einum Speigle:

1. Hversu herfileg Svivirding og hættulegt Olucku Efne ad er Otrygd, Underferle og Flaattskapur. Aller ydrunarlauser Judæ lijkar i

Svikunum, munu eiga lijkann Arcængur med honum i Kvolunum; Morttenn fyrirfer ollum Lijgemælendum, og aller slaarader Hræfnarar eru Sviwirding fyrir hanns heilaga Auglite, Psalm. 5. Otrygdenn saalgar hvad hormulegast sijnum eigen HErra; Þvi hættulegre Svika Grof sem eirn ætlar odrum ad grafa, i þess diwpare Bolvunar Pitt hlijtur hann sialfur ad detta, Ordsk. B. 26 Giætum ockar þvi i Guds Nafne, Saala mijn, og vorunst allskonar Fals og Underferle, eins og þad heita Helvijte; Vondum sem best allt ockar Framferde i Prettalausum, einfolldum og ofolsudum Guds Grandvarlegleika, 2. Cor. 1.

(2) Er þad audraaded af Gud spiallegre Historiu, ad med þeirre bolvudu Agyrnd og Aura Elsku hefur hinn vonde Diofull i fyrstu bleckt Judæ Hiarta, til ad fremia þaa dæmalausu Ohæfu ad sviikia sinn og allrar Veralldarennar Saaluhiaalpara, og selia hann i Daudann fyrir smaanarlegt Lijtelræde; Hann gleymde allre Æru og Trw; Hann fieck i burt sijna Velferd og Saaluhiaalp fyrir 30. Silfur Peninga, sem lokfins urdu ad nagande Angistar Orme og brennande Orvæntingar Ellde i hanns vondu Samvitsku. O! hvad satt er þad, sem Paulus seigir, ad Agyrnden sie Root allra Lasta, 1. Tim. 6. Hinn aagiarne kastar i burt fraa sier Froomleika og Raadvendne, enn fleckar sig margskonar Lostum og Odygdum,

og þad opt fyrir lijtilfiorlegs Avinnings saker; Hann fyller Hws og Hyrdslur af fanijtum og fallvolltum Munade, enn tæmer Saal sijna og Samvitsku af himneskre Blessan og Glede; Jaa, hann sellur i Freistingar og Snorur Diofulsins, og i margvijslegar skadsamar Gyrnder, þær ed Mannenum dreckia i Fordiorfun og Fordæming, 1. Tim. 6. O! hversu olldunges ekkert eru aller Menn, þeir ed so athugalauslega lifa! Psalm. 39. Hormuleg Blindne maa þad heita, ad setia sijna Saalu i Ved fyrir so fallvallt Lauss-Glis, sem Audureñ er, sa ed annadhvert yfirgiefur Mañenn, þegar minst Vonum varer, edur Madureñ hlijtur hann naudugur viliugur ad yfirgiefa, þegar hinn kallde Daude kiemur ad Hondum, og sierhver skal nakenn fara wr Heiminum, eins og hañ kom nakenn i Heimenn, Job. 1. Og er þaa ecke vid odru ad bwast, fyrir ollum Yfirbootarlausum Fie Pwkum, enn ad Saaler þeirra mune þvi saarara þyrsta i osloeckvanlegum Helvijtes Ellde, sem þeir svoludu meir Agyrnd sinne med illu Auds-Safne hier i Heime. Varastu þvi Saal min, þaa vidurstiggelegu Agyrnd, so hun verde þier ecke ad eitradre Angistar Olifian þegar þu aatti Daudanum hier vid ad skilia; Legg aungva Von uppaa þennañ fallvallta Rijkdoom, helldur uppaa lifanda Gud, og keppstu ollu framar epter þeim Abata, ad ottast Gud, og laata þier þijna Lucku nægia.

3. Athuga þu, Saal mijn, ad so sem Svikarenn Judas hafde hverwdarsamlega forsmaad og ad litlu lagt opt ijtrekadar æstwdlegar Jesu Aminingar æ medann hann lifde, so miste hañ lijka alla gudlega Naad og Hugsvolun þegar hann deyde; Þad var verst sem seinast var af ollum hanns Glæpum, ad hann orvænte sier Guds Naadar; Þad var aumast sem sijdarst var af ollum hanns Æfi-Stundum, ad hann doo hersilegum Dauda i sijnum Syndum. O Madur! giæt þinnar Velferdar i Guds Nafne; Ef þu villt deya DRottne i hanns Naad og Fride, kostadu þa Kapps uñ, ad lifa DRottne i hanns Otta og Elsku; Vardveittu jafnann Orded DRottens i þijnu Hiarta, so þu syndger ecke mootþroaannlega gegn Gude þijnum, Psal. 119. Nær þu verdur yfirfallinn af Syndeñe, þa flijt þier ad umvenda þier og snwa til þijns himneska Guds og Fodurs med Ydraneñe, og stofna þier alldrei i þann stoora Saalar Hæska, ad skioota þinne Yfirboot æ Frest fra einum Dege til annars, Syr. 5. Gleym ecke ad iæta og græta Glæpe þijna audmiwklega fyrer Guds Auglite; Enn minnstu ætijd under eins ad leita þier i Trwñe Vægdar hiaa Fodur Myskunsemdanna, og forliika þig vid hann i JEsu Naadar Nafne; Lat Miñing Afbrota þinna særa og kremia þiina Saal og Hiarta, og þigg sijdann med Glede Heilrædeog Hugsvolun af himneskum Naadar Fyrerheitum, vitandeogtrwande þier til lijfkroftugrar Huggun-

ar, ad þoott þu syndger, þa hefur þu Arnadar-Mannenn hiaa Fødurnum JEsum Christum þañ rettlæta, sem er Foorn og Forliijkun bæde fyrer þijnar og allrar Verallðarennar Synder, 1. Joh. 2.

O minn lyknarfullaste Lausnare JEsu! vardveit mig fraa allre andvaralausre Synda Jdiu! Væg þu mier fyrer øllu forþientu Synda Straffe! Laat ecke mijnar Synder ofbiooda mier i mijnu Andlæte, virdstu þa mitt Hiarta nædarsamlega ad gledia med heilags Anda Hugsvølun og Hiaalpræde, Amen.

# 17. Piislar Pænke.

Um Leir-Potta-Smidsins Akur.



ñ þeir ædstu Prestar og Ølldungar hiellðu eitt Raad, og keyptu med þeim (30. Silfur-Peningum) eiñ Leirsmids Akur Vegfarendum til Greftrunar, fyrerþad er saa Akur kalladur Blods-Akur allt til þessa Dags. Þa er uppfyllt hvad sagt er fyrer Jeremiam Spaamañ seglande: Þeir tooku þaa Þriatyge Silfur-Peninga, er hiñ selde var med betaladur, hvern þeir keyptu af Jsraels Børnum, og hafa giefid þaa fyrer Leyrkiera

Leira-Smids Akur, epter þvi sem DR otteñ hafde mier boded.

PAd maa maklega satt jata, Saala miin, ad Lausnarans JEsu blessud Piinslar Saga er bæde hin diwpfundnasta Lærdooms- og lijka hin hiartnæmasta Hugguunar-Book fyrer alla þaa, sem i hana med Andagt og Gudrækne yferveiga; Sierhvert Atride þar inne, er af haaleitre DRottens Speke og addaaannlegre Giædsku so daasamlega niidurskamtad og skickad, til þess, ad aller Spaadoomar og Fyrermindaner þess gamla Testamentis skylldu fullkomlega rætast, og aller synduger Adams Nidiar, sem þar ad vilia riettilega giæta, mætti þar um efunarlaust visser vera, ad saa JEsus, sem kvalenn var og krossfestur, sie þad saklausa Guds Lamb, sem bored hefur allar Veralldareñar Synder, Joh. 1. Þetta saaum vid, Saala miin, ad sanna i þessare merkelegu Grein, sem seger, ad med þeim 30. Silfur-Peningum, sem Sonur Guds var selldur fyrer, hafe Gydingar keypt Leyrkiera Smids Akur, Vegfarendum til Greftrunar; Hvad ecke er skied af nockre Hendingu, helldur fyrer DRottens daasamlega Raadstøfun, sem ecke villde ad siin dijrmætu Ord skylldu aa Jord falla, hvør heilagur Jeremias hafde laungu aadur hier uin̄ fyrerspaad, enn finnast ritud hiaa Prophetanum Zacharia, aa þennann Haatt: Þeir vogu so miked sem eg gylldte 30. Silfur-Peninga, og DRotteñ

sagde

ſagde til mijn: Varpa þeim burt, ſo þeir geſeſt Pott amskurum, Zach. 11. Hier wt af meigum vid, Saala mijn, draga ockur til gudrækilegrar Jhugun nar, allmarga ægiæta Lærdooma.

Lijknarfullur Gud mæ maklega, efter Eſaiæ Ord um, Eſ. 45. lijkiaſt vid Leyrkiera-Smid. Allt Man nkyned af Jardar Leyr fagurlega myndad, og med Odaudlegre Saalu tijfgad, er addæannlegt Reiſtara-Verk hanns millderijku Almættis Handa. Efter ſijnu ſtrænga Riettlæte ſetur hañ þau ſi murugu Synda-Kier til Vanæru og Smæanar; Efter ſinne hiartgrooenne Myſkunſeme tilbijr hann þau hreinu Heilagleikans Kier til Æru og Vegſemdar, Rom. 9.

Þo ſie bleſſade HErra hefur æ Bodænge einn bloom legann Akur, og þad er hañs blijdaſta Myſkunſemi, ſem fyrer aungvo Peninga og alldeilis giefins er, fal lætenn og frambodenn ollum Syndaþiæ dum og Sorgmæddum Veſælingum til gledelegrar Hvijldar, og oruggs Nædar-Hælis, og þad af einſkiærre Nææd fyrer dijrmæta Forþienuſtu Frelſarans JEſu Chriſti, hver ed Lijf og Blood ſitt bleſſad lagde i Solurnar til þeſs, ad allar þiædar og harmþrwngnar Saaler ſkylldu hæga Hvijld og ſæta Svolun finna hiæ honum og i hañs himneſka Fodurs Myſkunſeme, Matth. 11.

Þad framande Foolked, ſem ecke ætte nockurn Hvijldar-Stad vijſann, meigum vier veſæler Adams

dams Nidiar maklega kallast, sem i Falle vorra fyrstu Forelldra urdum, og med Illgiordum vorum daglega forþienum ad verda Utlagar fraa Guds Barna Blessan, og framande fraa Israels Borgar-Rette, Eph. 2. utsnarader eins og annad Anstygdar Hræ, hveriu eckert Auga myskunnde, Ezech. 16 Enn lofadur sie lyknarfullur JEsus, sa ed leit milldum Medaumkunar Augum yfir Eymd vora, og lagde ut þad dijrasta Lausnar-Giallд sijna guddoomlegu og blessudu Blood-Dropa, bæde til ad fullnægia sijns himneska Fodurs straanga Rettlæte, og lijka til ad afreka þvi seka Mannkyne æskilega og eilijfa Guds Myskunseme, so nu meiga aller sannydrande trwader JEsu Elskendur Ohræddir lifa, Okvijdner deya, þvi ollum er þeim vijst og bwed i Lijfi og Dauda ad hvijlast og huggast i himneskum Akre hiartgroonnar Guds Myskunseme; þoott Lijkamenn hlioote lijflaus i Molldu ad leggiast munu þoo dijrkeyptar Saaler Guds Barna i dijrkeyptum Akre Drottens Myskunar gledelega hvijlast af ollu Synda og Sorga Erfide, JEsus giefur þeim ollum eilijft Lijf, alldrei skulu þær fyrerfarast, og eingenn fær slited þær ur hanns Hondum, Joh. 10.

Enn þad er vel merkiande, mijn Saal, ad þeim einum, sem attu heima i Jerusalem, var Leyr-Potta Smids Akuren til Greftrunar ætladur; Guds heilog Christne hier i Heime er andleg Jerusalem, og allra Guds Barna blessud Mooder, Gal. 4.

Allt er hlioota þeir fyrer Skijrnena, ad verda henne inn plantader, aller hlioota þeir fyrer saluhialpleg i Trw og i sannri Hlijdne vid fodurlegaſt Guds Nädar-Vilia ad vera Christnennar riettskickader Innbyggendur, sem i þann bloomlega Akur blijdrar Guds Myskunar vilia medtekner verda; Þad eru ecke aller þeir, sem hroopa HErra, Hrrra, helldur einaſta þeir, sem under eins kappkosta, ad giöra þess himneska Fodursens Nädar-Vilia, er inngaanga munu i Himnarijke, Matth. 7.

(Eilijflega lofadur siertu minn elskulegaſte JEsu, sem so nädarsamlega hefur leyst mig wr Utlegd minnar Olucku og Volvunar, enn afrekad mier gleidelegt Athvarf og Hæle i Akre þinnar Millde og Myskunar. Okvijdeñ skal eg lifa, Okvijdeñ mun eg deya, fulltrwa uñ þina fodurlega Giædsku, ad ei muner þu Saalu mijna, þoott aum sie og Overdrig, wr Akre þiñar eilijfu Myskunar hrekia. Hverriennfara mune uñ minn vesæla Lijkama i Daudanum, sie þinne fodurlegre Forsioon best befalad, þad er mier noog og þess vænte eg og bid audmiwklega af þinne eilijfre Nad, ad þu lofer þa Saalu minne ad freisaſt og friaſt fra allre Neyd og Pijnu i þinne Nadar og Verndar Hende; Þu hefur giefid mier Akur þinnar Myskunar, þigg þu eirninn nädarsamlega og medtak i þijna Myskunar Vogtun Akur mijns Hiarta. Eg offra þijnu blessada Nafni til Dijrdar, ebl þu med þijnum Nadar

ar-Krafte mier og mijnum til æffileguſtu Bleſſunar, Avoxt minnar Embættis Ydiu i Akre þinnar Chriſtne. Æ! loſa þu Drottenn minn andvana Lijkama mijnum, ad niota chriſtelegrar Greftrunar og gledilegrar Hvijldar i þiñа bleſſadra Barna andlegum Akre hier i Heime, og virdſt hañ ſiidañ æ effta Dege, ſo ſem þitt andlegt Hveite-Korn, bleſſadann og vegſamlegann wr Grøfinne ad uppreyſa, og i Bindine þeirra Lifendu æ Himnum, gledilega ad innſafna, Amen.

# 18. Pijſlar Pænke.

Um̃ Gydinganna Aklogun fyrer Pilato.

OG Hofud-Preſtarner og Olldungarner geingu ei ſiælfer iñ i Pijng-Huſed, ad þeir ſaurgudust ecke, helldur ſo þeir mættu neyta Paaſkaña. Pilatus gieck þa wt til þeirra og ſagde: Hverla Aklæru færed þier i giegn þeſſum Mañe? Þeir ſvørudu og ſøgdu til hañs: Ef þeſſe være el Jllrædis Madur, þa hefdum vier eige i Hendur feinged þier hañ. Þa ſagde Pilatus til þeirra: Taked þier hañ þa og dæmed efter ydar Løgum: Gydingar ſøgdu þa til hañs; Oſs leifeſt ecke ad lijf-

laata

lætta nockurn, so þad Orded JEsu uppfyllteft, er hañ sagde, teiknande þar med hverium Dauda hañ skyllde deya. Eñ Jesus stood frañe fyrer Landsdoomaranum. Og þeir tooku ad ꝏklaga hañ og sogdu: Þeñañ fiñum vier ad hañ frꝏsnijr Foolkenu, fyrerbijdur Skatt ad giefa Keysaranum, og seger sig ad vera Kongeñ Christum.

Þess heilagre og hreinferdugre sem einn Hræsnare vill siinast fyrer Mønnum, þvi fordæmannlegre og vidurstyggelegre finnst hann fyrer Gude; Hvilijker voru hiner vondu og blindu Gydingar; Þeir virdtu þad fyrer vondann Glæp ad gꝏnga iñ um Hwss-Dyr Þess heidna Landsdoomara, enn saurgudu sig þo med annare Synd lꝏngtum sviivirdelegre, ad selia hinn heilaga og riettlꝏta JEsum i Krossens Kvol og Dauda. Soleides mꝏ lijsa efter Sonum Þessarar Veralldar; hid ytra villia þeir gooder siinast fyrer Mønnum, eñ þoott Hiartad sie fullt Hræsne og Odygda, Matth 23. virda þeir fyrer litla edur aungva Synd. Þeir blygdast jafnvel vid, ad veita sꝏrꝏdum Vesælingum Myskun og Asiꝏ, enn viila ecke fyrer sier med gudlausu Athæse og giꝏlijfisfullum Heimsens Vellystingum, ad steypa Sꝏlu sinne i Glotun og Fordæming. Giær þijn, fyrer Guds Saker; Sꝏla mijn, og siꝏ vel til, ad þinn Guds Otte sie eingeñ

Hræsne

Hræsne, og Þioona honum alldrei med folsku Hiarta, Syr. 1.

Ecke villde Landsdoomarenn Pilatus i Ondverdu sæta Offa og Frekiu Lausnarans Aklagenda, helldur heimte, ad þeir skylldu med Rokum sijna og sanna hveria Akiæru þeir færdu i giegn þessum Manne; Hallde þad sierhver christenn Madur fyrer hina mestu Blygdan, ad lata sier midur fara enn þessum Heidingia, enn læte sier aungva Lægeing þikia af þessu hanns loflegu Dæme ad læra, ad giora riett og tala Sannleikann af Hiarta, hver sem i Hlut a, Psal. 15. verande alldrei so Ottasleigenn fyrer nockrum Magtar-Manne, ad hann læte þad med Skam nidurfalla, sem hann veit fyrer Gude og sinne Samvitsku satt og riett ad vera; Varest oll gudhrædd Yfervolld, af Drambseme og Hofmood Aumingians Riette ad halla, enn astundi med goodre Roksemd og Alvoru illra Mana Offstopa, ad nidurdempa og lagfæra, giætande a jafnann Otta DRottens, hia hverium eckert Ranglæte er, ecke helldur Persoonunar Alit, 2. Chron. 19.

Ad sijdurstu merkium, vid Saala miin, ad ockar milldeirijkum Lausnara JEsu var af Gydingum giefinn Þrefolld Sok, nefnilega: 1.) Ad hann fraasnere Foolkenu. 2.) Ad hann bannade Skatt ad giallda Keisaranum, og 3.) Segde sig ad vera Kongenn Christum. Hier finnum vid enn þa,





Saala mijn, himneſka Lynd lijfkroſtugrar Huggunar. Frelſaren̄ JEſus var fyrer Pręſallda Sok rangleg a klagadur mier til Vægdar og Myſkunar; Eg ſem i Pren̄ſlags Bodorda Brote er riettilega ſekur, maa medkienna, ad

1. Eg giorvallt Edle minnar illu Natturu og allt mitt Fram̄ferde afunded og fraaſnwed almaattugum Gude, og hanns bleſſada Naadar-Vilia, ſo þad gooda, ſem eg aa ad giora, giore eg ecke, enn þad illa, ſem bæde Bodord DRottens og mijn Chriſtinndooms Skyllda aviſſa ad eg eige ecke ad giora, þad giore eg opt og laungum, Rom. 7. hvar med eg bæde moodga minn himneſka Gud og Fodur, og lijka hneyxla min̄ ſam-chriſten̄ Naunga; Enn þad er mier eilijf Huggun, ad þad ſem JEſu Ovmer klogudu honum til Sakferlis og Fordæmingar, þad heimfæra nu oll Guds Born med Glede honum bleſſudum til ædſtu Vegſemdar, en̄ ſier til eilijfrar Myſkunar, ſegiande: Þennann JEſum funnum vier aller, ad hann med ſinne dijrmætu Forþienuſtu hefur ſnwed Foolkenu fraa Reide DRottens, Bolvan Logmaalſins, Aklogun Diofulſins, Ogn Daudans og eilijfre Fyrerdæmingu. Æ! lofadur ſie lyknarfullur Gud, ſem oſs hefur ſo gledelegann Sigur giefed fyrer JEſum Chriſtum, 1. Cor. 15.

2. Veit eg mig auglioosléga ſkylldann vera, og medkien̄e auglioosléga mig margoft forſoomad hafa

mijn-

mijnum himneska HErra og Konunge andlega Elskunnar, Hlijdnennar og Þacklætisins Þegnskylldu ad lwka; Eg er sæ ille Þioon, sem vitad hefe Vilia mijns hærsta HErra, enn ecke giort hann, Luc. 12. sem þeged hefe Velgiorninga mijns Hiartagooda Fodurs, enn ecke þackad þær, og hefe þvi forþienad ad lijda mørg Høgg. Enn blessadur siertu, minn blijdaste JEsu, sem med þinne fegurstu Hlijdne hefur bætt og forlijkad alla mijna Ohlijdne; Þu hefur sialfur giefed, Matth. 17. baudst og eirnenn, ad adrer skylldu giefa þad Gude, sem Gudsér, og þad Keisaranum, sem Keisarans være, Matth. 22. Blessud sie þijn blijdasta Ast og Hlijdne, og gief ad hun hrijne æ mier brotlegum Vesæling mier til Synda-Bootar og Mýskunar.

3. Hef eg Molld og Aska, Syr. 10. mier allt ofmiog upphrokad, enn mijns Guds Naadar-Vilia lijtils agtad; Æ! Virdst þu, Lausnare minn, med þijnu blessada Lijtillæte, Lykn og Lagfæring ad veita mijnum Hroka og margfalldre Drambseme; Þu hafnader fordum sæfeingelegum Kongdoome hier i Heime, Joh. 6. sem eilijflega lifer, og rijker i Dijrd Himnanna, Opinb. 19. So hefur þu DRottenn minn diwpt lijtilæckad þig, ad eg aumur Þræll skyllde til eilijfrar Dijrdar upphafenn verda; Þu varst fyrer Oforþienta Sok klagadur, so mijn forþient Synda-Sekt skyllde ad eilijfu verda afmaad og innsiglud, fyrergiefenn og forlaatenn,

Dan. 9. Æ! Laat þu, Lausnare minn, þa hördu Klögun, sem þu hlautst hier saklaus ad lijda, vera mitt fegursta Nauðar-Forsvar, þegar eg skal mæta fyrer þijnum Dijrdar-Doome, Amen.

# 19. Pijslar Pænte.

Jætning Christi fyrer Pilato.

Þa gieck og i añad Siñ iñ Lands-Doomareñ Pilatus, kallade Jesum og sagde til hañs: Ertu Kongur Gydinga? JEsus svarade: Talar þu þad af siælfum þier, eda hafa adrer sagt þier þad um mig? Þa svarade Pilatus: Er eg nockud Gydingur? Þijn Þiood og Kieñimaña-Hofdinglar ofurselldu þig mier, hvad hefur þu giort? JEsus svarade: Mitt Rijke er ecke af þessum Heime, ef ad mitt Rijke være af þessum Heime, þa mundu mijner Þienarar strijda þar fyrer, so ad eg ofurselldest ecke Gydingum, eñ nu er mitt Rijke ecke þadañ: Þa sagde Pilatus til hañs; Ertu þo samt Kongur? JEsus svarade og sagde til hañs; Þu seger þad, eg em og Kongur; Til þess er eg fæddur og i Heimiñ komeñ, ad eg bere Vitne Sañleikanum

um, og hver hañ er af Sañleikanum, sæ heyrer mijna Rodd.

Til þvi ædre Embættes og Virdingar, sem hinum nauduga Gude þocknast eirn ad upphefia, þess framar skyllde hann læta sier uñhugad vera, ad brwka so Valld sitt og Heidur, ad hinum allra hærsta Himnanna DRottne meige þiena til Lofs og Þocknunar, enn Lande og Lijdum til Fridar og Farsælldar, ad þeir Ottest DRottenn, og giøre hvad hønum vel lijkar, Syr. 2. Uñ þetta hyrdte ecke sæ heidne Landsdoomare Pilatus, hañ gieck þeigiande fram̃ hiæ þeirre fyrstu Gydinganna Sakargift, sem Guds Diird snerte; Hann trædkade JEsu Forsvare, sem hañ visse þo øllum augliooft vera, enn var hellst tijdt taladur uñ hanns Koongdoom, er hann hugde jardneskann vera, og villde so Keisarans Vinættu kaupa med vijsvitande Rænglæte. A þessum Odygda Vege gænga enn nu i Dag aller þeir, sem hyrda lijtt uñ Guds Diird og gooda Land-Stioorn, snijkia sier wt Hylli Høfdingianna med Hræsne og Pferdrepskap, og læta Sverd Drottens Rom. 13. Sakir skiemelegs Aviñings ridga i Slydrunum, nær þeir eiga ad forsvara Frelse og Frid sinna Undergiefenna, seliande þannveg hinn Riettlæta fyrer Peninga, og hiñ Fætæka fyrer eina Skoo, Am. 2. Varest sodd-ann Vijte aller Yfervalldsmenn, og siæe vel til i sønnum DRottenns Otta, hvad þeir giøra, þvi

eckehallda þeir Dooma fyrer Meñena helldur fyrer ORottenn, hann er med þeim i Doomunum, 2. Chron. 19.

I ødru Lage merkium vid hier, Saala miin með audmiwkre Lotning og æskelegre Hiartans Glede, fagra Jaatning Frelsarans JEsu Christi, um hañs eilijfann Koongdoom og andlega Rikisstiornan, øllum hønum hiartkiærum Børnum og hliidnum Þegnum til Hiaalprædis, Huggunar og eilijfrar Endurlausnar. Jaa, viist ert þu, miñ elskulegaste JEsu, einn Gud og eiliifur Kongur Oforgeingelegur, Osijnelegur og alleina viis, 1. Tim. 1. Þitt Rike er i Heimenum, enn þo ecke af Heimenum, þad er eitt eiliift Rike og allt Walld hliiti þier ad þioona, Dan. 7. Af þinne Myskunar og Magtar-Hende þyggia aller Kongar sitt Walld, og fyrer þig rijkia aller Hofdingiar og Stioornendur aa Jørdu, Ordskv. 8. Under þiinu Verndar-Skioole sitia þeir ad siinum Rijkium, og stijra siinum Þegnum med Farsælld og Fride fyrer þeirra Ovinum; Enn aa moote Dioſulsins og Daudans Magt megnar eingenn Veralldar Hofdingia Magt eda Walld ad standa, þad kostar allt formiked og þeir hlioota ad læta þad kiert vera ad eilijfu, Ps. 49. Þu mikle Mannanna Elskare leitst þijnum Myskunar Augum yfer vora Eymd; Þu eilijfe Dijrdarennar Kongur hefur med þijnum Guddooms Krafte sigrad vora Ovine; Þu hefur fridstillt og forliikad fyrer Syndena, yfer

uñed

unned Andskotans Magt og apturlokad Helviite, uppsvelgt Daudann i Sigur, enn Naad og Saaluhjaalp afrekad, Lijfed og Odaudlegleikann i Lioos leidt, 2. Tim. 1. Þitt Riike er andlegt Riike, sem blijfur ad eilijfu, Luc. 1. hvar inne þu wtbiiter ofs Þegnum þijnum allshaattudum andlegum Blessunar Giædum hier i Naadenne, Eph. 1. og lofar ofs eilijfum Vegsemdar Giædum sijdar meir i Dijrdenne; Æ! lofa þu mier aumum Vesæling, minn lyknarfulle HErra, under þinne mystunarrijkre Kongs Stioornan bæde ad lifa og deya; Laat Velldis-Sprota þiins Riikis, sem er þitt blessad Lijfsins Ord, vera minn Vönd og Staf, sem mig veikann stidie, styrke og leide i giegnum Heimsins myrkvann Dal og dimmann Daudans Skugga, Psal. 23. inn i eilijfa Himnanna Dijrd og Sælu. JEsu andlega Rijke er ecke af þessum Heime: Undrunst þvi ecke, Saala mijn, þo Heimurenn hate ockur, 1. Joh. 3. Giætum þess, ad vid erum Giester og Utlendingar hier i Heime, Ebr. 11. Laatum ockur þvi, i Kiærleika Guds og Þolinmæde JEsu Christi, kieppast efter voru rietta Fodur-Lande, sem eilijft er aa Himnum, hvar oll ockar Eymd mun ad eilijfu endast, og oll ockar Hrygdar-Taar ad eilijfu afþurkast.

J Þridia Maata giæt þess, mijn Saala, ad so sem þinn blessade HErra JEsus er Sannleiksins Kongur, og hanns heilöga Ord er Sannleikans

Ord, so hliitur þu, ef Frid og Myskun fyrer hañs Auglite villt finna, i Anda og Sannleika, aan allrar Hiarta sine, ad Ottast hann og elska, tigna og tilbidia, Joh. 4.

Ad siidursta skalltu, miin Saal, laata þad skarpa Ransak, under hvert DRottenn hlaut hier ad koma, minna þig aa þann siidarsta allsheriar Doom, hvar Gud mun hid gaumgiæfilegasta eptirspyria og ransaka: Hvad hefur þu giort? Þaa mun aungvum stoda med Hræsnenne sitt Maal ad fegra, ollum mun þaa Obærelegt almaattugum Gude einu Orde aa moote þusund ad svara, Job. 9. O! mijn Saal, med þvi þu skallt þessa vænta, ad maata fyrer Doomstoole DRottens, þa kostgiæf med heitre Ydran og alvarlegre Gudrækne, ad þu heilog og Ostraffanleg i JEsu Fride fyrer honum fundenn verder, 2. Pet. 3. Spyr daglega sialfa þig: Hvad hefur þu giort? Jaata þijnar Illgiorder, med audmiwkre Blygdan, og graatbæn med jafnade giædskurijkañ Gud i JEsu Nafne, ad hann giefe þier bæde Viliann og Maattenn til ad laata af Illu, enn læra Gott ad giora. O! minn lyknarfullaste Lausnare JEsu! Eg jaata audmiwklega, ad aa moote þier hefe eg allt Illt giort og broted; Eg trwe stadfastlega, ad þu hafer med þinne blessadre Forþienustu oll mijn Afbrot fortykt, alla mijna Skulld borgad; Þvi skal allt mitt Hiarta elska þig, aller mijner Kraftar þioona þier; Enn virdst þu blessadur mig veikañ best ad styrkia, so

ſo ad Lijfernid mitt hallde af allre Alvoru Þijn bleſſud Bod og Riettinde, Amen.

# 20. Piiſlar Passke.

Um Gydinganna Aklogun fyrer Pilato.

Pilatus ſagde til hanns: Hvad er Sannleikureñ? Og þa hañ hafde þetta ſagdt, gieck hann ut aptur til Gydinga, og ſagde til þeirra yppurſtu Preſta og til Lijdſins: Aungva Sok fiñ eg med þeſſum Manne. Og Hofud-Preſtarner aaklogudu hañ hardlega. Og ſem hañ aaklagadeſt af þeim ædſtu Preſtum og Olldungum ſvarade hañ aungvu. Pilatus ſpurde hann aptur ad: Svarar þu aungvu? heyrer þu ecke? Siaa! hverſu hardlega þeir aaklaga þig? Eñ JEſus ſvarade honum aungvu framar til nockurs Ords, ſo ad Lands-Doomarenn undradeſt þad nærſta. Eñ þeir voru þvi aakafare og ſegdu: Hann hefur uppæſt Foolked, med þvi hañ hefur kieñt aa ollu Gydinga Lande, og hefur til teked i Galilæa allt hijngad. Enn er Pilatus heyrde Galilæam

nefnda, spurde hann ad, hvert hañ være eiñ Galilæare? Og er hann fornam, ad hann var under Herodis Vallde, sende hann hañ burt til Herodem, sem eiñeñ var a þeim somu Dogum i Jerusalem.

PAd er nærsta grætlegt til þess ad vita, ad so sem Sannleikurenn er fyrir DRottens Auglite dijrmætur, þa er hann þo af morgum oraadvondum Veralldar Sonum optlega ovyrtur og ad litlu metenn, hvar med þeir berlega sveria sig i Ættena, ad þeir eru ecke af Gude, helldur af Fodurnum Fianda, hver ad er Liwgare og Lijgennar Fader og ecke stood hann i Sannleikanum, Joh. 8. Pañveg breitte hinn heidne Lands-Doomare Pilatus; Hann lietst vilia med Virdingu grenslast epter um Heimsins Sannleika, enn ovirte þo og eiñskis agtade þann Saaluhiaalplega Guds Sannleika, sem Lausnarenn JEsus honum til Vidvorunar talade, elskande laangtum framar Hiegoomann og Ligarnar, Psalm. 4. So sem miog er nu tijdt orded i þessum hreckvijsa Heime. Varest aller heidvyrder Menn þessa vidurstiggelegu Synd, aflegge Ligar, og tale Sannleika af froomu og falslausu Hiarta hver vid sinn Naunga, Eph. 4. Aller, þeir sem Guds Viner vilia vera, elske, lære og giore Sañleikann, og laate Lijssins Ord DRottens, sem er hinn ædste Sannleikur til Saaluhiaalpar, Joh. 17. vera sier, ollum Jardneskum Mun-

unn

um kostulegra, ollum Heimsins Vellistingum sætara.

Enn framar fær Saalenn mijn ad smacka hier ilmsæta Svolunar og Raadar Strauma, sem til hennar framstioota af Frelsarans JEsu fullkomna og flecklausa Sakleisi, hverju saa heidne Lands-Doomare Pilatus hlaut jafnvel naudugur viliugur ad hroosa, og openberlega ad yfirlijsa þvi, ad hann finde aungva Sok med honum. Þad jaata og finn eg brotleg saka Skiepna, med bliwgu Hiarta, ad aa mier liggur ofur þwng Byrde mina Illverka, og margvijslegs Raanglætes!, Psalm. 38. Þad heyre eg nu og merke, med fagre Saalar Glede, ad ljaa þier, DRottenn minn, fundust eingenn Lijkinde til nockra Synda edur Sakferles; Þier sie eilijft Lof, þu oflecfada Lambed Guds, 1. Pet. 1. Sem hefur teked uppaa þig mitt fordæmanlega Raanglæte, enn giefed mier aftur i stadenn þitt Guddoomlega og Saaluhjaalplega Riettlæte! Þoott Guds heilaga Logmaal seige mier nu, vegna minna Synda, obærilega Sok og eilijft Bolvunar Straff aa Hendur, þaa treiste eg og trwe, ad þu DRottenn minn muner mier þetta Lyknar Maaled leggia: Eingenn Sok finst med honum: Eg hefi afmaad og innsiglad hanns sauruga Sakferle; Eg hefe til fært og giefed honum mitt sannheilaga Sakleise, Dan 9. Eg er ordenn Forlijkunar Offur fyrir hanns Synd,

so hann skyllde verda Guds Riettlæte i mier, 2. Cor. 5. Hver vill framar æsaka mijna utvallda? Eg em hann sem þaa riettlæter; Hver er hann sem þaa gietur fordæmt? Rom. 8. Gief mier, DRottenn minn, ad þetta þitt Rædar Forsvar hrijne a mier fyrir þijnum Dyrdar Doome. Mitt Onytiu Hial og margfolld Illmælge, ætte med ollum Riette ad orka mier ognarlegs Dooms-Afelles og obærilegs Reikningsskapar, Matth. 17. Enn þu hefur, O HErra, med þinne heilagre Þagmælsku, bætt og forlijkad Brotenn mijn, mier til Frelses og Myskunar; Þad þacka eg þiñe Rææd audmiwklega, og vil aptur a moot feigenn kappkosta, epter þijnu blessada Digda Dæme, med christelegre Þogn og Þolinnmæde þad illa ad þola, og hid Orietta ad Umlijda, 1. Pet. 2.

Ad sijdurstu merk þu, mijn Saal, hversu Pilatus villde, med Slægsmunum og Kiænsku, koma þeim Vanda af sier uppaa Kongenn Herodem, ad dæma i JEsu Dauda Sok; Og ætla eg, ad allmarger Veralldar Menn sieu enn þaa i Dag alþeckter ad þvilijkum Hreckium og Underferle. Sierhver maa vara sig vid sijnum Vin, og trwa ecke ofmiog sijnum Broodur, þvi einn Brooduren nidurþrycker aňann, og eiñ Vinurenn svijkur hiñ annañ, Jer. 8. Gleimum þvi ecke Saala miin, med iduglegre Bæn ad leita Hiaalpar og Myskunar hiaa Gude, enn med gudrækelegre Forsiaalne

ad

ad uinflija Veralldarennar Prette og Svikræde; Einfalldleike og Riettlæte vardveite ockur, þa meigum vid med Glede vænta og bijda Guds Milldeꝛijkrar Verndar moote ollum Hꝛaska, Psalm. 25. O! minn elskulegaste JEsu! þu varst fra einum ranglaatum Doomara til añars hrakenn og hrisadur, og fieckst aungva Værd eda Roo ad hafa: Æ! veittu ad Saalenn mijn, leyst af ollum Eymdum, meige i eilijfre Himnanna Sælu niota æskelegrar og æfarande Hvijldar og Rooseme. Laat mig, Lausnarenn goode, mijns Embættes Hita og Þwnga i Vijngarde þinnar Christne, þier til Dijrdar, þolennmoodlega bera, og uñ mier siidann, ad farsællega, afstadeñe allre Erfides Piaaning, tvvrra Pioona Dyrdar Verdlauna af þinne einskiærre Naad niootande ad verda, Amen.

## 21. Pijslar Panki.

Uñ Herodis Forvitne og hvijta Klæded.

NN er Herodes saa JEsum, vard hann gladur, þvi hann hafde fyrir laungu girnst ad siaa hann, af þvi hañ hafde margt heyrt af honum, og hañ vænte ad hann munde siaa eitt Teikn af honum, og adspurde hañ aa marga Vegu, enn hañ svarade honum aungvu. Eñ

Kleñt

Kleñtmaña Høfdingenn og Skriptlærd-
ir stoodu og aaklogudu hann hardlega, eñ
Herodes med sijnum Strijds-Moñum
forsmaade hañ og spottade, færde hann i
hvijtt Fat, og sende hañ aptur til Pila-
tum. Og aa þeim Deige urdu þeir Pi-
latus og Herodes Viner aptur, þvi ad aad
ur voru þeir Ovinet sijn aa mille.

MIkeler Blindne og Þvermoodska daudlegra Manna, aa medal hverra þeir eru fleire enn færre, sem so lijtels vyrda og meta þad haaleita Guds Ord, hvert ed alla ydrunarlausa Foragtara mun eilijflega fordæma, Joh. 17. Þeir ed so opt vanrækia þad Lijfsroptuga Guds Ord, sem þeirra Saaler kann þo eilijflega hoolpnar ad giora, Jac. 1. Marger finnast eñ nu (æ þvi midur!) riettet Herodis Lijkar, þeir ed, aan verdugrar Andagtar og Gudrækne, heyra og umsHönd hafa þad haablessada GMottens Ord, einasta til Holldlegrar Skiemtunar, og af hiegoomlegre Fijsn til ad heyra nockud nijtt, Post. 17. Þeir ed hnijsast i GMottens haaleita Leindardooma, og dyrfast ad dæma um þaa, epter sijnum daarlegum og blindum Hugþootta, sem eckert skilar þo riettelega af þvi sem Guds Anda-tilheyrer, 1. Cor. 2. Giorande þann veg Gis ad hanns heilaga Nafne og haaleitu Leindar-Doomum, hvad þo er einn hinn skielfelegaste Saalar Vode. Varastu, O!

Madur, þesse vondu Wijte; Þackadu og virdtu þaa miklu Guds Naad med audmiwkre Andagt og Virdingu, ad hann blessadur hefur virdst til ad laata kienna þier og kunngiora sitt heilaga Ord, þier til Saaluhiaalplegrar Uppfrædingar og eilijfrar Huggunar. Vit fyrir vijst, ad Gude er eckert Gaman ollum Yorunarlausum Syndurum Neide, Hrelling og Harmkvælum ad hoota; Honum er eingenn Ysirdrepskapur, ollum sannydrande Saalum Naad Fride og Fyrirgiefning ad lofa; Giæt hinns fyrra med hiartanlegre Bligdan og Undergiefne, enn gled þig vid þad sijdara med oruggu og elskufullu Trwnadar Trauste. Gior alldrei Guds heilaga Ord ad Hiegooma Maale; Hlijd þvi þegar þad er kient af odrum, og haf þad eirnenn sialfur um̃ Hond med gloandi Andagt og Byrdingarfullre Gudrækne, giætande þess, ad DRottenn mun ecke laata þann ohegndann, sem hanns Nafn brwkar faafeingelega, 2. Mos. B. 20.

Lijfkroptuga Hiartans Glede, og lyknarfulla Boot allra minna Meina finn og fæ eg aumur Vesalingur, þaa eg heyre rædt um̃ þig, minn hiartkiære Lausnare JEsu, i þijnu heablessada Hiaalpræðis Orde; Þar fæ eg med mijnum doprn Trwar Augum ad siaa þijna dasfrijdu Naadar Asijnd, og med mijnum naadþyrsta Saalar Munne, ad minnast vid þijnar Milldedriwpande Varer i þijnum haaverdugu Sacramentum; Þar tendrast

hiinn

hinn lijtilogande Horkveikur minnar veiku Trw ar; Þar læknast þau svijdande Synda og Sorga Sarenn mins sundur kramda Hiarta; Þar lioomar fyrir miinum Saalar Augum fagurt Lijfsins Lioos, hveriu, ef nockur eptersilgir, Þaa mun hañ ecke raafa i Myrkrunum, helldur skal hann hafa Lioos þess eilijfa Lijfsins, Joh. 8. Þu lietst færa þig, minn HErra, i Augsijn þeim grima Ref Herodi, sem af holldlegre Forvitne villde þig siaa og heyra; Þvi vona eg, ad þu muner ecke þitt Myskunar Andlit byrgia fyrir minne voladre Saalu, sem af audmiwkre Ast og Trw laangar epter þier, so sem Hiörtenn epter fersku Vatne, Psalm. 47. O! hvad gladur hugsa eg til þeirrar fögru Fagnadar Tijdar, þaa eg, leystur af ollum mijnum Syndum, fæ ad siaa og skoda þiina lioomande Dirdar Asioonu Auglite til Auglites aa Lande lifande Manna; Hiartans feigenn vil eg med Polennmæde þar epter þreya og byda; Æ! virdstu DRottenn minn komande ad koma og ecke ad tefia, Hab. 2.

Ecke svarade Lausnarenn þeim gudlausa Konge Herodi einu Orde til hanns flookna Forvitnes Spurninga; Kennande þar med, ad ecke vill hann blessadur laata varpa dijrum Helgedoome sinna himnesku Naadargiæda fyrir Hunda, sem eru aller hrokafuller og ydrunarlauser Synda-Prælar. Vertu alldrei, Saal miin, samtaka hinum stolltu Veralldarennar Sialfbyrgingum, hverium

DRott=

DRottenn vill orbyrgum sleppa, helldur sinnda til ad filla Flock beirra audmiwku og Naadhwngrudu Guds Vesælinga, sem hann vill med Glede og Blessunar-Giædum sedia, Luc. 1.

Enn framar er athugande, miin Saal, ad Lausnarenn var af Herode og hanns Hof-Foolke, klæddur hvijtu Klæde til Spotts og Hædungar, enn bar med hefur hann blessadur afrekad ockur hvijtt Heilagleikans Silke og himneskann Hiælpræders Mottul siins fagra Forbienustu Riettlætis; Pad hilur Bligdun ockar Fatleisis, Opb. B. 3. Pad giorir ockar audvirdelegu Sorgar Mynd dijrmæta og bægelega fyrir DRottens Naadar Augum, og Gud mun vera ockar Styrkleike, Es. 49. O! minn elskulegaste JEsu, sem skriiddur ert fogru Heilagleikans og Sakleisesins Klæde, veit mier Kraft binnar Myskunar, ad Hiartad mitt hier til Lofs og Pocknunar mætte finnast Ostraffanlegt i Froomleika og Meinleisi; Laat bann blessada Mottul biins Riettlætes og skiinande Skrwda biins Hiælpræders i Liisi og Dauda a mier skarta, Es. 61. Og gief, ad eg bvi betur, sem leingur life, meige afklædast syndsamlegum Illverkum enn iklædast christelegum Dygdum og Dæðum sem bier meige vel bocknast.

Pilatus og Herodes aflogdu sinn undannfaren Ovinskap, begar bu, DRottenn minn, hlautst mille beirra ad gannga; Eg veit og vissulega trwe

ad þu geingur enn nu daglega, med þinne nadarfullu Fridþæging og Forlykun, mille hinns riettlæta Guds og mijn, brotlegs Syndara, til ad fridstilla hanns Reide og forlijka minn Misgiørning, þvi þu lifer eilijflega og bidur fyrir mier, Ebr 7. Hvenær sem Holldsins Osstope og Illlynde kveikir nockurn vondann Ofrid edur Sundurþycke medal christenna Manna; Æ! virdstu þaa Lausnarenn goode, med þijnum Fridar Anda ad gaanga aa mille þeirra; Virdstu illañ Ofrid mijskunsamlega ad stilla og yfirvofande Vandrædum milldelega ad afvenda; Hiaalpadu oss til ad lifa so i gudrækelegum Kiærleika hier i Naadinne, ad vier meigum aller samglediast i eilijfum Kiærleika i þijnu Dijrdar Rijke, Amen.

## 22. Piislar Pistill.

Um Krossfestingar Hroop yfir Christo.

ÞNN Pilatus samankallade Presta Høfdingia og Høfuds Meñ og Lijdenn, og sagde til þeirra: Þier hafed þenañ Mañ til mijn haft, so sem þañ er fra snijr Foolkenu; Og siaaed! eg hefe yfirheyrt hañ hier fyrir ydur, og aa þessum Mañe finn eg aungva af þeim Søkum, hvar um þier aaklaged hañ, og ei helldur

Her=

Herodes, þvijad eg sende ydur til hanns, og sjaaed, ad eckert er af honum giort þad Dauda sie verdugt, fyrir þvi vil eg hegna honum og laata hañ lausañ. Þvi hañ hlaut þeim, epter Venju Haatijdis Dagsins, eiñ lausañ ad giefa. Þaa kallade upp allur Hoopureñ, og sagde: Burt med þennañ og gief oss Barabbam lausañ, hver ed var, fyrir eitt Upphlaup og Mañs-Slag, er skied var i Borgeñe, iñsettur i Faangelse. Pilatus kallade þaa eñ aptur til þeirra, og villde JEsum lausañ laata, eñ þeir kolludu upp og sogdu: Krossfest þu hañ! þaa sagde hann eñ i þridia siñ til þeirra: Hvad illt hefur þaa þesse giort? eingva Dauda Sok siñ eg med honum, fyrir þvi vil eg hegna honum, og laata hañ lausañ. Eñ þeir stoodu þvi fastara þar aa, med miklum Hlioodum, æskiande, ad hañ yrde krossfestur. Og þeirra Hliood og Hofud-Prestaña tooku yfir.

SO sem DRottenn elskar hiartanlega raadvandt og gudrækelegt Framferde, so styrker hann eirnenn, stidur og umbunar þad nærsta Raadarsamlega; Hann lætur Hreckviise hinna Ogudiegu

ſa Enda med Skom̄ og Hneiſu, enn forheſur hann Riettlæta til Heidurs og Æru, Ja, hiær ſpar þeim, ſem froomer eru af Hiarta, Pſ. 7. Þeſs optar ſem JEſu Oviner villdu hanns allraſhelgaſta og fegurſta Sakleiſe nidurþryckia, þvi auglioosara og viidfrægara hlaut þad ad verda, jafnvel af þeirra eigenn Munne. Þan̄veg lætur Lyknarfullur Gud Froomlynde og Sakleiſe ſin̄a jafnann Raad og Heidur; Andſkotenn og aller hanns Utſendarar megna þvi ecke moote ad ſtanda. Lat þeſſa nadarriiku Guds Verndan yfir ſiinum Elſkendum locka þig og lada, miin Sal, til ad aſtunda hreinferdugt og laſtvart Guds Barna Fram̄ferde i þeſſum vonda Heime, og vert þeſs fullvugg, ad hver hann ottaſt DRottenn, ſa þarf fyrer aungvu ad ſkielfaſt, þvj Gud er hanns Trauſt, Syr. 34.

Ecke var ſa Gydinganna Sidvane, ad giefa einn Saka-Mann a Paſka Hatiidenne lauſann fra forþientu Straffe, af almattugum Gude leifdur eda bodenn i Logmalenu, helldur af Gydinganna eigenn Hugþotta uppſundenn og tilſkipadur, og þvi kunne han̄ ecke Gude ad þocknaſt; Þvi ad oniitu þioona þeir honum, ſem kienna þau Bodord, ſem einaſta eru Man̄a Setningar. Varaſtu þvi, Sala miin, ad fylgia Veralldar Mannan̄a Venu og Sidum fremur enn Guds Ord giefur þier Lof eda Leifi til; Giæt þeſs, ad ill Meinſ-

Meining gietur ad viisu spillt goodu Verke, enn good Meining kann alldrei illt Verk Gude þægelegt ad giora; Hann vill ecke ad hver eiñ giore þad sem hønum sialfsum þyker riett vera, helldur dreite af fremsta Megne epter DRottens Bodordum og Vilia, 5. Mos. B. 12.

Pilatus hugde med Slægsmunum ad vinna þad, sem hann visse riett, enn vogade þo ecke ad dæma, ad hinn meinlause JEsus skyllde laus lœtast, enn Mordingenn Barabbas missa Liifed, epter Makleaikum. Þannveg verdur þad Raad og Aform ad aungvu, sem ecke er i Otta DRottens byriad, Ordskv. B. 14. Holldsins Sierviska svijkur þœ helldst, sem henne mest treysta, og uñ siider leider hun til Dauda. Akollum þvi mættugann og milldann Gud, miin Sæl, i ollu ockar Raade og Aforme, og bidium audmiwklega, ad hann virdest alla ockar Vegu til Blessunar best ad greida, og sier þægelega vera læta, Syr. 31.

Yfirmennerner voru fremster i Flocke, og eggiudu lijka Almwgann, til ad æskia hinum saklausa JEsu Liifslæts, enn bidia Frelses og Fridar Mordingianum Barabbæ. Varastu, Saala mijn, i Guds Nafne! Illt Veralldarennar Dæme; Vogadu alldrei, ad leika þad epter, sem þu sierd ad adrer osæmelegt adhafast; Þvi ef blindur leider blindañ, falla þeir baader i Grofena, Matth. 15. Hafdu þvi eckert Samlag vid ofrieossom Verkeñ

Myrkranna, Eph. 5. Helldur hatadu þau mik-lu framar, og siaa til ad þu vinner þad ecke fyrir Veralldar Manna Vinfeinge, ad leida yfir þig med vijsvitande Glæpum, Guds eilijfa Oblijdu. Þeir sem Gud hefur yfir adra sett, ættu þess æ jafnannvel ad giæta, ad þess swære sem aller eru i Hofdingianna Footspor ad feta, þvi stærre Vandeliggur aa þeim, ad þeir ecke med vondu Hneixle og liootum Lifnade leide adra, eda steype siaalfum sier, i eilijfa Glotun, helldur aastunde ad gaanga i Guds Otta verduglega þeirre Kallan, hvar inne þeir eru kallader, Eph. 4.

Gudspialla Madurinn Matthæus gietur þess, ad Hws Frw Pilati hafe med hollum Raadum teked honum Vara fyrir ad dæma hinn riettlaata JEsum til Dauda; Matth. 27. Giæte þess allar goodar Konur, ad þær varest Jessabels ill Raad og Ogudlegleika, sem stofnar einasta til Olucku og Smaanar, 1. Kong. B. 21. Enn ad-hyllest Abigaels gudrækelega og skynsamlega Forsiaa, sem greider Veg til Heidurs og heillasamra Blessunar Nota, 1. Sam. 25.

Ad sijdustu snij eg Huga og Miñe til þijn, minn hiartkiæraste Saalar Brwdgume JEsu! Ædsta Hiartans Glede og sætasta Saalar Svolun stendur mier af þinne blijdustu Hoogværd og blessadre Þolinnmæde; Þu sem ecke upplaukst þijnum Muñe, helldur enn Lamb, þad sem til Draaps er leidt-

leidt, þegar aller þijnir Ovíner, med ogurlegt Bræde, hroopudu yfir þier Kvøl og Krossfesting hvad allt eg veit og trwe skied vera mjer syndugre Skiepnu til Myskunar og Saaluhiaalpar: Poost Løgmaalsins ognarlez Bølvan, Andskotans illsku-full Aklögun, og øll mijn vondu Verk hroope nu yfir mier Hefnd og Fordæming; þaa vona eg, fyrer þijna blessada Forþienustu, ad frijast fraa allre Aklögun, og saa ad heyra og hreppa af þier Vingiarnlegt Raadar og Myskunar Avarp, Frid og Fyrirgiefning. Þu hlautst fyrir þijnum Eyrum Ovinanna Illsku Hroop og Aklögun ad heyra: æ! laattu ecke, O Drottenn minn, þad ognarlega Doomsins Ord og eilijft Kvala Vein þeirra fordæmdu nockurn Tijma mier fyrir Eyru koma; Þitt Raadar Hroop hliomar nu i þiinu heilaga Orde fyrir miinum Eyrum mier til sætustu Huggunar; Mitt Bænar Hroop heyrest nu, fyrir þijns himneska Fødurs Raadar Eyrum, mier til Bænheyrslu og Blessunar; Himen og Jord hroopa nu yfir mier i þijnu Nafne Frid, Raad og Glede, Luc. 18. Allerheilager Englar og utvalen Skare þinna blessadra Barna siingur þier bæde a Himne og Jord Lof, Dijrd, Heidur og Packlæte; Hvar til eg, þinn aumaste Vesælingur, legg mitt audmiwkt og elskufullt Jaa og Amen.

## 23. Pijslar Paanke.

## Um̃ Christi Hwdstrijking.

# Þaa took Pilatus JEsum, og hwdstrijkte hañ.

ÞEss hormulegre sem JEsu bloodug Pijslar-Mind hefur vered fyrer holldlegre Sioon aa ad lita i Kvolinne, Þvi fegra hefur hun skined fyrer Naadar-Auglite þess himneska Fodursins, ollu tópudu Mannkyne til Fridþægingar og Myskunar; Þvi skiærare lioomar hun fyrer þinne andlegre Trwar-Sioon, Saala mijn, þier til lijfkroftugrar Glede og Huggunar; Hanns Kvol er þiña Synda Kvittun; Hañs Hormung þuna Synda Lækning og Linun; Allt þad sem hann leid, hefur hañ lided þier til eilijfrar Endurlausnar. Þu varst reyrd med hordum Ranglætisins Fiotrum, og af Andskotanum aumkunarlega herteken halldenn efter hanns Vilia til eilijfrar Fyrerdæmingar, 2. Tim. 2. Saa banvæne Syndarennar Siwkdoomur hafde allre þinne Fegurd fortært, allt þitt Edle saurgad, so þar var eckert heilbrygdt aa þier, helldur illa luktande Synda-Saar og bolgnar Glæpa Beniar; Logmaaled lamde med þwngre Bolvunar Swipu; Samviskann Ognade med Otta og Kvijda fyrer yfervofande Straffe; Þijn Synda Sok var stoor ordenn allt upp til Himens, Esdr. 9. Og þin Synda Saar luktudu illa, og svidu Oþærelega fyrer þinnar Heimsku Saker., Psal. 38. Yfer þessare þinne allra herfilegustu Synd, liet

JEsus sitt blessada Moodur Hiarta af Medaumkan og Millde sundur bresta, Jer. 31. Og þess vegna hlood hann þijnum Ockumslum uppaa sig, so þu skyllder heilbrygd verda; Hann leid Hormungena, so þu hreppter Huggunena; Hann bar Hegningena, so þu feinger Fyrergiefninguna; Hanns helgaste Lijkame var i Hwdstrokunne so herfilega sleiginn og særdur, so Grædi-Plaastur gudlegrar Lyknar og Myskunar yrde lagdur vid þijn Synda- og Sorga-Kaun, og þu skyllder fyrer hanns blessudu Beniar heilbrygd verda, Es. 53. O! minn lyknsame Lausnare JEsu! Eg vesæll Syndare skielf og titra af Hrædslu og Kvijda, so opt sem eg þeinke um þijna kvalafullu Hwdstroku, af þvi eg veit mig med minne ysirbootarlausre Illgiorda Idne hafa giort þier, DRottenn minn, þetta Kvalanna Erfide, og auked þier þessa Angistar Mædu, Es. 43. AE! aungva hef eg þa Assokun, DRottenn minn, hvar med eg kann eda vil mijna Synda Sok fegra, nema einasta þessa, ad skrijda ad þijnum Myskunar Footum med audmwku og angrædu Hiarta, og andvarpa i Hunmenn til þijn: Gud vertu mier syndugum lyknsamur, Luc. 18. Þu sem so harda Ressing villder minna vegna saklaus lijda, virdstu mier sekre Stoorbrota-Skiepnu Naad og Vægd ad sijna: Hugga þu mig med þinne Hiaalp, og þinn Mattar Ande styrke mig til ad þacka þier og þecknast, ad elska þig og adhillast þvi betur sem eg life lengur. Gled þig nu Saala

miin hiartannlega i Gude Heilsugiafara þiinum, Luc. 1. Guds Sonur hefur wthellt siinu Bloode til ad hreinsa þig af ollum þiinum Syndum, 1. Joh. 1. Hann hefur bored þitt Synda-Straff, so þu mætter finna Frid og Fyrergiefning; Hvar sem Syndenn og Sorgenn yfergnæfer hia þier, þar yfirgnæfir þo Naad og Myskun, Hiaalp og Huggun miklu framar i Christo JEsu, Rom. 5.

So heita Ast og Naad hefur JEsus siint þier, miin Saal! Laat þier til Hugar koma, hvad stoora Elsku og Losgiordar Skylldu þier byriar honum aptur ad moot ad gialda. Fyrer JEsu diira Blood og blessadar Under hefur þu odlast æskilega Heilbrygde; Slaa vel til, ad þu hellbrygd i saaluhiaalplegre Trw, Tit. 2. i sonnum Kiærleika, i heilagre Polinnmæde, þioner trwlega þiinum Gude, og verker þiina tiimannlega og eiliifa Velferd med Ugg og Otta. Pockneft naadugum Gude ad laata þiñ vesæla Liikama Siwkdoom eda Orkumsl aa sier bera, þa tak med Poliñmæde þier til Æru og Packa, ad bera þiins blessada JEsu Hrygdar Mynd, so þu meiger i hanns Nafne vænta þess, ad verda liikur hanns forklaaradre Diirdar Mind siidar meir i Himnariike, Phil. 3. Hugleid, hversu Ovidurkvæmilegt þad sie, ad Þrællenn skule skiemta sier med saurugu Syndanna Giaaliise, þar HErrañ liidur hañs vegna so grætlega Hormung og hryggilegt Kvalræde; Laat þetta, Lausnare miñ, mier

til

til gudrækilegrar Aminningar og sannra Sidboota i Hiarta og Muñe vaka! Pier sie Dijrd, Heidur og Packlæte ad eilijfu, Amen.

# 24. Pijslar Paanki.

## Uñ Purpurann og Pyrne-Coronuna.

Nu Strijds-Meñ Landsdoomarans tooku hañ og leiddu hañ med sier iñ i Pijng-Hwsid, kølludu samañ og søfnudu ad hønum øllu Lidenu, og afklæddu hañ, og færdu hañ i eina Purpura-Kaapu, og fliettudu eina Coronu af Pyrnum, og settu hana aa hañs Høfud, og Reyr i hañs hægri Hend, og beigdu Knie fyrer hønum, spledu hañ og tooku ad heilsa hønum og søgdu: Heill siert þu Kongur Gydinga! og gaafu hønum Pustra og hræktu aa hañ, tooku Reyreñ og børdu uñ hañs Høfud, fiellu aa Knie og tilbaadu hañ.

Pad er ærkeleg Huggun fyrer eina ydrande Saalu, ad yfervega, hverju daasamlega hinn annar Adam af Himni hefur med siñe bitru Kvøl og Pijnu afmaad og burttekeð alla þaa Reide og Bølvan, sem hinn fyrste Madur Adam inn i Heimiñ leidde,

enn,

eñ afrekad og tilfært ollu Mannkyne alla þa Nad og Blessan, Riettlæte, Lijf og Saaluhialp, sem hann miste og tapade. Þegar Adam syndgade, afklæddest hañ, og under eins vier aller hañs Nidiar, þvi fagra Heilagleikans og Riettlætisins Klæde, og aattum ecke annars Urkoste, enn iklædder Skom og Sneipu, Ps. 35. ad wtkastast fraa Nadar og Dijrdar Auglite DRottens, i Op og Ylfran hinna eilijfu Helvijtis Myrkra. Þegar DRottenn JEsus pijndest, liet hann sig Klædunn fletta til Smaanar og Haadungar, so hann tæke fraa mier mijn saurugu Synda-Totur, og iklædde mig himneskum Haatijdar Klædum sijns blessada Riettlætis, mier til saaluhiaalplegrar Æru og eilijfrar Blessunar, Sach. 3. Under hanns blesšadre Purpura-Kaapu vil eg, brotleg Skiepna, mijna Misgiørd hylia; Þar vil eg mæddur Vesælingur hiartans feiginn Hælis og Huggunar nioota; Under miins JEsu Myskunar Vængium skal vera mitt Trwnadar-Traust i Lijfe og Dauda.

Fyrer Adams orgu Ohlijdne lijste hinn riettlaate Gud Banne og Bolvan yfer Jordunne, ad hun skyllde bera Þyrna og Þystla Mannkynenu til Armædu og Hegningar, 1. Mos. 3. Fyrer JEsu adðaaannlega Ast og Hlijdne er aa Himne og Jordu yferlijst Nad, Glede og Blessan ollum naudlijdande Saalum til eilijfrar Huggunar. Hann liet sitt helgasta Hofud særa og sundurkrassa med Þyrne-Broddunum Bolvunarennar, afrekande þar med

Jordunne, og ollum Skiepnum, sem a heñe hræraſt, bloomlegann Avoxt Blessunareñar, so ad fyrer JEſu guddoomlegann Almættis og Myſkunar Krapt vidhalldaſt og forſorgaſt bæde Meñ og Skiepnur af aarlegum Jardarennar Grooda, og Gud upplijkur ſinne Orlætis Hond, og ſedur allt hvad lifer med Velþoknan, Pſalm. 145. Gleim þu alldrei, mijn Saal, þennann addaaannlega Myſkunar-Velgiorning hins eilijfa Guds med audmiwkre Lofgiord og innelegaſta Aſtar-Þacklæte, ad vijdfrægia og vegſama, ja, allt hvad Andardraatt hefur þad loſe Nafned DRottens.

Yfer mijnu Hofdi hieck Ognarlegur Þwngi Bolvunarinnar, sem Logmaaled hootade; JEſus hefur bored þann hvaſſa Þyrne-Krans aa ſijnu heilaga Hofde, ſo hann leyſte mig fraa allre Bolvan, enn koronade mijna Saal med Naad og Bleſſan, ſo sem med Skyllde einum, Pſal. 5. Fyrer þañ Kvala-ſaara Þyrne-Krans, sem minn Lauſnare hlaut hier ad bera, veit eg og viſſulega trwe, ad hann bleſſadur hefur afrekad mier aumum Veſæling fagra Coronu Myſkunarennar hier tijmannlega, og ſkijnande Coronu Dijrdareñar i Himnarijke eilijflega, 1. Pet. 5.

Mier þiker bæde vonlegt og verdugt, ad þier, mijn Saal, ofbioode dæmalauſt Gudleyſe hinna vondu Præla, sem þijnum hiartkiæra Lauſnara giordu þad allt til Haadungar og Kvala, sem þeir

gautu

gaatu vest upphugsad', þeir Ovirdtu hanns guddomlega Persónu med Ordunum, hæddu hans himnesku Kongs-Tign med Atlotunum, og afmindudu hans helgustu Asioonu med Hrækum og Slögum; O! giæt þijn, i Guds Nafne, Saal mijn, ad þu læter þad eckert finnast i Fare þijnu, sem komast meige i nockurn Samjöfnud vid sloddann Ohæfu. Vakta þig þaa þu geingur i Guds Hws, Pred. 5. hvar blessadur JEsus hefur losad med sierdeilis nakvæmre Nadar Nalægd, ad vera midt aa medal sinna elskulegra Barna, Matth. 18. Siaa þa vel til, ad þinn Guds Otte sie einginn Hræsne, og ad þu hæder ecke þinn DRottenn ad niju med folsku Hiarta, Syr. 1. edur hræker i hans helgustu Asioonu med kraptarlausu Gudræknennar Yferskine; Under eins og þu giörer i Guds Hwse Lijkamans Knie ad begia, þa laat fyrst og fremst Hiarta þitt og Hugskot med alvarlegre Andagt og Lotningu audmykia sig under Guds volduga Hond, og fyrer hanns dijrdarfulla Tignar-Vellde; Hugleid, ad þu ert aungvu betre Prælum þeim, sem hræktu i HErrans Asioonu, þegar þu einasta hefur Yferlit Gudlegs Athæfis, enn afneitar þess Krafte, 2. Tim. 3.

Ad sijdurstu sie eg hier bæde Ognarleg Siolld minna Jllverka, og i annann Stad Ometannlegann Mikilleik þinna Myskunsemda, minn HErra JEsu! Allt hef eg brotlegur Synda-Præll til þess

unned, ad eg skyllde med Smaan og Vanvirdu ut-skwfast fraa þijnu Naadar og Dijrdar Auglite, og verda ad Anstygd ollu Hollde um̃ Oendannlega Eilijfd, Es. 66. Eñ eilijft Lof sie þier, Lausnare minn, þu sem mig hefur so naadarsamlega fraa þe-irre Olucku endurleyst! Oll þijn Læging er mijn ædsta Upphefd; Oll þijn Hædung aflar mier eilijfs Sooma; Þau þrongu Hoggeñ, sem þitt helgasta Hofud særdu, endurnæra, græda og gledia mitt hrædda og harmþrwngna Hiarta; J þijnu Nafne og fyrer þijna Forþienustu, mun eg, þott bæde sie nu Syndum vafenn og Sorgum hladenn, so sem dijrmætur Sonur og elskulegt Barn, af þijnum og mijnum himneska Fodur i Naad og Millde virdtur og metenn verda, Jer. 31. Æ! þad er mijn stærsta Skyllda, þad skal og vera mijn ædsta Glede so leinge volgur Blood-Drope er i mijnum Ædum, þijna heitustu Hiarta-Giædsku ad vegsama, þijns heilagasta Nafns Æru ad vijdfrægia. Feigiñ vil eg einninn, Frelsare minn, þessa Heims Adkast og Armædu, efter þijnum Naadar-Vilia, þolinn-moodlega lijda; Enn veit þu mier, DRotteñ, Fullt-tiinge þinnar Lyknar og Lidsemdar i allre minne Neyd. Amen.

# 25. Pijslar Pænke.

## Um̃ Utleidslu Christi wr Þijng-Hwsinu.

Pilatus

Pilatus gieck þar wt aftur og sagde til þeirra: Siaɶd, eg leide hañ nu wt hijngad til ydar, so ad þier vited, þad eg fiñ aungva Søk med hønum. So gieck JEsus wt, berande Þyrne-Coronu og Purpura-Klæded, og hañ sagde til þeirra: Siaɶd Mañeñ! Þaa er Kieñimaña-Høfdingiarner og Þienararner saau hañ, kølludu þeir og søgdu: Krossfestu, krossfestu. Pilatus sagde til þeirra: Taked þier hañ og krossfested, þvi ad eg fiñ aungva Søk med hønum. Þaa svørudu hønum Gydingar; Vier hefum Løg, og efter vorum Løgum aa hañ ad deya, þvi hañ giørde sig sialfañ ad Guds Syne.

OSnarleg hefur vered Bræde og Blyndne Jesu Ovina, sem so herfilega wtlieku og ræɶnglega kløgudu hid blessada og saklausa Guds-Lamb; Þeir villdu eckert hañs Forsvar heyra, aungva hañs Afbotun meta, eingra Laga edur Riettinda giæta; Þeir dæmdu þad Dauda-verda Gudløstun, sem þo var sæluhiaalplegur Guds Sannleike, er Drottenn kvadst Guds Sonur vera. Varest soddann vonda Ræɶngsleitne aller þeir, sem Guds Born vilia kallader verda. Varest þeir, sem Gud hefur Valldstioornar-Sverded og þad veglega Doom-

ara Embætte tiltrwad, ad laata Heiptarfulla Akloge un vondra Mañä villa sig til ad tradka riettu Maale og Forsvare þess, er Rænginden lijdur; Brwke þeir Valld sitt og beite Sverde Lagaña Illvirkiunum til Hefndar og Leidriettingar, enn goodum til Forsvars og Styrkingar, 1. Pet. 2. O! miñ HErra JEsu, med hryggu og harmande Hiarta hugleide eg þitt saira Kvalræde, þvi eg veit, ad þess vegna var þijn Pijna so mikel og megn, ad mijn Afbrot eru so morg og stoor, enn med glodu og fagnande Hiarta dæest eg ad þijnu sann-heilaga Sakleyse, æ! laat þad, Lausnare minn, mijna Synda Sok bæta, minna Synda Bolvan burt taka, mitt Synda Straff forlijka; Byrg þitt Andlit fraa mijnum Syndum, og afmaa þu allar minar Misgiorder, Psalm. 51.

Enn framar gefst ockur Ordsok, mijn Saal, med gudrækilegre Andagt ad hugleida, og so sem eitt Innsigle aa ockar Hiarta ad festa þaa hryggelegu Kvol, sem JEsus leid fyrer ockur, og þar hardürmætu Naad og Myskun, sem hann afrek ade ockur, þaa hañ gieck wt wr Doom-Hwse Pilati, berande Þyrne-Coronu og Purpura-Klæde. Vid attum, Saal mijn, epter ockar Verdugleikum, allsnakenn og bersnaud af allre Blessan og Glede, eñ iklædd Bloodskulldar Forsmaan og Bolvunar Rænglæte, ad wtskwfast fraa allre Guds Naad og Myskun, og varpast med Hleckium Myrkranna i eilijfar Helvijtis Kvaler, 2. Pet. 2. O! þar

skammarlegu Syndanna Svivirding, O! þau skielfelegu Syndanna Verdlaun! Gud væge minni Blindne, lagfære mijna Breitne, og Mykuni minne brotlegre Sæalu! Enn eilijf Dijrd sie þier O Drottinn minn! Þu varst med Smaan og Hædung-ytleiddur ur Doom-Hwse Pilati, so eg skyllde med Nad og Heidre verda innleiddur fyrst i þitt Naadar-Rijke hier i Heime, sem er Riettlæte, Fridur og Fognudur i heilogum Anda, Rom. 14. og sijdann til þijns yndisfulla Dijrdar-Rijkis i Himnenum, hvar ed vera mun Gnoogt Fagnadar og gledilegt Lijferne til þinnar hægre Handar eilijflega, Ps. 16. Þu lietst þig med Hrygd og Hormung wtleida, og þvi fæ eg i þiinu Naadar Nafne, med Blessan og Glede, ad gaanga wt og inn, so leinge sem þu lofar mier ad lifa; Og þegar þier, O Drottenn minn, þocknast ad kalla mig hiedann, fyrer tijmannlegann Dauda, munu minner Brædur, sem efter þreya, wtbera mitt andvana Lijk til æskelegrar Hvijldar i Svefnherberge Grafarennar, Es. 56. enn þijner heilager Englar munu þa leida mijna Saalu burt wr ollum Eymdum, i fagrann Abrahams Fadm eilijfrar Sælu og Unnunar; Þaa munt þu, minn JEsu, sem mina vegna barst kvalafaarann Þyrne-Krans og forsmaanarlega Purpura-Sliik, giefa mier, ad afstodnu mijnu Mootlæte, fagra Dijrdarennar Coronu: Þu munt bijgaafa mig, ad sigrudu ollu mijnu Andstreime, med skijnande Sælu-Skarte og Sigurvinn-

ingar

ingar Psalm-Vid frame fyrer þijnum Tignar-Stoole. Þa munu heilager DRottens Englar hroopa yfer mier med himneskre Dyrdar Kiære: Sæled Mannenn, þann sem komenn er wr miklum Hormungum, og hefur sinn Skrwda bveiged og hvijtfagad i Lambsins Bloode; Þa munt þu, Saal mijn, ad eilijfu Eymda frij, og ordenn hluttakande himneskrar Sælu, fagurlega sijngia eilijst Fagnadar Haleluja, og med lystelegustu Englana Rodd siungia og segia: Daude, hvar er þiñ Broddur, Helvijte, hvar er þinn Sigur? Gude sie Lof, sem mier hefur Sigurenn giefid fyrer vorn DRottenn JEsum Christum, 1. Cor. 15. O! þu lifanda Guds Son, minn liwfaste Lausnare JEsu, Þu ert sannarlega Christur Sonur Guds, Matth. 16. Þu eingietne Sonur Fodursins, sem ert i hañs Skaute, hefur þinn Sonar Arf, sem er Naad, Sannleike og Saaluhiaalp, ollum oss þijns Fodurs Bornum og Brædrum giefid. Þier þu Sonur Guds, sem sialfur ert sannur Gud og þad eilijfa Lijfed, 1. Joh. 5. siungest ævarande Lof og Odaudlegar Hiartans Þacker af ollum Twngum Engla og Manna, nu hiedann i fraa og uñ allar Allder, Amen.

# 26. Pijslar Þanke.

Samtal Christi vid Pilatum.

Þa er Pilatus heyrde þad Ord, Ottadist hañ eñ meir, og gieck aptur i Pijng-Hwsid, og sagde til JEsum: Hvadañ ert þu? Eñ JEsus gaf hønum eckert Svar. Þa sagde Pilatus til hañs: Talar þu eige vid mig? Veitst þu ecke, ad eg hefe Raad til ad krossfesta þig, og eg hefe Raad til ad giefa þig lausañ? JEsus svarade: Eige hefder þu nockud Valld yfer mier, nema þier være giefed þad hier ad ofañ, fyrer þvi hefur sa meire Synd, er mig ofurselde þier. Og epter þad leitade Pilatus vid, hvornñ hañ giæte læted hañ lausañ: Eñ Gydingar hroopudu og søgdu: Ef þu lætur þeññ lausañ, þa ertu ecke Keysarans Vinur. Þviad hvør sem sig giører ad Kongi, hañ er a moote Keysaranum.

Hrædelegt og aumkunarverdt er ad hugsa uñ þad, ad þeir sem vilia Christner kallast, skule læta sier midur fara i þvi, ad elska og Ottast hinn eilijfa og alvallda, hiñ lifanda og lyknarfulla Gud, helldur enn Heidingium foor i þvi, ad heidra og hrædast þaū daudu Lykneske og mællausu Skwrgod, er þeir af Diøfulsins Innblæstri meintu og trwdu Gude vera; Og so kvad ramt ad Blindne þeirra,

ad

ad þeir hielldu God sijn munde gieta Børn af sier, eins og adrer holldleger Menn; Og hefur Pilatus kannske leidt i Huga sier, ad JEsus, sem kvadst Guds Sonur vera, være af soddañ Godaña Kyne borenn, og þvi Ottadest hann enn meir, viliande fara sem varlegast ad Rannsookn þessa Maals, so hann fellde ei yfer sig Godanna Reide. Hafe nu Heidner Menn bored soddann Blygdun og Virdingu fyrer sijnum vesælu Afgudum, sem þo eru einguu neyter, og ecke annad enn Vindur og Hiegoome, Es. 41. O! hversu miklu framar ættum vier, christner Menn, sem vitum og trwum, ad þar er einn Gud til, einn sannur Gud, einn lifande Gud, einn eilijfur Kongur, fyrer hvers Reide Jordenn skielfur, og einginn kann ad þola hañs Ognan, Jer. 10. O! hversu miklu framar ættum vier ad blygdast fyrer hanns haaleita Heilagleik, ad hrædast fyrer hanns straanga Riettlæte, ad um̃fadma og elska hanns fødurlega Giædsku og Mysskunseme med allre Hlijdne, Ast og Undergiefne, giætande þess, ad i hanns volldugu Almættis Hønd er øllum ydrunarlausum og Ogudlegum Ognarlegt ad falla.

Faavijslega foor Pilato, er hann stærde sig af Magt sinne, og meinte sier leifelegt ad beigia Veg Riettarens epter Villd siñe; Varest soddañ vondt Dramblæte aller Heidvirder Yfermenn, og giæti þess, ad þeir hafa Valld sitt og Um̃dæme þeiged af Guds Naadar Hende, og eiga þvi epter Guds Naadar Vilia og Laganna Reglu, enn ecke epter

siinum eiginn Hugþootta, med þad ad fara: Gud hefur giefed þeim Heidur Magtarennar, og heyrter þvi af þeim aptur æ moot Heidur Hlijdnennar; Virdingar og Æru meiga þeir ad Vijsu, vegna siins Embættis, niioota, enn varast eiga þeir med Hofmood eda Rangsleitne annara Heidre edur Sakleise ad nidra, giætande þess, ad Gud straffar hina Drambláatu, og bölvader eru aller þeir, sem þverwharsamlega burtviikia fra hanns Bodordum, Psal. 119. Vor Yfervolld eru af þeim hærsta Himens og Jardar DRottne yfer oss sett og skipud, þvi er oss skylldt ad veita þeim alla tilbærilega Hliidne, Elsku og Undergiefne, Rom. 13. Virdum og heidrum þad veglega Riettarens og Laganna Sverd, sem þaug i Hende hafa; Vorkunst Illverk og vonda Glæpe, hverium Valldid er sett til Hegningar; Enn kappkostum ad lifa i skilldugre Hliidne vid Guds Ord og Konungsins Log; þaa munum vier af Valldstiettenne hafa Frelse, Frid og Lofstiir. Þad er riettviist, ad Straffed sie ad þvi Leite þwngt aalagt, sem Syndenn er stoor til, 5. Mos. B. 25. Saa hlijtur hardare Hefndum ad mæta, sem verr og Ogudlegar hefur breitt; Yfran og Yferboot fiñur jafnann Vægd og Mijskun, enn Priootiska og Þverwd er viis Reide og Straffun bæde af Gude og Mönnum; Saa Pioon, sem veit Vilia siins HErrá og giörer hann ecke, hañ mun lijda morg Högg, Luc. 12.

Vernda

Vernda þu og blessa, govde Gud! øll vor Yfervøld ædre og lægre Stietter; Gief ad þau sitje og fordeſt illt Hneyxle og alla Raungſleitne; Gief ad þau elſke, adhylleſt og ræke gooda Landſtioorn og gudrækelegt Framferde; Gief ad aller Undergiefner giæte med Gudrækne ſinnar Skylldu i þvi ad Ottaſt þig, heidra Konunginn, 1. Pet. 2. og elſkaſt innbyrdis, ſo ſem Chriſtnum ſoomer, ſo vier aller, under þinne Vernd og Bleſſan, mættum lifa i Fride og Kiærleika med allre Gudrækne og Sidſeme, Amen.

## 27. Piiſlar Pænke.

Pilati Samtal vid Gydinga æ Doomſtoolnum.

Sem Pilatus heyrde þad Ord, leidde hañ JEſum wt, og ſette ſig æ Doomſtooliñ i þeim Stad, ſem kallaſt hiñ Steinlagde, eñ æ Ebreſkn Gabbatha, eñ þad var Adfanga-Dagur Paaſka nærri Siøttu Stundu: Pæ ſeger hañ til Gydinga: Siaed, þad er ydar Kongur. Eñ þeir kølludu: burt burt med hañ, kroſsfeſtu hañ. Pilatus ſagde til þeirra: Skal eg kroſsfeſta ydar Konung? Kieñimaña Høfdingiarner ſvorudu: Aungvañ Konung høfum

vier nema Keysaran.

Ecke er þad ad undra, þoott Ord DRottins hroope so Ognarlega Reide og Bolvan yfer einum ranglatum Doomara, sem veit Riettindeñ, enn gjorer þau ecke, Jer. 5. og lætur Maññña Myndugleika hræda sig, edur þeirra Vinaattu locka sig til ad hiaalpa ecke þeim Faatæka til Riettar; Þvi so sem Raadvendne og Riettviise er hinum naaduga Gude þeck og þægileg, so er einnenn Maalafylge og Rangsleitne sw argasta Svivirding fyrer hanns dyrdarfulla Auglite, Ordsk. B. 17. Varest þvi aller Heidvirder Menn, og sierdeilis þeir, sem Drottenn hefur Doomara Embætte tiltrwad, illt Dæme hins heidna Landsdoomara Pilati, hver ed so Ogudlega sem heimskulega hræddest framar Keysarans Reide, helldur enn hiñ lifanda Gud, og matte meir sitt eiged Gagn, helldur eñ Sannleikann og goda Samvitsku; Og er þa illa fared med Sverd DRottens, þegar Menn þann Veg beita þvi, til ad nidur brioota Guds, enn uppbyggia Andskotans Rijke, til ad spilla annara Rette, enn myrda sijna eiginn Saalu. Vakte sig þvi aller gooder Menn fyrer soddann vidurstyggilegre Smaan og vofeiflegum Saakar Hætka; Laate aller Doomendur Otta DRottens hiaa sier vera, so þeir vardveite sig og giore þar epter, 2. Cron. 19.

Med Hiartans Glede og Lotning snij eg Hugreñingum og Maale mijnu til þijn, minn haablessade

ade Lausnare JEsu! Pilatus kallade þig Konung med Spie og Hædne; Gydingar hroopudu yfer þier Kvol og Krossfesting med Ossa og Ognar-Bræde; Enn miin Sæl veit og trwer, vidurkiener og jaatar med diwpustu Audmijkt og heilagre Hiartans Glede, ad þu, minn JEsu, ert einn Gud og Konungur fraa Eilijfd til Eilijfdar, Ebr. 1. Þu ert Konungur bæde aa Himne og Jordu, Konungur Engla og Manna, Konungur hinnar ædstu Magtar og mestu Mykunar, af Gude þijnum himneskum Fodur smurdur med Gledennar Vidsmiore laangt fram yfir þijna Hluttakendur, Psalm. 45. Og þo hefur þu, O HErra, so diwpt lijtelæckad þig, mier vesælum Jardar Orme til Myskunar, ad þu stoodst bundenn og fiotradur, so sem hinn argaste Illrædes Madur fyrir Ogudlegra Manna Doome, og varst af ollum æklagadur, wtskwfadur og til Dauda dæmdur. O JEsu! Eg trwe stadfastlega, og bid audmiwklega, ad þu læter mig aumann Vesæling niota þessarar þinnar diwpu Nidurlægingar, þegar þu kiemur aa sijdasta Deige i Skijunum, med stoorum Krapte og Dyrd, til ad dæma alla Jardar Kringluna med Riettwijse, Post. G. 17. Þu mætter Aklogun og Sakferle fyrir ranglaatum Manna Doome; Gief, ad eg heilagur og ostraffanlegur i Fride fundenn verde fyrer þijnu Auglite aa þeim efsta Deige, 2. Pet. 3. Þijner Oviner lietu hier Illskufullt Kvala Hroop fyrir þijnum Eyrum

hlióoma; DRotten minn, giefad eg fææ þar gledelegt Nadar Avárp af þiinum blessada Munne ad heyra; Þu varst af øllum sem Illvyrke reiknadur; Veit ad eg, aasamt þijnum blessudum Børnum, sie og verde talenn, og aa Lijfsins Bok teiknadur. Med audmiwku og Elskufullu Hiarta vil eg þig minn Konung kalla, tigna og tilbidia; Virdstu i Nad og Vægd ad þeckia og medtaka mig fyrir þinn Þræl og Þienara; Eckert Veralldarennar Herra-dæme vyrde eg til jafns vid þaa Æru; Allt Heimsins Gotz og Gløs vil eg feigenn fyrer Þreck hallda, uppaa þad eg aavinne þig, minn JEsu, og meige niootande verda þijns sæluhiaalplega Riettlætes, þiins guddoomlega Nadar Hiaalprædes, þinnar eilijfu Dyrdar og Sælu, Phil. 3.

A þad haafa Gabbatha Stein-Stræte liet giædskurijkur JEsus sig leida, so eg mætte, i allskonar Heimsins Hættu og Hørmung, hanns Lijknar og Varatektar niota; Hann er vor Gud, uppaa hvørn vier vonum, og hann mun hiaalpa oss, so ad vier glediunst, og sieum glader i hanns Hiaalpræde, Es. 25. O! HErra JEsu! Þu blessade Konungur yfir Guds heilaga Fiall Sion! Psalm. 2. Þijn dijrkeipta Christne kys þig, tignar og tilbidur, so sem sitt Høfud, sinn HErra og Konung; Æ! laat hana under þinne nadarfullu Kongs Stioornan vidh alldast verndast og blessast, so Port Helvijtanna megne eckert aa moote henne,

Matth. 16. Vertu hennar Hialpar Skiolldur og Sigurvinningar Sverd, medann hun er hier i Heime strijdande; Og veit henne ad sijdustu fyrir þijna Naad i himneskum Dyrdar Fride ad verda eilijfum Sigre hroosande, Amen.

# 28. Pijslar Pistill.

Um̃ Pilati Handa Þvott og Doom.



ENN er Pilatus saa þad hann kom aungvu til vegar, helldur ad þar yrde enn meira Upphlaup af, took hann Vatn og þvode Hendurnar fyrir Foolkenu, og sagde: saklaus er eg af Bloode þess Riettlaata, siaed þier til. Þaa svarade allur Lijdur og sagde: Hanns Blood kome yfir oss, og yfir Born vor!

Og Snarlegt er ad hugsa um̃ þad, hversu herfilega Diofullenn fer ad forblinda Mannskiepnuna, þegar hun hyrder ecke um̃ ad hafa almaattugann Gud fyrir Augum sier; Hun geingur vijsvitande aa Diofulsins Veige, og giorer viliande Diofulsins Verk; Hun fer ad hanns Raadum og fylger hanns Aeggingu, allt eins og einn Þræll kiemur, þaa hanns HErra kallar aa hann, og gioreer þad sem hann skipar honum, Matth. 8. Sodd-

ann hrædelegt Blindnennar og Ogudlegleikans Dæmé siaum vid, Saila mijn, a heim heidna Landsdoomara Pilato: Hann visse vel, ad Gydingar hösdu af-Hatre ofurselldt DRottenn i hans Hondur; Hann hafde optlega berlega yfirlijst Jesu Sakleise; Og þo blindade Andskotenn so herfelega hanns Augu, ad hann liet Keisarans Reide hræda sig, og Foolksins Ræde locka sig til ad dæma JEsum til Dauda, þvert a moote sinne Samvitsku; Oskandevære, ad Yfirvolldenn villde Guds Dijrdar, Landsins og sinnar eigenn Velferdar vegna, taka sier trwann Vara fyrer soddann Synd og Svijvirding. Gud betre nadarsamlega vorar Tijder! hvad margur mun nu saa i Heimenum, sem lastar og fordæmer þessa Pilati Adferd, enn geingur þo i somu Glæpa Spor, og filgir sama Ranglætesins Ferle? Ottenn fyrir Mannanna Magt og Vallde situr opt (æ þvi midur!) i Doomara Sætenu, og leggur Urskurd a Maal Manna, Hofdingiunum til Vilia og Þocknunar, vondum Skalkum til Forsvars og Frijunar, enn Aumingianum, sem ecke fær Riett sinn, til Skada og Nidrunar. Abata Von og Vinattu Filge setur jafnvel Digdanna Nafn uppa Skamer og Leste; Og kannskie þeir finnest, sem sijna Fordilld sina, i þvi ad veria so rangt Maal sem riett være, til ad taka i Forsvar eiñ glæpafullann Barabbam; Og eg ætla Menn meige alltof opt sia þad og sanna, hversu Gull-Tungañ

og hin Babyloniska Kaapa giora miked ad verkum i þvi ad blinda einn aagiarnann Achan til ad giora Þvert aa moote Guds Bode og sinne eigenn Samvitsku sier til Olucku og Fordæmingar, Doom. B. 7. Verda maa og so, ad sumum fare verr en Pilato i þvi, ad þeir þigge Mwtur og Giafer til ad beigia Veg Riettarins, hvad ad er hin argasta Svivirding, bæde fyrir Gude og Monnum. Soddann Logleisa er hin skadlegasta Drepsoott i einu Lande, og einn Hirningar Steirn i Andskotans Samkundu, Opb. B. 3. Eda, maa eg spyria: Hvad velldur þvi ad Illgrese adskilianlegra Lasta og Odigda vex nu so odum i Akre þeirrar sijnelegu Guds Christne vor aa medal? Matth. 13. Ad vijsu velldur þvi einna mest Umsioonarleise þeirra yfirbodnu, þeir ed meta sitt eiged Gagn meir enn Velferd sinna undergiefenna; Vilia kioosa sier Hroos af hvers Manns Munne, med þvi ad þyrma Skaalkenum under Medaumkunar Yfirskyne, laatande Hofdingianna Mikelmensku halldа Logunum so hræddum, ad þau hlaupa so sem i Felur, þegar þau eiga ad heimta hinn Ogudlega under Straffed. Gud vardveite vor Yfirvolld fraa soddann vondum Dæmum, og giefe þeim Raadtil, ad vanda so sitt Embætte i Otta DRottenns, ad hanns verde Dijrdenn, enn bæde yfirbodenna og undergiefenna tijmanleg andleg og eilijf Velferden!

J annan marta merk þu hier, mijn Saal, heimskuleg

skulega Blindne hinns heidna Pilati, ad hann hug-de med siinum Handa Pvotte ad segra og afplaana sitt Raanglæte fyrir Gude og Mönum. Varastu, i DRottenns Nafne, þesse Vijte, O Mad-ur! giæt þess, ad þott þu kunner med þiñe saniitre Hræsne ad segra Synd þijna fyrir Mannanna Doome, þaa er þier þo omögulegt ad diliast fyrir DRottenns Augum, sem eru þusundsinnum skær-are enn Soolenn, og siaa allt hvad Menn giora, Syr. 23. Vilier þu þvo þig, so ad þier meige fyrir DRottenns Naadar Auglite duga, þaa þvo og hreinsa hvad best og nakvæmast Hiarta þitt og Hugskot, og þad med heitum Ydrunat Taarum, og gudrækilegre Lifnadarens Betran, leitande þier Helgunar og Hreinsunar i HErranns JEsu blessada Bloods Krapte, sem er frij-openn Brunnur til ad afmaa og forlijka Saurugleik þinna Synda, Sach. 13. Varastu skinhelgann Hræsnes Pvott hins heidna Pilati, enn idkadu sem optast gudræk-elegann Umvendunar Pvott þess ydrande Davids; Andvarpadu med Taarum aan Asiaats til hins gooda Guds; þvo þu mig vel af Illgiord minne, og hreinsadu mig af miinum Syndum, Psalm. 51. Kosta Kapps um i JEsu Krapte ad bæta þinn Lifnad og betra þitt Framferde, Jer. 7. Pad er saa Gude þægaste, og þier hollaste Hreinsunar Pvottur.

Hinn blinde Gydinganna Lijdur hroopade i Brædesinne Guds Sonar Bloods Hefnd bæde

yfir

yfir sig og Børn sijn, sem sijdann hefur hrined og mun hrijna a þeim til ognarlegs Straffs og Hegningar. Sétie þvi sierhver, sem sijna Velferd kiæra hefur, Jnnsigle gudrækilegrar Vareigdar og Forsiaulne a Varer sijnar, Syr. 22. Einkum og allra hellst þa hann er reidur, so hann hverke skade sijna eigenn Saalu, nie ofte odrum nockra Ofara, þvi þess hafa Dæmenn giefest, ad af vondum Ordænum hefur beiskur Oluckunnar Avoxtur sprotted. Þvi eru þad agiæt Heilræde, er aller ættu vandlega ad geima, ad Menn vare sijna Tungu fra illu, Psalm. 37. Enn venie hana Skaparanum til Dijrdar, enn sier og sijnum til bestu Blessunar Nota.

O! HErra JEsu, sem mier til Mykunar villder ranglatann Dooms Urskurd lijda; Þu sem snarlega munt aptur koma Riettlætes Dooms Urskurd yfir allre Jordunne ad uppsegia, stioorna þu Doomurunum til ad fara vel og varlega ad sijnum Doomum, so þijn verde Dijrdenn, enn þinna Barna æskeleg Velferdenn. DRottenn minn, afleis oss med Jsopo, so vier hreinsunst, þvo þu oss, so vier fyrir Trwna hreiner og vid þig forlijkter, Snioo-hvijter verdum, Psalm. 51. Þitt dijrmæta Blood, þu oflecklada Guds Lamb, sem utfloode a Krossenum, hrijne a oss og vorum, Ja, ollum þijnum Børnum, til Frelses og Fridþægingar, til Synda Boota, og sannrar Blessun-

ar, Amen.

## 29. Pijslar Pænki.

Um̃ Barabbas Frelse.



NN Pilatus peinkte Foolkenu Fullnægiu ad giøra, og dæmde ad skie skyllde þeirra Beidne, gaf þeim Barabbam lausann, þann er inn var settur fyrir Upphlaup og Manndraap i Myrkva Stofu, um̃ hvern þeir bædu; Enn JEsum hrædstrijktann fram̃sellde hann þeim, epter þeirra Villia, ad hann krossfestur yrde.

MErkelega Hugleiding mætt þu, Sæla min̄, draga þier af þessu Dæme, bæde um̃ Mannsins mikla Eymd, og liika þar myskunarriiku Endurlausn, sem skien er fyrir Frelsarans JEsu bitra og blooduga Piinu, sæ ed i Heimeinn er komenn, og æ Krossenum kvalenn, til ad giøra alla synduga Menn sæluhoelpna, 1. Tim. 1. Barabbas merker, epter lærdra Manna Utleggingu, FÖdurs NJdia; Vid hann mæ med ollum Riette liikiast hinn fyrste Madur Adam, og aller vier hanns vesælu Nidiar, sem under Ogn Daudans ættum i eiliifre Þrælkan ad vera, Ebr. 2.

Bæde

Bæde giørde Adam hid mesta Upphlaup, þegar hann, med Rautn þess forbodna Eples, forsmaade blessad Bodord siins Skapara, 1. Mos. B. 2. Og lijka vard hann saa veste Manndrapare, þegar hann, med sinne grætlegre. Hrøsun, leidde tijmanlegann andlegann og eilijfann Dauda bæde yfir sig, og alla sijna Nidia; Under Guds Reide, Grimd Diøfulsins, og ognarlegre Epter-Bid eilijfra Kvala, ætte Adam og allt hanns Afkvæme, so sem i dimre Dijblissu fiotrad og fangad, eilijfrar Heliar ad bijda, i þvi Dijkenu, sem rijkur af Ellde og Brenne-Steine, Openb. B. 19. Enn eilijflega lofadur sie lijknarfullur JEsus, sem liet sig saklausann til Dauda dæma! So Adam og vier aller hanns Nidiar mættum Frid og Frelse, Lausn og Lijfgiof hlioota. Hinn glæpafulle Mordinge Barabbas er laus giefenn, enn hin̄ sañheilage Guds Sonur JEsus til Lijflaats urskurdadur; Lijka so sem Syndenn rijkte i Adams Falle til Dauda og Fordæmingar, so skal Naaden miklu framar rijkia fyrer JEsu Pijnu, til Riettlætes, Helgunar og eilijfrar Endurlausnar, 1. Cor. 1. Nu fyrst eg er einn af Adams Nidium, þaa mæ eg maklega heimfæra uppaa mig þetta Dæme, bæde til audmiwkrar Endurmiñingar mijns grætlega Glæpanna Athæfis, og lijka til gledelegrar Ihugunar mijns JEsu Millde og Myskunar Hiaalpræde: O! hvad opt hef eg aumur Þræll giort þriv otskufulla Uppreist moote mijnum himneskum

Gude og HErra, og hanns heilaga Anda Naadar Verkunum, briootande daglega hanns blessud Bodord, og vanrækiande mijna Christendooms Skylldu bæde vid Gud og Naungann; Gud hefur mig i Millde og Mykun uppaled, enn eg hefi med Prioolsku og Pverwd fra honum falled, Es. 1. Ecke er eg helldur frij fyrir illu Manndraape, þar eg hefe minne Saalu med vijsvitande Synda Idiu ordsakad Verdlaun andlegs og eilijfs Dauda, Rom. 6. Og þar ad auke, med morgu vondu Framferde hneixlad minn Naunga, og leidt hann i daudlegann Saalar Haaska. Ofrægur em eg ordenn bæde fyrir Gude og Monum vegna Afbrota minna, sem eru uppgeingenn yfir mitt Hofud, og ordenn mier ein ofurþwng Byrde, Psalm. 38. Eg geing i dimum Dal og Daudans Skugga, so sem i Myrkva Stofu innelukrur, hvar Logmaaled hræder og skielfer mig, Daudenn ognar og ofbijdur mier, Syndernar særa Saalina miina; Mootlæted og Mædann vill margvisleg tilfalla.

O! blessadur vert þu, minn blijdaste Lausnare JEsu, sem i Heimenn ert komenn til ad afreka saungudum Frelsed, til ad boda harmþrwngnum Huggunena, og utvega ollu topudu Mannkyne eilijfa Endurlausn og Saaluhiaalp. Þu lietst þig saklausann til Dauda dæma, og lætur mier nu sekum i þiinu heilaga Nafne Naad og Fyrirgiefn=

giefning boda, Luc. 24. Þu hroopar siaalfur Kvittun og Frid i Himnenum, þu lætur þina Umbods Menn og Þienara med heilagre Aflausn og hæleitum Naadarennar Medolum leisa miin Synda Bond, og lina mijnum Synda Fiötrum; Allt þad sem Dauda verdugt fanst hiaa mier, var til Dauda dæmt aa þier, DRottenn minn; Þvi skal eg alldrei orvænta mier þinnar Naadar, alldrei kvijda þiinum Doome: Mijn Saal gledur sig i þier, og er næsta gladvær i þijnu Hiaalpræde, Psalm. 35. Þu hefur leist mig ur Daudans Fangelse, þu munt lofa mier ad lifa, og liika ad deya i þijnum Naadar Fadme. Opt vilia miinar Synda Stunder bæde laangar og straangar verda, enn þad er miin Hugsvolun og Harma-Boot, ad su himneska Paaska Hætiid þinnar dirdarfullu Tilkomu mune um siider yfir mier upprenna, aa hverre eg mun fyrir þiina Naad, miñ Jesu, leisast ur Myrkva Stofu minna Synda og Sorga, enn leidast til þess himneska Samkvæmis heilagra Eingla og allra Utvalldra, hvar þu, DRottenn, munt vera mitt eilyflegt Lioos, og aller Dagar minnar Hörmungar skulu i þinne Dyrd og Sælu fullkomenn Enda taka, Es. 60. So mun nu Barabbas, Adam og eg hanns Nidie, hiartanlega voru Frelse fagna; Lof seige þvi DRottne oll hanns Verk i ollum Attum hanns Herradæmes; Lof seig þu Ond miin DRottne, Psalm. 103. Amen, Haleluja.

# 30. Piislar Pœnki.

## Um̃ Christi Krossburd.

Þa tooku þeir JEsum, epter þad þeir høfdu spottad hann, fœrdu hann ur Purpura Kapunne og fœrdu hañ i siin eigen̄ Klæde, og leiddu hañ ut, ad þeir krossfestu hañ, og hañ bar siñ Kross og gieck ut. Eñ i þvi þeir geingu og leiddu hañ ut, fundu þeir eiñ Mañ sem fram hiaa gieck af Cyrene, Simonem ad Nafne, hver ed komeñ var af Akre, Fodur þeirra Alexandri og Ruffi, hañ høndludu þeir og þreingdu hønum, ad hann bære hañs Kross, og løgdu Krosseñ uppa hañ, ad hañ bære hann epter JEsu.

ILla giørdu ad visu þeir blindu og hreckvisu Þrælar, sem þad saklausa Guds Lamb JEsum so hriggelega kvølldu, og herfelega utlieku, sem Historiann um̃gietur; Enn aungvu minne er þeirra Synd og Sviivirding; Aungvu bærelegre mun verda þeirra Hefnd og Fordæming, sem liggia i Syndunum an nockurs Guds Otta, og leika sier ydrunarlaust ad ymsum Løstum og Odigdum þvert a moote sinne Samvitsku, þvi þeir kross-

festa

festa sialfum sier Guds Son ad niju, og hann fyrer Skimp hallda, so sem heilagur Paulus ad Orde kvedur, Ebr. 6. Vijktu fraa, Saala mijn, vijktu fraa illum Selskap ogudlegra Manna, varastu þeirra illskufulla Breitne, so þu verder ecke hluttakande i þeirra obærelegum Plaagum, Openb. B. 18.

Pad er merkelegt, ad Simon, aasamt baadum sijnum Sonum, verdur i Historiunne aa Nafn nefndur, og hanns Minning er fræg ordenn medal Guds Barna, af þvi hann giorde (þott i fyrstu naudugur være) þad Myskunar Verk aa JEsu, ad hann bar med honum hañs þwnga Kross; Þañig blijfur Minning riettlaatra i Blessan, bæde hiaa Gude og Moñum, Ordsk. B. 10. Saa sem af kiærleiksfullu Hiarta siiner naudstoddum Myskun og Medaumkan, hann fær bæde fyrir sig og sijna ad uppskiera DRottenns naadarrijka Hiaalp, og fodurlega Blessan; Jaa, Gud mun frelsa hann aa þeirre vondu Tijd, Psalm. 41.

Pad hefur ecke skied af nockre ovissre Hendingu, helldur alviisre DRottens Raad-Stofun, ad utlendur Madur vard aa Veige fyrir Frelsaranum, og bar med honum þaa þwngu Krossens Byrde; Hvar med hid eilijfa Guds Raad hefur viliad giefa ad merkia, þad blessadur Naadar Avoxtur bloodugra JEsu Krossens Kvala skyllde til heyra ecke einasta Gydingum, helldur og eirneñ Heid-

ingium, sem voru framande og fiærlæger Jsraels Borgar Riette, Eph. 2. Og ad epter Guds str-anga Riettlæte skyllde Guds Rike, vegna Gyd-inganna Prioostsku, fra þeim takast, og af grun-lausre DRottenns Raad Heidingium giefast, Matth. 21.

O! minn liwfaste Lausnare, þu lijknarfulla Guds Lamb! þier er kunnugast hverju mijn Hia-rtans og Saalar Saar eptlega ysast og saarlega svijda sokum þinnar Reide yfer mijnum Synd-um. Æ! minn JEsu, þu sem leidst illum Prælum ad ysa og upprijfa þinar bloodugu Ben-iar med Kvala-saarre Tilfinningu; Virdstu bless-adur best ad mijkia og græda mijnar morgu og sto-oru Synda og Sorga Undir med þini naadarfullu Huggun, Fyrirboon og Forþienustu; Laat mig fa ad heyra Fognud og Glede, so ad þau Bein-enn gladvær verde, sem þu hefur sundur mared, Psalm. 51. Þessa þwngu Krossens Byrde lietst þu, DRottenn minn, leggia a þijnar blessudu Herdar, so þu fagurlega uppfillter þa Fyrirmind-an, er Jsaach bar sialfur Fornar-Videnn til hanns aasetta Offurs-Stadar, 1. Mos. B. 22. Og þañ veg hefur þu, O HErra! med þinne Ar-mædufullu Kross og Kvala Gaungu, frelsad mij-na Saal fra eilijfum Kvala Hrakninge, og opn-ad heñe beina Blessunar Braut giegnum allar Eymder inn til eilijfrar Sælu og Hvijldar. Mijn vegna hefur þu næsta þreittur orded under

þiñe

þinne þwngu Kroſs-Byrde; Siin þu mier DRottenn miñ Vægd og Hiaalp, þegar eg tek til ad mædaſt under þijns Kroſs · og minna Eymda-Oke. Mitt ſpillta Hollд er æred tregt, og miñ Vilie næſta veikur til ad ſeta þinn Kroſs Ferel, ſo ſem mier være, og eg ſeigenn villde; Æ kom þu mier veikum til Hiaalpar med þijnum Naadar Krapte; Þu fieckſt einn Hiaalpar Mann til ad lietta under þijna Byrde, O JEſu! laat mig alldrei Liknarlauſann þrela i minne Mædu og Mootlæte, vert þu ecke fiærre mier þegar Angiſtenn er naalæg; Þu ſem ert minn Styrkur, ſkunda þu mier til Hiaalpar, Pſalm. 22.

Ad ſiiduſtu, tak þier heir ut af gudrækelega Aminning, miin Saal, Ad þegar goodum Gude þocknaſt ad leggia ſinn Kroſs þier aa Herdar, enn Hollд og Blood vill med Mogle og Oþolennmæde bakſpirna aa moote þeſſum Broddunum, Poſt. G. 9. Laat þaa ſem þu ſiaaer ſiaalfann JEſum gaanga undann þier med ſinn Kroſs, ſem hann bar þier til Myſkunar, og giæt under eins Skylldu þinnar, ad bera þinn Kroſs aa epter, honum til Hliidnes og Þooknunar; Gack ſo med Þoleñmæde uti þiina Eymda Oruſtu, og haf alldrei þiin Saalar Augu af honum, ſem er Uppbyriare og Fullkomnare þinnar Trwar, Ebr. 12. Varaſtu med vondum Glæpum nockurn Næningia Kroſs ad leggia þier aa Herdar; Tak trwañ Vara aa

þiinn eigenn Embætte; Leitadu þier hiaa lijknarfullum Gude med audmiwkre Bæn æuarande Farsælldar, med alvarlegre Ydran fodurlegrar Fridþægingar, so þu meiger bera þinn Kroß, so sem þeß kroßsesta JEsu sannur Lærefveirn, og þurser ecke ad skamast þiin, helldur meiger med glødu Giede vegsama Gud i slijku Tilferle, 1. Pet. 4. O! miin Hiarta goode Lausnare JEsu! minnstu miin epter Myskunseme þinne, og virdstu med þinne lijfkroptugre Liikn og Lidsemd under miina Mædu Byrde ad lietta, og miina Daudans Kvøl bærelega ad giøra; Lat bæde mig og milna, samt alla þiina, vera geimda i þijnum fodurlegu Forsioonar og teiknada i þinum fogru Astar og Naadar Hondum, Amen! O JEsu! Amen.

## 31. Piislar Psalmi.

Predikun Christi fyrir Kvinunum.



ENN honum filgde epter mikell Fiollde Foolks og Kvena, hverla: ed grletu og hørmudu hann. Enn JEsus snereft til þeirra og sagde. Dier Dætur af Jerusalem: Graated ecke yfir mier, helldur graated yfir ydur siaalfum og Børnum ydar. Pvi siaaed! þeir Dagar munu koma, aa hveriuin þeir seigia: Sælar

eru

eru Obirlur, og þeir Kvider er ei hafa fædt, og þau Briooſt hver eige voru mylkt. Þaa munu þeir taka til ad ſeigia Fiöllunum: Hrinied yfir oſs; Og Hæiſunum: Hilied oſs!

Warla verdur of-ſögum af þvi ſagt, hverſu vollt og ſvipul ad er Veralldar Mannanna Wirding og Vinaitta, allt eins og veikur og ſundurbrotenn Reyr-Vondur, ſem ſvijkur og ſærir þann, ſem ſig vill vid hann ſtydia, Eſ. 36. Þad meigum vid, Saala mijn, ſiaa af Dæme JEſu Aſtvina og Læriſveina: Þeir hofdu ſkomm aadur fagnad hans Tilkomu med fogrum Gledi-Saung og æſkelegre Hiartans Kiæte, þegar hann aa Paalma-Sunudag innreid ſo ſem einn Konungur til Borgarennar Jeruſalem, Matth. 21. Enn faam Dogum ſijdar, hlutu þeir ad rekia hanns Kroſs-Ferel med graatande Taarum og beyſku Hiartans Angre, þegar þeirra Meiſtare og HErra var ſo ſem argaſte Jllrædis Madur, alſærdur og albloodugur, under þeirre ſmaanarlegu Kroſſens Byrde, wtleiddur af Jeruſalems Borgar Hlide. Hafe nu Verolldin med ſinne Blijdu vered ſo vollt og flaaraad vid ſinn Gud og HErra, ætla þu þaa ecke til þeſs, Saala mijn, ad hun vande þier betre Kvediurnar, ſaaraadum Þræle og veſolum Syndara; Þeim ſem hun bijdur hvad meſta Gledinnar Blijdu, er, þegar minnſt Vonum varer, hætt vid hinne meſtu Mootlætis

lætis Ástriidu. Varast þvi ad fe^ta Hiartad vid fæniitt Heimsins Glis og fallvallta Vinættu, gott er ad treysta uppa Drottenn, og forlæta sig ecke a Mennena, Psal. 118. Hallt þier þvi fast vid Drottenn, þvi hann er oruggt Verndar-Hlijf, og Offervinnanlegur Hiælpar-Skiolldur allra þeirra sem a hann vona, Psalm. 115.

Grææted ecke yfer mier, sagde giædskurijkur Jesus til Kvennanna; Ad viisu þecke eg miina stærstu Skylldu, ad wthella beyskum Harma-Tæárum vegna þinna bitru Piisla, Drottenn minn! Enn veit þo ad þvilijkur minn Harmur kann hverke til þinnar Diirdar nie minnar Velferdar ad þiena; Þvi hvad skal eg grææta yfir þijnum Piislum, sem eru mitt og allra syndugra Manna fegursta Gledi Efni, og eckert vitum vier oss annad til æskelegra Sæálar Heilla og Huggunar, 1. Cor. 2. Hvad skal mier ad harma þijnar Kvaler, sem mier til himneskrar Huggunar eru nu uppsvelgdar i eilijfann Diirdar Sigur, þar þu, Drottenn miñ, ert fra Angistenne burtnumenn, Es. 53. og inngeingenn i þijna guddoomlega Diird. Hitt ætte og mætte vera mitt hellsta Angurs Efne, ad eg hefe auked þier so stræangt Kvalanna Erfide med miinum Syndum, og giort þier so þwnga Mædu med mijnum Misgiordum, Es. 43. Eg hrædest og skielfest fyrer þvi, Drottenn minn! ad yfer mier mune vofa, og vera af þijnu stræanga Riettlæte aslyktud Obæreleg Hefnd og Reide, þar eg hef so lenge

inge ydkad Obætt Glæpanna Athæfe; Enn þad er aptur aa moot mijn eilijf Huggun og Harma-Boot, ad med þeirre grætlegu Kvol, sem þu, miñ JEsu, þolder, hefur þu utvegad mier brotlegum Vesæling, gledelegann Frid og fullkomna Kvittun allra minna Synda; Minne Sorgar-Klogun hefur þu snwed i Glede-Dans; Þu hefur miñ Hryggdar-Seck i sundurslited, og umgyrdt mig med Naad, Huggun og Hiaalpræde. DRotteñ Gud minn: ad eilijfu vil eg hier Packer giora, Psal. 30. O minn blijdaste Lausnare: sem ert minna Synda fullkomenn Boot og Forlijkun, 1. Joh. 2. Eg grætbæne þig, væg og mykuna mier vesolum Syndara; Laat eingann uppskiera Skadsemdarennar Giolld af illre Root minna Glæpa; Þijn Fodurleg Naad og Blessan fylge mier og miinum alla vora Lijfdaga, og leide oss ad sijdurstu i Naad og Fride inn i himneska Dijrd og Sælu, Amen.

## 32. Pijslar Pænki.

### Uñ Græna og Visnada Tried.

EF þeir giora þetta vid bloomgada Tried, hvad mun þa skie vid hid þurra?

Fagra Lærdooma og lijfkroftugar Huggunar Greiner meigum vid, Saala mijn, finna i þessum efterteektaverdu Lausnarans Ordum; Laatum ockur þeim ecke gleyma, helldur athugum og vardveitum

þau

þau med Gudrækne i goodu og sidsomu Hiarta, ockur til christelegrar Uppvakningar og æskelegra Blessunar Nota. Pad græna Tried er sialfsur Guds Eingietenn Sonur, og einaste Heimsins Lausnare JEsus, hver ed i sine dar samlegre Holldgan upprann einn Vondur af Kyne Jesse, og einn Kvistur af hanns Root, Es. 11. fagurbloomgadur af Biessan, Naad og Sannleika, Joh. 1. Þesse himneska Lijfsins Eyk wtbreidde a sijnum sijnilegrar Hiervistar-Dogum sætt-ilmande Lyknar, Lauf-Blod sinna guddoomlegu Krapta-Verka, ollum þeim, er þyggia villdu og kunnu til mykunar-rijkra Meina-Boota; Hann gieck um krijng, giorde gott og grædde alla þaa, sem af Dioflinum voru underþryckter, Post. Gb. 10. Hañ giorde allt vel, Marc. 7. Enn eckert illa; Af hverium Kviste þessarar himnesku Lijfs-Eykar draup Hunang Saluhialplegra Kienninga og astwdlegrar Umgeingne; Eingann harmþrwngenn Vesæling villde hann lijknarlausann fraa sier reka, Joh. 6. Alla sannydrande Vesælinga og Syndara giorde hañ i sitt Naadar-Skiool og Forsvar ad taka, Luc. 15. Þetta blessada græna Tried bloomgadest ad Alldre, Vitsku og Naad bæde fyrer Gude og Monnum, Luc. 2. Himen og Jord glodduft yfer þvi i JEsu Fædingu; Saa himneske Faderenn auglijste sijna hiartanlega Velþocknan a þvi i JEsu Skijrn, Matth. 3. Hier maatte hvervetna lijta ylmande og bloomlega Blessunar Avexte, Avexte Riettlætis, Helgunar og eilijf-

eilijfrar Endurlausnar, 1. Cor. 1. Avexte sonarlegrar Hlijdne og hoogværustu Þolinnmæde allt til Krossens Dauda, Phil. 2. Avexte Fullkomens Heilagleika, og heilags Fullkomlegleika, sem var og er øllum Guds Vesælingum Ordsøk til eilijfrar Saaluhiaalpar, Ebr. 5.

Enn þad maa maklega þykia hinum stærstu Undrum sæta, ad þetta Edla Tried so fagurt og bloomlegt sem þad var, maatte þo ecke vera aangurlaust aa Jordunne; Guds Reide-Stormur geysade yfer þad: Daudans og Kvalanna Ofbod hriste þad, og Belials Lææker dundu þar yfer aa allar Sijdur: Ef þu villt adspyria, mijn Saal, hvad þvi olläd hafe, ad saa himneske Faderen liet sinn Hiartans Son saklausann lijda so herfilegar Pijsler? Þaa skalltu vita, ad allt Holld aa Jordunne hafde fordiarfad sijna Vegu; Þad var orded visnad Trie og uppþornud Eyk, sem eingann goodann Avoxt færde, helldur swr Vijn-Ber Synda og Raangslætinga, Es. 5. Allur Heimurenn var fallenn fyrer Gude, eingenn var saa er gott giorde, og ecke einn, Rom. 3. og aatte þvi þetta rotna og Avaxtarlausa Trie, epter Guds straanga Riettlæte, ad upphoggvast og i eilijfann Kvala Elld ad kastast, Matth. 3. Þetta aumkade hin Ometannlega DRottens Raad, og so hin visnada Eyk, sem var vesællt Mañkyn; mætti enn þaa standa Oupprætt under gudlegre Giædsku og Þolinnmæde, þa er Guds Sonur Jesus i Holldenu auglijstur, og aa þvi sama kvalenn og krossfestur

ur, wthellande so sijnu allrahelgasta Bloode, þeirre visnudu Eyk til blessadrar Bloomgunar og eilijfrar Endurlausnar; Hann liet sig saklausann pijna, so þad seka Mannkyn mætte Frid og Myskun hliota; Þad græna Tried hrakteſt og hristest i straungum Storme Kvala og Hormunga, so h in visnada Eyk mætte bloomgast og frioofgast i himnesku Hlijvidre blijdrar Guds Nadar og Huggunar.

So stoort Krossins og Eymdanna Kvalræde hlaut Christur Jesus ad lijda Heimenum til Myskunar ædur hann inngeinge i sijna Dijrd. Giæt nu ad Hogum þijnum, i Guds Nafne, mijn Saal: Ef þeir giora þetta vid bloomgada Tried, hvad mun þa skie vid þad þurra? Hafe Stormur Reidennar geisad yfer þad græna Tried, æ! hversu heitt mun þa Elldur Kvalanna brenna yfer þvi visnada? Hafe Fodursins Reide orded so þwng hañs hiartkiærum Syne, hversu Obærelег mun hun þa verda illum Þræle? O! vakna þu, Saal mijn, af þijnum Synda og Hyrduleysis Svefne; Vert ecki uggalaus, þoo þijnar Illgiorder sieu enn þa ecke straffadar, so þu þar fyrer framar meir vilier andvaralaust Synder driigia, þvi Gud kann so snarlega ad verda reidur, sem hann er nædugur, og hanns Reide yfer Ogndlegum lætur alldrei af, Syr. 5. Drag þvi ecke undann, ad sni a þier til DRottens; Hafe Guds Ofreitt Polismæde og Langlundar Gied hijngad til sparad þig Ohegnda vegna Synda þinna, þa sia vel til, ad þu med audmiwkie

wkre Lofgiord', Aſt og Hliidne, halldor Bidlund DRottens fyrer þijna Saaluhiaalp, 2. Pet. 3. og fæter þier hana i Nyt til æſkilegra Bleſſunar Nota. Eg er ad viiſu viſnud og vokvalaus Eyk, alþakenn med Sorg, Synd og Raanglæte; O! þu græna Liiſſins Trie, minn goode JEſu; geym þu mig under fogrum Lauf-Blødum þinnar Vægdar og Myſkunſeme! Pad er vonlegt, ad eg argur Præll meige morg Reſſingar og Mootlætis Hogg lijda, og ecke mune eg faa annars, enn i giegnum margar Hrellingar inn ad gaanga i Guds Dijrdar-Rijke, Poſt. Gb. 14. AE! lofadu mier Synda-þiaadum Sorgmæddum Veſælinge, Lauſnarenn goode! ad drepa mijnum veika Trwar-Staf aa flootande Hwnaang þinnar guddoomlegu Naadar og Huggunar, ſem mijnum doþru Saalar Augum upplwke, mijna þreittu Saalar-Krapta hreſſe, laangtum beturenn Jonathæ jookſt fordum lijkamleg Orka af þvi jardneſka Hunaange, 1. Sam. 14. Þegar velforþientar Prauter og Hormungar mæda mitt Hiarta, dreyp þaa aa Saalu mijna, DRottenn minn, med himneſkum Sætleiks Vokva þinnar Myſkunar; Lijt i Medaumkan aa miina Eymd, og forlaat mier naadarſamlega allar mijnar Synder, i JEſu Nafne, Amen.

## 33. Pijſlar Paanke.

### Um Chriſti Kroſsfeſting.

Og

OG þeir leiddu hañ wt i þañ Stad, sem kallast a Ebresku Golgatha, hvad ed þijdest Hofudskelia=Stadur. Og þeir gafu honum ad drecka i Vijne Myrru og Edik Galle blandad, og hañ took þad eige til sijn, þvi þa hañ smackade þad, villde hañ ecke drecka. Og sem þeir komu i þañ Stad, sem kalladest Hofudskelia=Stadur, þar krossfestu þeir hañ, og med honum Tvo adra Ræningia, Eiñ til hægre Handar, og Añañ til þeirrar vinstre, eñ JEsum i Mided; Pa vard sw Ritning uppfylld, sem seger: Med Illvirkium er hañ reiknadur.

MJDdæañleg hefur vered og er Ast og Elska þijns blessada Endurlausnara JEsu, mijn Saal, ad hann leid hinum orgu Prælum, ad bera þañ bitra og banvæna Dryck ad sijnum ormædda og þyrsta Munne i Kvolinne, og þad til þess, ad þu mætter i ollum þijnum Angistar og Mædu Þorsta, fa ad uppausa ylmsætt Svolunar Vijn af lifande Uppsprettu hañs lyknarfullu Huggunar hier i Naudinne, og drecka sijdann med ollum Utvolldum af himneskum Vatns=Straumum eilijfrar Sælu i Dijrdenne, Opb.B. 7. Packa þu og þigg, mijn

Saal

Saal, þessa Onietannlegu JEsu Millde med audmiwku Astar Packlæte, og giæt aptur at:noot þiñar Skylldu med alvarlegre Gudrækne, ad þar sem þiñ Saaluhiaalpare hefur smackad beyskann Dryck þier til sætrar Svolunar, þaa syll alldrei framar þeirra Flock, sem bioda honum enn nu i Dag beiska Illskunnar Adryckiu til Stigdar og Möodgunar; Enn þad giora aller þeir, sem gabba sinn Gud og DRottenn med trwarlausre Ydran, elskulausum Præls-Otta og eintoomis Hræsne. Aller þeir, sem aavarpa sinn Naaunga, sem er JEsu andlegur Limur, med svikafullu Underferle, False og Flaaræde; Soddann beyski Bolvunar Vijne vill blessadur JEsus i Reide fraa sier hrinda, og þo þad þyke morgum fagurt at ad lijta, þaa stijngur þad sem Nadra og bijtur sem Hoggormur alla þaa, sem ydrunarlaust med þad hondla, Ordsk. B. 23. Pad er mier skylldt til Æru og Packa ad taka, DRottinn minn JEsu! þegar þier þocknast ad drecka mier til af þijnum Kross-Bikar, hvort beyskur vera kunne; Hiartans giarnann skal eg þann heilsusamlega Kaleik af þinne Myskunar Hende þolinmoodlega þyggia, og þitt Naadar Nafn þacklatlega vegsama, Ps. 116. Pu varst med ramre Beiskiu i þijnum saara Pijnu-Þorsta dryckiadur, æ! gief ad eg Syndum-þiaadur og þreittur Vesælingur i allre minne Mædu fare ad niota Svolunar og Saalar Hressingar, af þijnum sætasta Naadar Brunne, saa ed flioote mijnu Hiarta med ylman-

de Endurnæringu allt til Þess eilijfa Lijfsins, Joh. 4. Lаat Þann Galle-blandada Bikar beyskrar-Heiptar og Lastyrda vera laangt fraa mier; Wirdstu alla mijna Synda og Sorga Reñu ad bæta og lina med Sætleik Þinnar Naadar og Huggunar, so eg i Lijfe og Dauda meige siaa og smacka, hverſu sætur og liwsur Þu DRottenn ert, Ps. 34.

Pad var hormulegt Olucku Tilferle, Þegar Adam, epter Þad hann hafde broted aa moote Bodorde DRottens, stood alsnakenn vid Skilnings-Tried i Eden Aldengarde, med harmande Hiárta, nidurlwtu Andlite og nagande Samvitsku, 1. Mos. B. 3. Og med Þvi hann hafde illa giort, vogade hann ecke i Augsioon ad koma, helldur falde sig medal Triaanna; Þess aattu aller hanns Nidiar ad giallda, til aumkunarlegs Dauda-Straffs og eilijfrar Fyrerdæmingar, Rom. 5. Pad var aptur aa moot hid ædsta Glede og Naadar Teikn og Tilefne, Þegar Sonur Guds og Saaluhiaalpare allra Manna JEsus Christur hieck albloodugur, alsnakenn og alsærdur aa Krossinum aa Golgatha Fialle, bæde hid ytra og innra fullur af saarre Kvol, Angist og Kraankleika, Es. 53. og med Þvi hañ hafde allt vel giort, og var Þaa aa ollum hid besta og mesta Myskunar-Verk ad giora, villde hann bless adur fyrer eingum felast, helldur opinnberlega pijnast; Þess meiga aller Adams Nidiar niooта til æskeleguſtu Synda-Boota og Saaluhiaalpar; Lijka so sem aller doou i Adams fordæmañlegu Falli, so

so verda aller lijfgader fyrer JEsu blessada Pijnu, 1. Cor. 15. O mitin elskulegaste Endurlausnare! Eg vesæll Syndare mæne mijnum Hiartans Augum a Þijnar helgustu Hendur, sem vegna minna Misgiordá og mier til Mykunar, voru a Krossenn wtþandar, og med hvossum Jarn Goddum giegnum stwngnar; Mijnar Hendur eru fullar af Bloode Ranglætis og Bolvunar, Es. 1. Af Þiña Handa Saarum hafa Bloddroparner runed mi, er til ætkelegrar Fridþægingar og ævarande Farsælldar; Þu lietst, O Drottenn minn, Þijnar Hendur so fast a Krossenn negla, ad eingeñ skyllde mijna Sorgmædda Sæl wr Þijnum Mykunar Hondum slita, Joh. 10. Mijner saurugu Fætur eru allt um̃ Of-swser og slieoter ad ana fram̃ a vondum Glæpa Vege, sem leider til Glotunar.; Þess vegna voru Þijner heilogu Fætur, minn HErra, so saarlega a Krossenum kvalder mier til Lykniar og Mykunar; Lofadur siert Þu Þar fyrer, Lausnare minn, ad eilijfu, og lat oll mijn Foot-Spor, hvar sem eg er og fer, greidast og stioornast fram̃ a Veg Fridar og Farsælldar hier tijmannlega og sijdar eilijflega, Luc. 1. Allt Þitt helgasta Holld var saarlega kvaled mier til Saaluhiaalplegrar Lækningar; Þess bid eg og Oska af audmiwku Hiarta, ad mitt synduga Holld mætte i Þijnum Krapte krossfestast fraa vondum Gyrndum og Glæpum Þier til Dijrdar, enn mier til gudrækilegrar Leidriettingar, Gal. 2. so Þad eg lifi i Holldenu, Þad lifi eg i Trw, Elsku

og Hlijdne Þinne. Þu hæleitaste Himnaña Drottenn, sem alldrei framder nockra Synd eda Saurgan, 1. Pet. 2. varst reiknadur med Illvirkium, so eg brotleg Skiepna mætte komast i Tolu Þinna blessadra Barna, og verda med Þijnum helgande Bloods-Krapte teiknadur; Nu er eg ordiñ æsamt þeim og þau med mier oll samann eitt i þier, minn elskulegaste JEsu, Gal. 3. Þad skal vera mitt ædsta Ynde, æ so leinge mijnar Eymda-Stunder vara, ad hafa þijna bitru Krossens Pijnu eitt oped Minningar-Teikn æ jafnann fyrer miinum Hugskots Augum, og andvarpa med Hiarta og Muñe i Himininn til þijn, segiande: DRottens JEsu sara Kvøl, sem hann leid og þolde minna vegna æ Krossenum, sætte og forlijke mig synduga Skiepnu vid sïalfann eilijfann og almættugann Gud i Himnenum! hun siae Vægd og Boot æ mijnum Syndum! hun veite Linun og Lietter mijnum Syndum! hun giefe mier æskelegs Fridar og Farsælldar ad niota hier i Heime, og unne mier ad sijdurstu eilijfa Dijrd og Glede ad hliota i Himnarijke: J þeirre Von vil eg gladur lifa og hvad gladastur deya i Nafne og Nædar Krapte þess Þrij-Eina tifanda og lyknarfulla Guds Fodurs, Sonar og Anda heilags, hverium ad sie Dijrd, Heidur og Æra fræ Eilijfd til Eilijfdar, Amen.

## 34. Pijslar Pænke.

### Fyrsta Ord Christi æ Krossinum.

DRR JEsus sagde: FAder! Fyrergief PEim, PVad PEir VIta EJge HVad PEir GJora.

PEtta Fyrsta Lijfsins Ord Frelsarans JEsu Christi skulum vid, Saala mijn, gudrækelega athuga og yfervegá. 1. Ockur til alvarlegrar Ydrunar Aminningar. Hvad kunne hinn Riettlaate Gud til Hefndar og Reide yfer Ogudlegum Skaa-kum framar ad hræra, enn ad horfa aa sinn Eingietinn Hiartans Son, i hverium i sa himneske Faderenn hafde alla sijna Velþocknan, Matth. 3. so herfilega wtleikeñ af þeirra Volldum? Þar hañ blessadur hieck so sem ein Bølvan midt aa mille Himens og Jardar med sundurflakande Saarum, fossande Blooddropum og fliootande Taarum, breidande so sem hlijded Barn sinn blessada Fadm aa moote Fødursins Auglite. Æ! ecke er þad ad undra, þoott þeir leide yfer sig snoggva Fordæming, sem gaanga i Footspor þeirra forherdtu Gydinga, i þvi ad afneita med yferbootarlausu Glæpaña Athæfe DRottne þeim, sem þaa hefur so diiru Verdeendurkeypt, 2. Pet. 1. sem so bitrar Kvaler hefur lided vegna þeirra Synda, og þeim til Saaluhiaalpar. Varastu þvi, i Guds Nafne, Saala min, med forstockudu og forherdtu Ydrunarleyse, ad leida yfer þig DRottens Hefnd og Reide; Laat Naad Guds, og hañs eingietens Sonar saaru Kvaler typta þig til ad afneyta ollu Ogudlegu Athæfe,

2. Skulum vid, Saala miin, athuga þetta bl=essada JEsu Ord ockur til gudrækilegs Lærdooms og Epterbreitingar. Brunnur Myskunarennar blessadur JEsus aarnade Fridar og Nadar siinum Ovinum; Hann beidde um Lykn og Fyrergiefning handa þeim, sem hann kvolldu; Um Lykn og Ufsgiof fyrer þaa, sem hann i Daudann seldu; Hann villde ad þeir, sem med hinu argasta Grimdar Ædi stoodu ad hanns Kvol og Krossfestingu, skylldu og so nioota hins ækelegasta Nadar Avaxtar af hanns Fullnægiugiord og Forþienustu. O! miin Saal, lær þad af þessu addaanlegasta Hoogværdar-Dæme þiins aastwdlegasta Endurlausnara, ad stilla gudrækilega þitt Heiptar-Gied, þegar þu verdur fyrer Araasum og Fiandskap illra Manna; Varastu þa med vondu Bloote og heiptugum Formælingum illt aa moote illu ad giallda, helldur gief med christelegre Hoogværd og Umburdarlynde Rwm Reide Guds, hanns er Hefndenn, hann mun endurgiallda, Rom. 12. Hugleid, ad þoott þu kunner saklaus ad vera vid þann, sem þier aa moote giorer, þaa mattu þoo med Blygdun vita og jaata þig sekann fyrer almaattugum Gude, og aa hann þaa friaalst ad brwka, jafnvel vonda Meñ, fyrer Vønd og Hriis, ad hirta þig med, enn þu ert skylldugur til, med Audmykt og Þolennmæde, ad taka þeirre DRottens Typtan; Vit fyrer viist, ad þoott þu med illum Obænum svaler þijnu Heyptar

Giede at Fiandmanne þijnum, þat avinnur þu eckert med þvi nema Jllt eitt: Þu stygger Gud, footrredur blessad Bod og Dæme þijns Frelsara eikur siaalfur þier Oþolinnmæde, og egner enn þa meir illt Skap Ovinar þijns so beggia yckar sijdara, verdur þa verra hinu fyrra, Luc. 11. O! þu þolinnmooda og hoogværa Guds Lamb, sem uppaukst þijnum blessada Munne at Krossenum, ecke til Formælingar, helldur til Fridþægingar og Myskunar yfer þeim, er þig saklausann kvoldu; Stioorna þu Huga og Hiarta mijnu, O Rottenn minn, so eg med sannre og hier þægelegre Ast og Hlijdne eftirfylge þijnum fogru Kiærleikans og Þolinnmædennar Footsporum, 1. Pet. 2. Unn þeim, sem mier Oforþientann Ovinskap sijna, med hiartannlegre Ydran fraa sinne Jllsku ad snwa, so þeir mege Naad og Kvittun fyrer þijnu Myskunar Auglite finna. Fijsn Holldsins og Hrecker Diofulsins villa so opt Siooner fyrer mier vesælum Syndara, ad eg veit ei nie adgiæte, þoott eg margt illt og Ogudlegt adhafest; Þvi hver kann ad skilia hvad opt hañ sellur? Fyrergief þu mier, Frelsare minn, alla miina illa Breitne bæde vitannlega og Ovitannlega; Og þa eg saker Breyskleika miins og Blindne, fell og hrasa, virdstu þa, O! JEsu, best fyrer mier ad bidia, so ad þiin Myskun og miin Trw þrotne ecke. Eg maa maklega jaata og med kienna med Blygdun miins Andlitis, ad eg med Jllgiordum miinum hefe vered so sem samtaka Þrælum þeim, sem þioon-

udu ad þinne Kvol og Krossfestingu, æ! veit mier þa, Lausnare minn, ad eg verde lijka hluttakande i þinne Fyrerboon og Fridþægingu; Bid þu þinn Fodur ad fyrergiefa og myskuna mier, og kasta öllum mijnum Illgiordum i Hassins Diwp, so þeirra Minning kome ecke upp ad eilijfu, Mich. 7.

3. Athugum vid, Saala mijn, þetta blessada JEsu Ord ockur til Lijfkroptugrar Glede og Huggunar. Fyrst Frelsaren JEsus bad Fridar fyrir þa er giordu honum hina mestu Smaan, so sem hanns orgüstu Oviner, þa mun hañ blessadur efalaust unna ockur sinnar Guddoomlegu Naadar og Myskunar, sem erum Guds elskuleg Born og Brædur JEsu Christi i hanns Nafne riettlaater og vid Gud forlijkader, Rom. 5. Hafe JEsus fridþægt fyrir þa sem utskwfudu honum fraa sier i Krossens Kvol og Dauda, þa mun hann ecke fordæma ockur, sem til Hiaalprædes og Huggunar vilium hiartans feigenn fadma hann ad ockur, og alldrei sleppa honum, þar til hann blessar ockur med omælanlegre Þijngd eilijfrar Himnanna Sælu. O! minn giædskurijke Gud og himneske Hiartans Fader, þegar eg, vesæll Syndare verd staddur midt a mille Tijmans og Eilijfdarennar i Daudanum, fyrirgiefdu mier þaa DRottenn minn og forlaattu, væg mier þa og myskuna i Nafne þijns einka Sonar JEsu, sem med utbreidum Blood Fadme og graatande Augum forlijkade fyrir mig a Krossenum; Laat hanns bitru

Pi, nu

Pijnu ſkijna þaa fyrir þijnum Naadar Augum mier til foͤdurlegrar Myſkunar! Laat hana liooma fyrir mijnum Saalar Augum mier til Lijfkroſtugrar Huggunar, Amen.

## 35. Piiſlar Paanki.

Um̃ Yfirſkriſtena aa Kroſsenum.



Pilatus ſkrifade þaa eina Yfirſkript, og ſette hana upp yfer Kroſsen̄, upp yfir hanns Hoͤfde feſtu þeir hanns Dauda Soͤk. Enn Yfirſkripten̄ og hvoͤr Soͤk honum var giefen̄, var ritud yfer honum med Griſkum, Latinſkum og Ebreſkum Book-Stoͤfum: Þeſſe er JEſus af Nazareth KOnungur GYdinga; Þeſſa Yfirſkript laaſu marger af Gydingum, þvi ſaa Stadur var nærre Borgen̄e, þar JEſus var kroſsfeſtur: Þaa ſoͤgdu þeir ædſtu Preſtar Gydinga vid Pilatum: Skrifa þu eige Konungur Gydinga, helldur þad han̄ hafe ſagt: Eg em Konungur Gydinga: Pilatus ſvarade: Hvad eg ſkrifade, þad hefe eg ſkrifad.

NAEſta ypparlegann og þier, mijn Saal, gledelegann Aru Titel fieck þinn DRottenn og

Lausnare, þegar hann hieck a Kroßenum, ein Fórn og Forliikun fyrir þijnar og allar Veralldarennar Synder, 1. Joh. 2. Med øllum Riette var yfir hanns bleßada Hofde teiknad þad guddoomlega og gledelega Nafned JEsus, þvi hier auglysnde hinn trwe Guds Pioon sig med Verke og Sannleika ad vera alls Heimsins Naadarfullann Naudhiaalpara, og einka Endurlausnara fraa Synd, Dauda, Diøfle og Helvijte, hver ed af einskiærre Elsku og Ovidjafnanlegre Millde lagde Lijf og Blood sitt bleßad i Sølurnar, til ad frelsa oß fordæmda Fanga ur þeirre Grisiunne hvar ecke ert Vatn er inne, Sach. 9. Enn afreka oß aptur Lijf, Riettlæte, Endurlausn og eilijfa Saaluhiaalp; So þar er nu ecke i nockrum ødrum Naad edur Heilsu-Giøf ad finna, eñ i hinum kroßfesta og bleßada JEsu, og eckert er þar añad Nafn under Himnenum oß Monnunum giefed til Hiaalpræde og Myskunar, utann alleina hañs Nafn, sem heiter JEsus, Post. G. 4.

Nazareus maatte hann med øllum Riette nefnast: þad utleggst, Gude helgadur og fraa skilenn; Þvi þetta bleßada Lambed Guds, var af sijnum himneskum Fodur helgad og i Heimenn sendt Mannkynenu til Endurlausnar, Joh. 10. Hann var fraaskilenn Syndurunum, Ebr. 7. Fyrir Gude og Monnum alldeiles flecklaus og fullkomlega heilagur, laatande þad vera siñ Mat og Dryck med adddaanlegre Hlijdne og elskufullre Hollustu

ad

ad giøra siins himneska Fødurs Nꜳdar Vilia, Joh. 4. Honum til Dijrdar, enn Heimenum til Mysſkunar.

Konungur Gydinga var hann og er ad eillifu, hverium DRottenn Gud gaf Stool hanns Fødurs Davids, ſꜳ er vera mun i guddoomlegre Hartign drottnande Kongur yfir Hwse Jacobs ad eilijfu, og hanns Rijkis mun eingenn Ender verda Luc. 1.. Hañ er hꜳleit Dijrdar Vegsemd Israels og himneſkt Lijſſins Lioos allra Manna, Luc. 2. af eilijfre Guds Nꜳd i Ondverdu heitenn, og i Uppfyllingu Tijmans utſendur, Gal. 4. til ad fridstilla Guds Reide og burttaka Bølvanena, eñ afreka og utbijta øllum ſyndugum Sꜳlum tijmanlegre, andlegre og eilijfre Bleſſan. Þeſſe er JEſus af Nazareth Konungur Gydinga, uppꜳ hvers nꜳdarrijka Frelſun og Endurlauſn eg veſꜳll Syndare vil mig efunarlauſt reida; Hvers fegurſtu Heilagleikans og Hlijdneñar Sporum eg vil Hiartans feigeñ bera mig ad filgia; Under hvers konunglegu Nꜳdar Vallde eg gyrneſt med hlijdugu Hiarta ad lifa, og vona med glødu Giede ad deya.

Þennañ veglega Virdingar Titel hlutu þeir hreckviiſu Gydingar, jafnvel nauduger, ad lꜳta ſo bwenn ſtanda, og feingu ecke, þoott feigner villdu, ad breita honum, Frelſaranum til Vanſa Þannenn ſetur DRottenn viſſañ Skamt og Tak-

mark Illsku og Hreckviise vondra Manna; Þær stolltu Bilgiurnar hlioota ad læcka sig, þegar Gud vill ecke leifa þeim leingra ad geisa, Job. 38. Neidum ockur þvi, Saala mijn, uppa naadarrijka DRottens Hiaalp og Hiaastod i ollum æliggiande Naudsynium; Vonum uppa hanns Magt og Myskunseme i sierhveriu Andstreime, verum ohrædd um̃ ockur under hanns Hiaalpar Vængium, hvada Mein munu þaa Mennerner megna ockur ad giora? Psalm. 56.

Pad er merkelegt, ad ecke i einu Tungumaale, helldur i þremur, var þesse Yfirskript sett yfir Jesu Hofud; Hvar med alvijs Guds Raadstofun hefur giefed ad merkia, ad su hiartgroona Elska, sem JEsus siinde, su himneska Naad sem hann afrekade med sinne Krossens Kvol, skyllde ollum Monnum, Folke og Tungu Maalum auglioos verda, Tit. 2. Til Huggunar, Hiaalpræde og Myskunar, ad hvar hellst sem Syndenn yfirgnæfde, þar skyllde Naadenn, hiaa ollum þeim sem riettelega þiggia villdu, miklu framar yfirgnæfa i Christo JEsu, Rom. 5. Þvi skulu allar Tungur, medal allra Þiooda med audmiwkre Astar Lofgiord og Elsku Lotningu vidurkienna, vegsama og vijdfrægia, ad þu, DRottenn min̄ JEsu, ert hinn eingietne Guds Sonur, og alls Heimsins Endurlausnare, sem hefur giefed sitt Lijf til Endurlausnar fyrir alla 1. Tim. 2. Æ! opna þu DRottenn miiner Var-

er, so mitt Tungu Mæl, ad samstemande auðmiwkre Hiartans Alvøru, kungiore þitt Lof, og utbreide þitt blessada Krossens Orð þinu heilaga Nafne til ædstu Vegsemdar, enn mier og ødrum Guds Børnum til Sæilar Yndes og æskelegra Blessunar Nota. Yfir miinu Høfde stood mootstædeleg Løgmaalsins Hand-Skript, Col. 2. sem vegna Synda minna lijser mig sekann eilijfrar Fyrirdæmingar; Yfir þijnu Høfde, miinn JEsu! var ritud gledeleg Yfirskript, sem berlega vottar, ad þu hefur mijna Synda Sok kvittad, mijna Sæilar Neyd læknad, mijna Bølvan burttekeð, enn Blessan, Lijf og Riettlæte mier afrekað. Þitt Nædar Nafn O! JEsu! þijn guddoomleg Kongs Tign O HErra! vijdfrægest heidrest og lofest aa Himne og Jordu, Amen.

# 36. Pijslar Pænki.

Um Skiptenn aa Christi Klædum.



Em Strijds-Mennerner høfdu krossfest Christum, tooku þeir hanns Klædnad, og gierdu aa hønum fiegra Hluta Skipte, sierhverium Strijds-Mañe eirn Hlut, og vorpudu þar um Hlut-Kiesle hvør hañ skyllde hafa, og þar med Kirtlenn: Enn Kirtilleñ var ei ge saumadur,

helldur

helldur fraa ofann verdu allur prieonadur. Þaa toludu þeir sijn aa mille; Skiptum vær þonum ei i sundur, hlutunst helldur um̃, hvørs hañ skal vera; So ad Ritningeñ uppfylldest, hvad sagt er fyrir Spaamañeñ, er seiger: Þeir skiptu med sier Klædum mijnum, og aa minn Kyrtel þaa løgdu þeir Hlut-Kieste; Og þetta giørdu Strijds-Meñerner, og Foolked stood og horfde aa.

Allungvar Jardneskar Jurter eda Plaastrar megna so kroptuglega ad græda Lijkamans Meinsemder, so sem̃ þad blessada JEsu Krossens Ord daasamlega læknar miiker og græder svijdande Synda Under og Samvitsku Kaun allra saññydrande Guds Vesælinga; Þvi þijngra sem̃ var JEsu Straff, þess fullkomnare er vor Fridþægíng; Þvi beiskare hanns Hrigd, þess sætare vor Hugsvølun; Þvi boolgnare hanns Beniar, þess lijfkroptugre vor Lækning; Hegningenn laa aa þonum so ad vier hefdum Fridenn, og fyrir hanns Under verdum vier heilbrygder, Es. 53. Þetta sæk þu miin Saal, med Glede ad sia og sanna af þessare Grein þijns Lausnara Pijslar Sogu, hvar af vid skulum athuga.

1. Ad allsnakenn hieck vor Frelsáre aa Krossenum, hanns svijdande Saar bloſtu fyrir allra Sioon-

Sioonum, so bæde vid og aller ydrande Syndarar mættum þar inne finna oruggt Naadar Athvarf og lyknarfulla Lækning allra Meina ; Hanns fossande Blood Straumar sauſt fyrir allra Sioonum, til merkes þarum, ad ollum Naad-þyrſtum og þurfande Besælingum være þar af uppsprottenn hin ſætaſta Svala Lind, og frij-openn Naadar-Brunur moote ollum þeirra Syndum og Saurugleika, Sach. 13. JEſüs bar opennbera Smaan ollum til ædſtu Vegſemdar; Hann leid opennberar Kvaler ollum til eilijfrar Myſkunar; Hanns bleſſada Nafn ſie loſad um Alldur og ad eilijfu.

2. Merk þu hier, miin Saal, ad ſyrir Klædenn Chriſti, ſem Strijds-Mennerner med ſier ſkiptu, maa maklega merkiaſt chriſteleg Kyrkia Guds hier i Heime, ſem ecke er bundenn vid nockurn viſſann ſtad, helldur heſur hun ſkipt ſier og utdreiſt um allar fioorar Atter Veralldar, hveria hann ſiaalfur, ſem er hennar Hoſud og HErra, Eph. 5. virdeſt i hreinnre Trw og Heilſuſamlegum Lærdoome ad vardveita og i Bleſſan bloomgaſt laata allt til Heimſins Enda. Lijfkyrtle Lauſnarans liike eg vid hanns heilagt og bleſſad Lijfſins Ord, hveriu eingenn holldlegur Skilningur ed-ur maa i ſundur ſkipta, þvi hann ſkiniar ecke þad ſem Guds Anda er, helldur er þad honum ein Heimſka, og hann fær þad ecke þeckt, 1. Cor. 2.

Brwka

Brwka þu þennañ blessada JEsu Lijf Kyrtel; Saala mijn, og vef honum sem optast um þig i Otta DRottens og med Adstod hanns heilaga Anda; Vertu bæde adgiætenn Ordsins Heyrare og lijka gudrækenn Giorningsins Giorare, Jac. 1. Iklædst DRottne JEsu Christo, og laat ecke epter Holldenu sijnar Gyrnder ad ræfia, Rom. 13.

3. Er vel merkiande, mijn Saal, ad fatækur fæddest Lausnarenn i Heimenn, vafenn i liitilmootlegum Reifum, og lagdur nidur i audvirdelega Jotu, Luc. 2. Fatækur umgieckst hann eirnenn i Heimenum, hafande ecke þad, hvar ad hann kynne Hofde sijnu adhalla, Matth. 8. Fatækur andadest hañ ad sijdurstu ur Heiminum, og liet eihga jardnesfa Mune epter sig, nema alleinasta sijn Klæde, sem hañs blessada Mooder fieck þo ecke ad hallda, helldur hrissudu iller Skaalkar þau under sitt Walld. Lær hier af, christenn Madur, ad þoott þier vilie Rijkdoomur til, þa fest ecke Hiarta þitt þar vid, Psal. 62. Hugleid ad medann þu lifer, hefur þu eckert þar af, nema þijna daglega Naudþurft, og þegar Menn deya i burtu fra þessu ollu samann, verdur opt margur Oskapa-Arfenn ad efterlaatnu Gootze, og lender kannskie þar sem þeir sijst villdu; Vertu þvi gudhræddur, og laat þier þinn deildann Verd nægia, 1. Tim. 6. þvi þad er sa beste Groode; og þad blessunarlegasta Erfda-Gotz.

4. Sier þu hier, Saala mijn, hra delega H ipt

og Hardydge Striidsmannanna, þeir lietu sier ecki nægia, ad pijna DRottens helgasta Holld hid hörmulegasta, helldur hripsudu þeir þar a ofann til sijn hanns Klæde; Eingu betre eru þeir, sem enn nu i Dag fesletta og aɑsælast volada JEsu Limei siñe Hondlan; Þad sem þeim er giort vill Jesus a sijdarsta Dege reikna, ad vid sig giordt verid hafe, Matth. 25. Varast þvi Aumingiann ad aɑsælast, og vit syrer vijst, ad DRottenn er sa, sem þess mun hefna, 1. Thess. 4.

5) Horfe eg ad sijdurstu mijnum Hiartans Augum uppa þig, minn hæblessade Lausnare JEsu! So sem þu hiecks alsnakenn a Krossenum, Einn Gud og einn Medalgaangare milli Guds og Maña, 1. Tim. 2. þu sem mig glatadann Vesæling hefur so heitt elskad, og þig sialfann wtgiefed Gude til Sætleiks Ylms og fullkomens Fridþægingar-Offurs, enn minni Saalu til Frelsis, Fagnadar, og eilijfrar Endurlausnar. Med þijnum heilaga Nakleika hefur þu bætt og burttekid Blygdan mijns Fatleysis, enn giefid mier hvijtt Brwdkaups-Klæde þijns dijrmæta Riettlætis. Lofadur siert þu, Lausnare minn, sem lietst mier Hlut falla yfer hid lystelega, Psal. 16. og lofader mier ad faa og finna þann himneska Kyrtel þinna hæblessudu Lijffens Orda; A þessum þijnum Klædafallde vil eg naudlijdande Vesælingur sem optast gladur þreifa med minne veiku Trwar Hende, vongoodur þar uħi, ad þu muner Bloodlaat minna Illgierda og Eymda

myskunsamlega mijkia og græda, Marc. 9. Skipte Heimurenn hlæande sijnum Aude, og sitie gladur ad sijnum Munade, so sem hann vill; Þad er fallvallt Laans-Glis, og hanns Dyrd mun þo ecke i Daudanum med honum fara, Psalm. 49. Su er mijn audmiwk Hiartans Boon, og þad skal vera mitt æðsta Ynde, ad eg megie eiga Hlutskipte sem nærst þijnum heilaga Krosse, so ad mijn Saal og Hiarta, mier til tijmanlegra og eilijfra Blessunar Nota, megie ædreifast þijnu Bloode, Amen.

## 37. Pijslar Þanke.

### Annad Ord Christi aa Krossinum.

EN þar stoodu vid Krossinn Jesu, Mooder hans og Moodur-Syster hans Maria Hwsz-Frw Cleophæ, og Maria Magdalena. Þaa JEsus saa nu sijna Moodur og þann Lærisvein þar nær standande, sem hann elskade, seger hann til sinnar Moodur: KOna, SJaa ÞU ÞAd Er ÞJnn SOnur! Epter þad seger hann til Lærisveinsins: SJaa, ÞAd Er ÞIjn MOoder! Og uppfraa þeirre Stundu took Lærisveinninn hana ad sier.

Med

MEd þessu blessada Orde og Eptérdæme hefur hinn Eingietne Guds Sonur og Endurlausnarevor JEsus epterlaated 1. Börnunum þaa hyparlegu Aminningu ad þau audsyne Foreldrunum alla tilbærilega Elsku og Adstod, Æru og Hlijdne med Orde, Verke og Þolinmæde; Syr. 3. giætande þess, ad saa Gud, sem med hinum stærsta Riette bijdur Foreldrana i Heidre ad hafa, lofar under eins i Myskun og Millde hlijdenn Born med laangvarande Lucku og Blessan ad buga sa. JEsus bar elskufulla Umsorgun fyrer sinne munadarlausu Moodur, og fool hana Johanne aa Hendur til Forsvars og Adstodar. Breit efter þessu hanns Dæme, Barn mitt: Viltu þu uppskiera Lucku, Laan og laanggiæda Blessan af Guds Myskunar Hende, siaa þa vel til, ad þu nidursaier vid Foreldra þijna hlijdugre Þioonustu, dygdarijkre Adstod og virdingarfullre Astsemie; Laat hier til Hugar koma, hversu mörgum Ungdomsins Overmoodska og elskulaust Nærtarleisi vid Foreldrana, hefur komed til Falls og Fordiorfunar; Varast þvi i Guds Otta. Viste þau, er Syrach umtalar segiande: Hver sinn Fodur fyrerlætur, saa verdur smaadur, og hver sijna Moodur skygger, saa er bolvadur af DRottne, Syr. 3.

2. Hefur Lausnarenn hier efterlaated Eckium og ollum Munadarleysingium þaa lijfkroftugu Huggun og Harmaboot; Ad þeim somu Myskunar Aug-

um, sem millduc JEsus ꝛleit hier sijna sært-harmande Moodur, er stood under hanns bloodugum Krosse, med þeim somu Myskunar Augum sier hañ enn þa aumur a þeim, sem sorgande og munadarlausir þreya i þessum vesæla Heime; Drottenn er Fader fodurlausra, sem þeim Forsvar og Umsorgun veiter; Hann er Doomare Ecknanna, Psal. 68. sem þeim Hiælp og Hugsvolun sender, þegar þær i Kiærleika Guds og Þolinnmæde Jesu Christi, setia sijna Von uppa hann, og med Hiartans Bæn og heitum Taarum leita jafnañ Hiælpar hia honum.

Mier vyrdest ad sw blessada Mey og Moodi Maria, sem harmþrwngeñ stood under sijns Sonar Krosse, sie lifande Jmynd bæde þeirrar strijdande Guds H. Christne hier i Heime almennelega, og lijka hvors og eins Guds Barns sierdeileslega; Hun er laungum til þess giord ad lijda Mootlæted, enn lijknarfullur JEsus lijtur i Naad til hennar, og lætur hana finna Huggun og Hiælpræde; Hann giefur henne gudhrædda Konunga fyrer Fooster-Fedur, Es. 49. og gooda Forstioornar-Menn, ja sialfur er hann hennar Hiælpare og Lausnare, sem alldrei yfergiefur hana ad eilijfu. Oll Guds Born og Christnennar andleger Limer meiga eirninn vid Mædunnar og Mootlætis Hlutskipte bwast; Þad er þeirra veniulegt Voggu-Mein ad syrgia og grata, þegar Heimureñ er ad hlæja og dansa, Joh. 16. Enn sw er þeirra ædsta Unun, ad ganga med Þol-

iñmædewti siina Eymda Orustu, og mæna uppær alblodugann og alsærdann JEsum siinum Trwar og Bænar Augum, Ebr. 12. Su er og so þeirra æskelegasta Huggun, ad milldur JEsus lijtur til þeirra siinum Medaumkunar Augum, hañ lietter under þeirra Mædu-Byrde med siinu Myskunar Hiælpræde; Hann linar þeirra Harma-Bond, jaa, leyser þau loksens alldeilis af þeim, og umgyrder þau med eilijfum Dijrdar Friðe og Fognude, Psalm. 116.

O minn lyknarfullaste Lausnare JEsu! Pad er mijn æskelegasta Hiartans Glede i ollum mijnum Eymdum, med mænande Trwar Augum og wtbreiddre Bænar Hende, ad hallda mier nælægt ad þier, Psal. 73. og setia allt mitt Traust til þijn; Þvi rañare Angistar Beyskleika, sem eg finn i mijnum Krosse, þess lijfkrostuare Huggunar Sætleika fæ eg ad smacka af þiinum bloodugum Kvala-Krosse; Sierhvert þad svijdande Saar, sem þu barst a þiinu helgasta Hollde, er einn mirkur Myskunar Plaastur vid blædande Angurs-Mein a minne harmþrwngenne Samvitsku; þvi eg veit og vona, ad þess meir sem eg hef af þinne Piinu, þvi riikuglegar verd eg fyrer þig huggadur, 2. Cor. 1. Midt i minne Bæna-Ydiu horfe eg gladur a þiina helgustu Piinu, þvi i giegnum þau bloodugu Saarenn, sem þu barst i Kvoleñe, treyste eg ad til miñar nædþyrstrar Saalar mune frañfliota Liifsins Straumar æskelegrar Naadar og Blessunar, ad hvers

eg bid Fødurenn i þiinu Nafne, þad mune mier aumum Veßæling nædarsamlega veitast, Joh. 16. A miinum Medlætis og Glede-Tiima, sem milldur Gud lætur mier voludum Præl af Myskun sinne optlega upprenna, hefe eg Hiartans Inndæle af þvi ad horfa æ þig, minn hæblessade JEsu! fra hvers wtbreiddre Orlætis Hende oll good og fullkomenn Giof er ad ofann til miin niduristiigande, Jac. 1. Eg grætbæne þig, læt alldrei Hiartad mitt hneygiast so miog til fæniitrar Fiær-Agyrndar, ad eg þess vegna villest af þijnum H. Kroßs-Vege, eda brioote af mier þijna Sæluhiælplegu Kroßsens Blessan. Vel unde Jonas sier fordum, under þeim græna Gras-Lunde, sem bægde fra honum Bruna Soolarennar, og friiade hann fra þvi, sem honum var Mein ad, Jon. 4. Enn ollu betur þykest eg aum Skiepna komenn, under þijns blessada Kroßs Lyknar-Skioole, miñ limfaste Herra!! þvi þar mun Guds Reide-Elldur mier alldrei granda; þar sit eg Okviidenn i ollum miinum Eymdum, þviad þu DRottenn er mitt oruggt Athvarf, Psalm. 91. Feginn vil eg i Voku og Svefne, Sess og Sæte, Sorg og Glede halda mier sem nærst ad þinum H. Kroße, og horfa med Glede og Gudrækne a þinn wtbreidda Blood-Fadm, so leinge sem eg life; Æ! Lofadu mier, Lausnarenn goode, i miinu Andlæte ad sofna wt af vid þijnar Myskunar-Fætur, so eg, Prællenn þinn, fære þar hiedann i Fride ad fara, Amen.

# 38. Pijslar Psalmi.

Um Bryxlenn sem Christur leid a Krossinum.



NN þeir, sem þar geingu hiaa, hæddu han og sogdu: Þu sem nidurbrijtur Guds Mustere og uppbygger þad aftur a Þremur Døgum, hiaalpa þu sialfum þier. Ef þu ert Guds Sonur, þa stijg ofan hijngad af Krossinum. Lijka so spottudu han þeir ædstu Prestar og Ølldungar, og sogdu: Ødrum hefur han hiaalpad, sialfum sier gietur han ecke hiaalpad, Ef han er Christur og Kongur Israelis, stijge han nu nidur af Krossinum, þa viluin vier trwa honum. Han treyste Gude, han frelse han nu, ef han hefur Lyst til hans, þviad han sagde: Eg em Guds Son

Gud naade þad og betre, epter mikillre Myskun sinne, ad ecke er sw Sathans Samkunda en nu, alldeilis under Lok lidenn, sem jafnvel a vorum Døgum, med Hædne og Spieskap geingur fram hiaa Christi Krosse; Og þad giora aller þeir, sem nalægiast hinn krossfesta og blessada JEsum, einasta med Munnenum, og heidra hans P... nafnet nemanned Vorunum, enn Hiartad þeirra er þo.

orsnaudt af hanns Elsku, og asunded hanns blessada Naadar Vilia; Þeir ed þykiast siaalfer riettlaater vera, enn forsmaa adra, Luc. 18. Þeir ed vijsvitande ana fram aa Glæpanna Gotu, sem ad lyktum leider þaa annadhvert til Efaseme og Orvæntingar um eilijfa Guds Naad, eda añars Vegar til Priootsku og Þverwdar i Svikræde Syndarennar, Ebr. 3. Soddann eru rietter Spottarar og Oviner Krossens Christi, hverra Æfilok verda, aan Efa, Fordæmingenn, Phil. 3. nema Gud vilie meire Myskun aa giora; Enn hann giører hana þvi ad eins, ad saa hinn Ogudlege læte af sijnum Vege og Illvirkenn af sinne Hugsan, og snwe sier til DRottens, Es. 55. Eg færeadur Synda Þræll skrijd so sem framande og Utlendingur, med mijnum Hiartans Þaunkum ad þijnum blessada Krosse, O minn liwfaste Lausnare JEsu! Lofadu mier ad gaanga nockud nær, og upplijs mijn Hugskots Augu med þijns heilags Anda Naadar Lioose, so eg sie riettelega skiled, hier til Lofs, enn mier til Huggunar, hvers vegna þu haablessade Dijrdareñar Konungur hefur so haaduglegt Spott og Spie lided. Æ! Eg medkienne, Lausnare miñ, ad þad Haad sem þu saklaus leidst, ætte eg med ollum Riette skiled. Eg hefe nidurbroted og fordiarfad Guds Mustere, sem ætte ad vera Hiartad mitt, helgad og vijgt i Skijrninne honum til Ibwdar, 2. Cor. 6. Enn æ! hvad hormulega er þetta Guds Hws, fyrer mijna vonda Vanrækt, orded so sem

ad Ræningia Bæle, hvar inne miin fordiorfud Hollds Náttura er daglega siinar Syndsamlegar Girnder ad rækia, Rom. 13. Þetta hef eg lofad a Premür Dogum, edur med Þrennu Mote, nefnilega med Ydran, Trw og Yferboot, ad lagfæra; Eñ Gud minn goodur værge Veikleika miinum, og náde blessadur best miina Forsoomun! hversu liitel Raun og Framkvæmd hefur i þessu vilsiad syrer mier verda; Viliann hef eg ad sönnu, eñ ad fullkomna þad gooda finn eg ecke, Rom. 7. Ydranenn er kolld, Trwenn þykest fullorugg i Medlætinu, enn veiklast og bilast Vonum bradara i Mootlætinu, og Yferbooteñ miin vill laungum verda Avaxtarliitel, vidliika og viised Trie, a hveriu ecke er nema fáeniist Hræsnennar Blod ad finna. Þetta mitt Brysle hefur blessadur JEsus bored mier til naudarfullrar Assokunar; Þessa miina Synda-Sok hefur hañ kvittad mier til gledelegrar Forliikunar. Odrum læt eg opt med hollum Rädum hiálpa, og er nærsta Skarpskign ad siaa, jafnvel einn Avirdingar Vagl i þeirra Auga; Eñ siálfum mier hyrde eg nærsta liitt uñ ad hiálpa; Miin Liite er eg blindur ad þeckia, og nærsta seinlaatur Gløpanna Biálka ur miinu Auga ad draga, Luc. 6. Þetta ætti og mætti vera mier Orsok til eiliifrar Hádungar; Enn blessadur JEsus villde miin vegna Bryxlyrdenn liida, so mitt Bol mætti grædast, miin Hádung burttakast, og mier skyllde i hanns Nafne Heidur og Vegsemd veitast fyrir

miins Guds Naadar Auglite. Þu varst, Lausnare minn, med sarlegum Hardungar Ordum aa-reittur i þiinu Andlaate, so miin Saal skylde hugg-ud verda med þiinu Naadar og Fridar Atvarpe aa minne Dauda-Stundu; Þu varst Einn af ollum hæddur og spiadur, so aller skylldu fyrer þig Ein-ann frelsast fraa allre Hædung, og eingenn, sem aa þitt blessada Nafn trwer, skule med Skom̄ fortap-ast, helldur hreppa eiliift Liif, Joh. 3. og eilijfann Heidur i himneskre Dijrd og Sælu.

Hvenær sem hinn hreckviise Heimur eikur mier Hugmood og Hiartans Angur med siinu Hæde og Spotte, þaa vil eg seigenn flija ad þijnum Kros-se, og ecke med nockre Oþolenmæde fram̄ hiaa gaanga, helldur um̄bera med hlijdugu Hiarta Veralldarenar Adkaastog Oblijdu, litande til þijn, minn lijknarsulle HErra, so eg þreitest ecke nie uppgiefest i minni Armædu, Ebr. 12. Naad þu þvi best, sem rijkur ert af Myskun, hvad miked eg skal lijda i Heimenum, þad er mier nóog, ad eg veit ad mitt Verdkaup, ut af einskiærre Naad, enn aungre minne Verdskulldan, er og mun verda nóoglegt i Himnenum, Matth. 5, Þu varst, DRottenn minn, med beigdum Kniaim af gud-lausum Prælum spottadur, Þaa þu varst ollum til Myskunar stateur i Kvolenne; Verdugur ert þu þvi, þu blessada Lambed Guds, af ollum Ei-nglum og Monnum bæde aa Himne og Jordu, ad medtaka hæleita Æru, eilijfann Prijs og aud-

miwkustu Ástar Lofgiörd, þar sem þu lifir nu og liomar i Dijrdenne; Eg þinn aumaste og overdugaste Þioon sem enn nu þreye i mijnu Volæde; og þraae epter ockar Glede-Fundum i þinne Sælu, vil feigenn, med litelaatustu Lotningu Anda og Lijkama, lofa þig so leinge sem eg lifi og þier minn Gud Lof-siungia medann þad eg em hier, Amen.

## 39. Pijslar Pænki.

Um Ræningians Ydran.

ENN eirn af þeim Spillvirkium, sem heingder voru, lastade hann og sagde: Ef þu ert Christur frelsa sialfann þig og ockur. Þaa svarade hiñ añar, straffade hañ og sagde: Og þu hrædest et helldur Gud, sem ert þo i eins Fordæmingu! og ad vijsu skier ockur þetta riettelega, því vid medtøkum hvad ockar Gierder voru verdar, enn þesse hefur eckert oskickanlegt giørdt. Og hañ sagde til JEsu: DRotteñ! miñstu mijn, þaa þu kiemur i Rijke þitt.

AF Dæme þess eina Ræningians, sem ecke skipadest betur enn so, vid velforþienta Refsing sinna Glæpa, ad hann lastade og hædde hiñ saklausa

lausa og sannheilaga JEsum a Krossenum, mætt Þu, Saala miin, siaa og skoda, hverssu aumkunarlega Manniskiepnann forherdest af Sviikræde Syndarennar, þegar hun audmiiker ecke sitt Hiarta nie lætur af siinu vondu Athæfe, þott Guds Hond hirte hana og slae vegna hennar miikillra Misgiørda, og fyrir hennar sterkra Synda saker, Jer. 30. Vardveit mig, DRottenn minn, fraa soddann vondre Blindne og voveislegum Saalar Haaska! Þegar þier þooknast ad aga mitt ostiijrelaata Holld med Vende þinnar fødurlegu Hirtingar, styrk mig þaa og stioorna mier, ad eg med heitum Ydrunar Taarum og audmiwkum Trwar Andvorpunum, flije til þess fagra Hair-Troons þinnar Myskunar, Ebr. 5. So eg finne hiaa þier Raad og Vægd, Hiaalp og Huggun i øllu miinu Synda og Sorga Bøle.

Af Dæme hinns annars Ræningians skulum vid, Saala miin, gudrækelega læra og athuga, ad þott hann ad undannfornu lifde illa og Ogudlega, þaa var þad blessud Boot i hanns Maale, ad hann, medann Naadar Tiimenn var, ydradest vel og gudrækelega. Hann jaatade Yfirdrepslaparlaust Illgiørder siinar, augliiste, ad hann hefde Andstygd aa þeim, og veitte merkelegar Aviitur siinum gudlausa Stall-Broodur, med þeim aagiætu Audmiiktar Ordum, ad þeir medtæke forþient Laun finna vondu Verka; Hann

slijde med Forundrunar verdu Trwnadar-Trauste, a Frelsarans JEsu Naader, er hann aan Efa vonad hefur, ad bæde hefde mikid Vallld og lijka mysskunarrijkann Vilia til ad lijkna sinne Saalu, og leida hana ur Kvolunum inn i eilijfa Himnanna Glede; Hann bad þess einasta med Bligdun og Trega, ad DRottenn villde minnast siin, og trwde ad þad munde sinne aumu Saalu ad goodu Naadar Athvarse verda; Og var þad ecke ad undra, þvott Afgrunn Mysskunarennar opnade sig til ad svala so naadþyrstre Saalu. O! sia hier med Glede, Saala miin, hversu ometanleg er Giædska DRottens, ad hann lætur sig naadugann finna af ollum þeim sem af Hiarta snwa sier til hanns, Syr. 17.

Leinge aadur hofdu bæde Gydingar og Heidingiar med Hroope og Haareistehædt, lastad og aaklagad Lausnarann a Krossinum, og þo upplaukecke hid liwfasta Guds Lamb siinum Munne hvorke þeim til Amælis nie sier til Afsokunar; enn strax sem þesse ydrande Syndare hafde talad eitt Ord, opnade hann siinar aastwdlegu Varer honum til æskelegrar Glede og eilijfrar Saaluhiaalpar. O! hvad skiært skijn hier fyrir Augum minum þijn heitasta Hiarta Giædska minn himneske Lausnare JEsu! Þu kvartader eckert yfir þinne saaru Pijnu, enn lietst þitt Mysskunar Hiarta bresta i sundur yfir Saalar Neyd þessa stoor Glæpa Man-

nns. Þu finder honum mestu Myskun, hvort þu finder sialfur aungva Medaumkun; Eins veit eg og vona, ad þu eilijfa Giædskann ert enn þa sinnud bæde vid mig og adrar syndugar Skiepnur, þvi ecke maa Uppspretta þinnar eilijfu Naadar þorna; og alldrei munt þu forgleyma myskunsamur ad vera, nie þijna Naad fyrir Reide ad innelykia fyrir nockrum ydrande Syndara; Psalm. 77. Þesse Illvyrke hafde allann sinn Alldur aled ad undannfornu i hinum vestu Glæpum, og allt fram i Daudann geinged a Glotunarennar Veige; Enn allt fyrir þad villder þu, Drottenn minn, þo ecke spyrna hanns ydrande Saalu af Foot-Skör þinnar Myskunar; Þu minnst ecke a hanns Yfirtrodslur honum til ognarlegrar Fordæmingar, helldur minnst þu þinnar miklu Myskunar, honum til Synda Bootar og eilijfrar Huggunar. Hann hafde forþienad obærelegar Kvaler i Helvijte; Þu hietst honum omælanlegre Dyrd og Sælu i Himnarijke.

O! Giært þessa dijrmæta Dæmes, Saala mijn, og gleymdu þvi alldrei, giært þess seige eg med sanre Gudrækne: Fyrst þier til eilijfrar Glede og Efunarlausrar Trwarstyrkingar. Þad sama JEsu Myskunar Hiarta, sem upplaukst fyrir þessum Glæpa Manne a hanns Dauda Stundu, þad sama stendur enn þa oped fyrir ollum ydrande Syndurum, hversu svijvirdeleiger sem þeir vera kunna;

Og

Og þad jafnvel midt i þeirra Andlaate. Alldrei er nockur hrein Ydran of-sein fyrir JEsu Náadar Auglite. Hans Viedska er ecke bunden vid nockurn Stad edur Tijma, hann stendur allann Dagenn vors Lijfs allt fram i þau sijdurstu Andarslitur, med utbreiddar Myskunar Hendur, Es. 65. 2. Til ad meddeila Raad og Fyrirgiefning øllum þeim sem riettelega þiggia vilia. Athuga þar nærst, Saala mijn, þetta Dæme, þier til alvarlegrar Aminningar; Varastu ad undandraga þijna Ydran, sem þier er æ tijd ómissande, til þijns Dauda Dags, sem þier er æ tijd óviss; Freistadu alldrei Guds med andvaralausre Glæpa Ydiu, eins og þier sie alltijd nøgur Tijme til Yfirbootar, þvi þu veitst þo alldrei nær, enn henn endast eilijflega fyrir øllum þeim, sem andvaralauser i Syndunum sofa; þar fyrir, i Dag medann þu heyrer Raustena DROttens, þa forherd ecke þitt Hiarta, Psalm. 95. O! minn elskulegaste JEsu! margar og stoorar Synder hefe eg þier til Stigdar: enn mier til Hegningar framed: æ! vægdu mier DROttenn minn, og gief mier Krapt og Raad, Vilia og Astundan til sannrar Ydrunar, Saaluhiaalplegrar Erwar og gudeckelegrar Lijfernesins Betrunar. Þegar mijnar Synder vilia ogna mier aa mijnum Dauda Deige, Æ! minnstu mijn þaa, DROttenn minn, i þinne Myskunseme, og gief ad eg fraa allre Kvol og Fordæmingu eilijflega leistur meige aa þijnum Myskunar Ørmum sætlega

lega hiedann ut af sofna, Amen.

# 40. Pijslar Passki.

## Thridia Orded Christi a Krossenum.

S O JEsus sagde til hans: SAnnlega SEige EG pJer, i DAg Skallt pU VEra MEd MJer i PAradis.

ALLar Tungur Eingla og Manna eru allt of mæilstyrdar og O-ordrijkar til ad vijdfrægia pad og vegsama, so sem verdugt er og vera byriar, hversu lijknarfullur og mylkunsamur, polenmoodur og hiarla goodgiarn ad Gud er; Pad fieck ad reina sa ydrande Ræninge, sem med sijnu vonda Framferde allt fram i Daudann hafde forpienad eilijfa Helvijtes Pijnu, enn fieck samt ad heyra af Frelsarans JEsu Munne gledelegt Fyrirheit um ofallvallta Heim-Von i eilijfa Himnarijkes Diird og Sælu: Sannlega seige eg pier, i Dag skallt pu vera med mier i Paradis. Merk hier af, Saala mijn, med gudrækelegre Eptertekt paa Yfirvættes miklu DRottens Naad, ad hinn riettlaate Gud, sem stigdur og moodgadur er med Syndenne, lætur sig bliidka og fridstilla med Ydranenne; Þvott hann, epter sijnu straanga Riettlæte, vilie straffa og hefna, þaa fær ydrande Syndarans Saala Frid og Fyrirgiefning fyrir hans Naa-

pan

dar Auglite ad finna. Pad banvæna Orma Bit, med hveriu su bolvada Synd plagar Samvitskuna ad særa og græta, megnar su blessada Ydran kroptuglega ad græda og bæta, hun verkar Glede og Hialpræde sorgfullre Syndarans Saalu, 2. Cor. 7. Hun er sætt Sælgiætes og Glede-Vijn heilogum Drottens Einglum, Luc. 15. Ein audmiwk Bæn, sem ydrande Saal framflitur fyrir giædskurijkann Gud i Himnenum, hun er dijrmæt, þægeleg og mikels metenn fyrir hanns Myskunar Auglite; Hun er gooдur Eyrendes-Reke, sem alldrei fer siniande fraa Hæ-Trone Myskunarennar, Ebr. 5. Punkt er Moodur Eyrad hins milldерijka JEsu, ad heyra hennar Kvein-Stafe, og pad jafnvel aadur enn hun fer, og midt i þvi hun er til hanns ad hroopa, Es. 65. Lijka sem Moses fyrir Guds Almættes Krapt, fieck med sijnum Staf utleidt sætt Svala-Vatn af Hellu Steinenum i Horeb, 2. Mos. B. 17. So fær ein Naad-þyrst Saal med audmiwku Ydrunar Andvarpe nærd gudbdoomlegum Lijfs og Lijknar-Straumum af JEsu Myskunar Hiarta, sem er hennar himnesk Hiælpræдes Hella, 1. Cor. 10. Hvar af hun i ollum Angistar Porsta uppeis med Fegnude Naadar og Blessunar Vatn, sier til tijmanlegrar og eilijfrar Svolunar.

O! minn sætaste Lausnare, eg jaata og medkienne fyrir þier mijnar morgu og stooru Synder, og ad mier er þeirra vegna aungvu betur vared fyrir

Auglite Þijnu, enn Þessum Stoor-Brota Manne, ef Þu villt ganga i Riettlætes Doom vid mig; Þess vegna skrijd eg glæpafull Skiepna ad Þijnum heilaga Krosse med heitum Bænar Tarum og Hiartans Andvarpe; Lofadu mier Synda Þiaadum og Sorg-mæddum Vesælinge ad niota Hvijldar og Hiwkrunar i Þijnum utbreidda Lijknar Fadme; Þu ert mier fyrir Hugskots Augum afmaaladur alls-nakenn, albloodugur og al-særdur a Krossenum haangande; Þad er Saalu minne eilijf Hugggun og Harma-Boot; Þvi mier til Mykunar hefur Þu so beiskar Kvaler lided; Mier til Lækningar so svijdande Saar feinged; Mier til Hreinsunar og himneskrar Blessunar Þijnu dijrmæta Bloode uthellt; Æ! gief ad oll Þijn beiska Pijna hrijne a mier til æskelegasta Fagnadar! Þu ert nu DRottenn minn! fraa ollum Kvolum eilijflega burt numenn, og ingeingenn med gudsdoomlegre Vegsemd i Þitt Dijrdar Rijke i Himnenum; Æ! DRottenn, minstu min Þijns naudlijdande Vesælings, sem enn nu Þreye og Þiaaest i Eymdunum. Virdstu a hverium Morgne i Milldeog Mykun ad seigia til mijn: J Dag er Þitt Holld i Heimenum, enn Hiartad skal vera hjaa mier i Himnenum, so ad eg giefe Þier mitt Hiarta til Vægdar og Lijknar, Jer. 31. Enn Þu giefer mier Þitt Hiarta til Hlijdne og Þocknunar, Ordsk. B. 23. Eg vil seigenn a sierhverium Morgne andvarpa aptur a moot til Þijn DRotten

enn miñ, og bera mig ad i þijnum Krapte, ad haga so Framferde mijnu, ad eingenn Hlutur skie mig fra þynum Kiærleika skiled, og eg meige jafnann med Polenmæde og goodum Verkum stunda epter þiinu eiliifa Dyrdar Riike, Rom. 2. Sierdeiles virdstu O JEsu! ad lata þinn himneskann Naadar Anda, a minne Andlaats Stundu, predika þesse huggunarfullu Ord i miinu Hiarta: J Dag skallt þu vera med mier i Paradijs; Þar sem eg er, þar skallt þu minn Þienare, innañ skams fra ollum Eymdum leistur, i ævarande Dijrd og Glede eiliiflega vera, Joh. 12. Þu aatter, DRottenn miñ, midti þinne dirpustu Nidurlægingu, hin ædstu Naad a, ad giefa þessum Glæpa Manne Himnariike: O! hvad gladur maa eg þaa taka i moote miinum Dauda, i þeirre vissre Von, ad þig mune nu i þinne diirdarfullu Upphafningu hverke vanta Viliann nie Mattenñ til ad frelsa mig þinn auma Vesæling fra ollu Illu, og hiaalpa mier til þijns himneska Dijrdar-Riikes, 2. Tim. 4. Þar uppa vil eg obrædddur lifa og liika gladur deya. DRottenn minn! laat þau blessudu Lijfsins Ord, sem þu talader a þinne Dauda Stundu, vera mijna Huggun og Hiartans Glede a miinum Andlaats Deige. Þegar mijn mædda og mootlætta Saal skilur vid miñ vesælann Lijkama i Daudanum, þaa medtak hana O! HErra, til þijn i eiliifann Paradijsar Fognud, Amen.

# 41. Pijslar Pamnki.

Fioorda Ord Christi aa Krossenum.

OG þad var nær um̃ hina siøttu Stund, ad Myrkur glørdest yfer allt Landed, allt til niundu Stundar, og Sooleñ miste sitt Skin. Og um̃ niundu Stundu kallade JEsus haarre Røddu og sagde: Eli, Eli, Lama Sabachtani. Hvad ed utleggst: GUd MJñ! GUd MJñ! HVar Fyrir FOrlietst PU MJg?

HEyred þier Himnar, og þu Jord hlusta med Eyrunum, þvi DRottenn hann talar: Seiger Spaamadurenn heilagur Esajas, Cap. 1. Þegar hann, under Persoonu lifanda Guds, upphefur sijna Kløgunar Raust yfir Illsku syndugra Manna; Laat þesse somu DRottens Anda Ord uppvekia þig, mijn Saal, af vondum Andvaraleyses Svefne, so þu med hiartanlegre Andagt heyrer, og med gudrækelegre Lotning hluster til, hvad Lausnare þinn JEsus haangande aa Krossenum under þinne og allrar Veralldareñar Syndabyrde, kallar og hroopar med graatlegre Kveinunar Røddu seigiande: Gud minn! Gud miñ! hvar fyrir hefur þu yfirgiefed mig? Eingenn skillde leida sier i Hug, ad Lausnarenn hafe laated sier

þesse

þesse Ord um̃ Munn fara, añad hvert af Efa nockrum, so sem hefde honum blessudum so hrygg-elegar Kvaler ovorum komed; Þvi hanns gud-doomlegre Speke var alkuñugt allt hvad yfir hann ætte ad koma, Joh. 18. Ecke helldur af nockrum Heiptar Hug vegna sinna herfilegu Pijsla, þvi ecke kunnu þeirra brwsande Bilgiur ad slockva þann blessada Elskunnar Elld, sem midt i hanns bitrustu Piijsl logade hvad heitast i hanns lyknar-fulla Hiarta: Og allra sijst hefur Frelsarenn kvartad yfir Kvolum sijnum af nockre Oþolenn-mæde; Þvi so dæsamlega sem hann blessadur haf-de byriad þad, so fagurlega villde hann nu eirnenn innañ skams fullkomna þad, ad gioerast sijnum himneskum Fødur hlijdenn allt til Daudans, Jæ allt til Krossens Dauda, Phil. 2. Miklu framar hefur DRottenn med þessare sinne hroopande Klogunar Raust viliad hræra Hiarta vort synd-ugra Manna, til ad hugleida med alvarlegum Angurs-Trega, hversu obæreleg ad være Reide Guds yfir Syndum vorum, og hversu ognarleg þeirra Verd-Laun, ad þar sem sæ elskulege Guds Sonur var so hart plægadur sokum añarlegra Synda, Es. 53. Þæ skyllde hinn vonde Þræll hugleida, hvad þwngum Kvala Hoggum hann munde hlioota ad sæta vegna sinna eigenn Glæpa, uppæ þad ad sæ hinn ogudleige skyllde verda þess swsare og fliootare til ad læta af sijnum vonda Veige, og snwa sier til DRottens, Es. 55.

J annan maata merk þu, mijn Saal! þaa yfirnatturlegu Sorlarennar Formyrkvan, sem hier skiedei JEsu Pijnu ; Allt eins og þad blessada Heimsins Lioos blygdadest vid ad skyna yfir þaa Ohæfu, ad hennar Skaparevar so herfilega kvalenn, Og var hun þo eingenn Skulld i þvi, so sem øllum er vitanlegt ; O! hversu misg ætte þaa og mætte su vesæla Manneskia skamast sin, nær hun hugleider og heyrer um þad talad, hvad þwnga Kvalanna Erfidis-Mune hun hefur giordt siinum DRottne og Lausnara med siinum Syndum, og hvad ognarlega Mædu auked honum med siinum Misgiordum, Es. 43. Avi! minn æstwdlegaste Lausnare JEsu! makega maa eg vesæll Jardar Ormur laata bæde min Augu flioota i heitum Angurs Taarum vegna Glæpa minna, fyrir hverra saker þu varst so hørmulega kvalenn; Þad jaata eg liggiande aa þinne Foot-Skør ydrande og audmiwkur: Vertu, O Gud! mier vesælum Syndara lyknsamur. Eg hefe allt til þess unned med minne obættre Glæpa Breitne, ad utkastast i Op og Tann Gniistran þeirra ytstu Kvalanna Myrkra, enn yfir þig, DRottenn minn! hlutu þau dimmu Piislanna Myrkur ad gaanga, so gledelegt Lioos gudlegrar Naadar og Huggunar skyllde yfir mier upprenna. Med þeirre Sorgar Naust sem þu lietst i svortu Myrkre af þier heyra, hefur þu hroopad mig inn i himneskann Sælu og Dirdar Liooma, inn i þaa nyu Jerusalem, hvoria þiin

Dijrd

Dijrd uppliomar, og þu Lambed Guds ert heñar Lioos, Opb. B. 22. Hvar eg asamt ollum þiinum utvolldum mun skyna so sem Lioos i þiins Fodurs eilijfa Dijrdar Riike, Matth. 13. Og hroopa þar fagurt Lofgiordar Sanctus, og Fagnadar Hosiaña fyrir utann Enda. O! hvad gott er til þeirrar Glede ad hyxa, jafnvel þoott mier ecke laungum oskiemtelegt ad þreya i þessum dimma Dal og Daudans Skugga, hvar Myrkur miña Synda og Sorga sortna so miog fyrir Augum Saalar miñar, ad hun sier næsta dausa Deiling til þinna Huggunar Geisla, þu hablessada Riettlætes Soolenn, Mal. 4. Yfir þessu miinu Bole kveina eg og veina fyrir þiinu Naadar Auglite; Æ! heyr þu DRotteñ miina Bæn, og hygg myskunsamlega ad miinu Hiartans Hroope, Psalm. 143. Feigenn vil og skal eg, i þiinu blessada Naadar Nafne, og epter þinu fegursta Dæme, laata þad vera miin fyrstu og fliootustu Urræde i ollu mijnu Harma-Bole, ad upplipta mijnu Hiarta til þijn, Gud miinn! Gud minn! þu sem ert Fader Myskunsemdanna og Gud allrar Huggunar, 2. Cor. 1. Virdst þu naadarsamlega ad hugga mig i allre minne Hrygd! Þegar Myrkur Syndaña byrgia fyrir mier Sool Gledeñar, æ! snw þier þaa til miin Gud minn! Gud minn! og vertu myskunsamur Þræle þijnum, Psalm. 90.

J þridia maata merk þu Saala mijn þier til ei-

liifrar Huggunar, ad Sonur Guds var af siin- um himneskum Fødur yfirgiefenn midt i siinu mesta Angistar Kvalræde, so þu skyllder alldrei verda yfirgiefeñ af gudlegre Hiælp og Myskun i nockru Hrygdar edur Harma Bole; Gleym alldrei þiñ Gudi JEsu Nafne ad ottast, elska og akalla, þa mun hann, fyrir JEsu Christi skulld, alldrei laata siina Myskunseme i burt fra þier viikia, og Saattmaale hanns Fridar yfir þier skal alldrei ad eiliifu forgleymdur verda nie nidurfalla, Es. 54. Æ! minn giædskuriike Gud og DRottenn! virdstu fyrir þiins eingetens Sonar saaru Kvøl ad væ- gia mier og mysknna i Liife Dauda og Doome. Þegar Lioosed minna Augna formyrkvast og mier mynkar Maalfæred i miinu Andlaate, miñstu þa, DRottenn miñ! þessara þiins Sonar saaru Kvala, og liis minne Saalu med fogru Lioose þinnar Huggunar; Hneig þa þitt Myskunar Eyra til minnar Hiartans Andvarpanar, og medtak miina aumu Saal i þiinar Naadar Hendur til eiliifrar Diirdar og Glede, Amen.

# 42. Piislar Pistill.

Fimta Ord Christi a Krossenum.



aa JEsus visse nu ad allt var fullkomnad, og ad Skripteñ yrde uppfylld, þaa seiger hañ: MJg Þyrster; Þar stood eitt Ker fu-

ilt af Edike, jafn snart hlloop ein af þeim til, og took Niardar-Vott og fyllte af Edike, og sette ofan a eirn Reir-Legg, og gaf honum ad drecka.

LJka sem Vatn þad, er Spaamadurinn Ezechiel saa i Anda fordum, reindest honum þvi diwpara, sem hann var leiddur wt i þad leingra, þar til hann grinnte ecke leingur, Ezech 47. So virdist mier lijka, ad ein gudhrædd Saal meige falla i þess stærre Forundran, sem hun hugleider optar og heyrer leingur fraa þvi sagt, hversu diwpt ad Rottesi Himnanna hefur lijtilæckad sig hennar vegna; Hversu saarar Kvaler Konungur Dijrdarennar JEsus hefur lided henne til Hiaalpar og Myskunar. Eda er þad ecke Omælanlegt Afgrunn JEsu Astar og Naadar, mijn Saal? Er þad ecke grunlaus Dypt Audæfanna bæde Vijsdooms og Giædsku mijns einka Endurlausnara? Ad hann, sem alls Raad a bæde a Himne og Jordu, Matth. 28 Hann sem siaalfur er eilijf og Opriootande Lijfs og Lyknar Uppspretta, og giefur ollum Naad-þyrstum Saalum þad sætasta Svala-Vatn, sem flijtr til eilijfs Lijfs, Joh. 4. Han sem med sijnum giæd-skurijkum Guddooms Krapte snere fordum dausu Vatne i sætt smackande Vijn, Joh. 2. han kvartar nu yfer þvi i sijnu saaru Kvol, ad sig þyrste, en fieck þo ecke annad en swrt Edik, ad svala med sijnu orþiaada Hiarta. O! hvad heitt, hefur JEsus elskad oss aumar Manneskiur

iur? Hverſu orbyrgur giordest hañ af öllum jardneſkum Munum, ſo hann audgade oſs med andlegum og eilijfum Bleſsunar Giædum, 2. Cor. 8. Ecke var Lauſnarans guddoomlegu Almætte um̃ Megn, ad ſnwa þeſſu ſwra Edike i ſætt Wijn, til ad lina ſijna Kvol og ſvala ſijnum ſaar-þyrſta Munne, hefde honum bleſſudum ſo þocknaſt; Enn þvi olle hanns bleſsada Elſka til vor aumra Mañā og hañs blijda Hlijdne vid ſiñ himneſka Fødur, ad hañ villde eingann Dropa efter ſkilia i þeim fleytefulla Kvalanna Kaleik, ſem fyrer hann var afſkeinktur. Adur hafde Lauſnarenn ſannad þad med ſijnum bleſſudu Almættis-Verkum, ad hann være ſannur Guds Sonur; Nu villde hann med ſijnum bitru Piijslum ſijna, ad hann være allꝛ Heimſins Endurlauſnare, og þad ſanna Guds Lamb, ſem bære Synder Verallðarennar, Joh. 1.

Enn hvilijkur mun nu þeſſe Lauſnarans Þorſte vered hafa, mijn Saal? Hann var fyrſt Lijkamlegur og Natturlegur, ſem epter ollum Lijkendum ordſakadeſt af þvi ſtranga Kvalanna Erfide, af hveriü hinn trwlynde Guds Þioon var ſo orþiaadur, þreittur og vanmegna ordenn, ad hanns bleſſudu Mañdooms Kraptar uppþornudu ſo ſm̃ oñur Skurm og hanns Tunga lodde af ſaarheitum Þorſta vid hanns Goom, Pſalm. 22. Enn fieck þo eckert ſier til Svolunar, nema ſwrt Edik, Honum til enn þar ſtærre Kvalar. Þeſſe beiſki

Dryck-

Dryckur var borenn ad Lausnarans daudþyrst a Muñe i Kvolenne, so Bruñur Hiaalpræðesins med hunneskum Svolunar og Naadar Særleika skyllde þess riikuglegar utflioota til annnar þyrstrar og þiaadrar Saalu, af hanns Mystkunar Hiarta, þar sem hann lifer nu og riiker i Dijrdenne; Hañs Ovina Grymd villde ecke unna honum hinnar miñstu Svolunar; Þess vegna veit eg og vona ad hanns heita Hiarta Giædska mune ecke urskwsa mier Naad-þyrstum Vesæling fraa serskum Vetnum tiimanlegrar og eiliifrar Glede og Blessunar. Hanns haaleita Nafn sie losad ad eiliifu!

2. Var Lausnarans JEsu Þorste aa Krossinum andlegur og Elsku-heitur; Hañ þyrste og lyste eptir Synda-Kvittun og Saaluhiaalp allra Mañа, fyrer hverra Saker hann hafde so stoorar Kvaler lided, og var nu reidubwenn ad leggia Liifed þar ofann aa. So sem hann hafde hiartanlega laangad epter þvi, ad lijda Kvalernar, Luc. 22. So laangade hann nu hvad hiartannlegast epter þvi, ad aller mættu hafa eiliif Naadar og Blessunar Not af hañs Kvolum; Hann laangade epter þvi, ad aller þeir, hverra Synder hann bar, hverra Straff hañ led, hverra Sekt hann borgade, mættu i sañre Yðran saaluhiaalplega aa hann trwa, so þeir forroputust ecke, helldur ad þeir hefde eiliist Liif, Joh. 3. O! hvilijkt Blygdunar og Angurs-Efne maa þad vera fyrer ockur, Saala miin, ad hugleida þetta: Sialfur Gud lætur sig laanga til ad siina ockur Naad

og Hiälpræde; Enn vid erum Oþyrst epter þvi, ad umfadma hanns Ast og Millde; Hann þyrstir eftir þvi, ad friþþægia ockur og myskuna, enn ockur laangar laungum til, ad drijgia þaa Glæpina, hvar med vid erum daglega, blessadann Naadar Avoxt hanns bitru Kvala, af ockur ad brioota. O! Heyr þu i Guds-Nafne, Saala miin, og hlusta til, hvad Lausnarenn JEsus enn nu i Dag til þiin talar, segiandi: Mig hefur þyrst i minne bitru Kvol, til ad endurleysa þig fraa allre Bolvan og eilijfre Fordæmingu; Mig þyrster enn nu og laangar epter þinne Ydran og Umvendun, epter þinne Synda Kvittun og eilijfre Saaluhiaalp; Hvar fyrer villt þu deya i þijnum Syndum; Eg hefe ecke Þocknan aa Dauda hins Ogudlega, segier DRottenn, þar fyrer sinw þier og skallt þu lifa, Ezech. 18. Æ! Eg aaminne þig, Saala miin, fyrer Myskun Guds; Kostadu alls Kapps um, ad svala JEsu Þorsta; Biood honum alldrei beyskann Dryck elskulausrar Hræsni og Yferdrepskapar; Biood honum daglega i hanns eiginn Naadar Nafne hreinann Bikar heitra Ydrunar Taara og Hiartans Andvarpana; þad mun hanns Millde ecke forsmaa, helldur myskunsamlega medtaka. O minn Lyknarfullaste Lausnare! J dimpustu Audmykt og Undirgiefni vil eg þiinu blessudu Naadar Orde og Avarpe svara, segiande: Lijka so sem Hiortenn laangar epter ferskú Vatne, so laangar Saalu miina, þu lifande Gud, epter þinne Naad og Hugsvolun, Psalm. 42. Eck

er

ert er þad i Eigu minne, DRottenn minn! sem eg mege voga ad biooda þier til Þocknunar, nema saar Taar, og þo allt ofkolld; Einlægt Trwar-Traustenn þo allt ofveikt og vesællt; Medtak þad O Herra! i Myskun þinne og lat mig, þinn aumasta Vesæling, finna Nꝏd fyrer þiinu Auglite. Eg priisa hiartanlega þiina grunlausa Elsku, sem hefur so mikl u kostad uppꝏ miina Endurlausn; Eg gledst fagurlega af þiinu Nꝏdar Hiꝏlpræde, ad þu hefur med þiinum saarheita Piinu-Porsta, leyst og frelsad Sꝏlu miina fraa eilijfum Kvala-Porsta. Gief O JEsu! ad so vel þetta, sem allt annad, er þu hefur mier til Myskunar lided, sie og verde Sꝏlu minne frij-openn Uppspretta tijmannlegrar og eilijfrar Blessunar og Glede, Amen.

# 43. Piislar Pꝏnkt.

## Siotta Ord Christi aa Krossenum.

Enn er JEsus hafde Edlked til sijn teked, sagde hann; PAD Er FUllkonnad.

SO sem þetta blessada Ord, er Lausnarinn JEsus talade i Siotta Sinne aa Krossenum, mꝏ med øllum Riette reiknast þad allra gledelegasta Ord, sem heyrdest af Frelsarans Munne i hꝏns Piinu; Þad allra vigtugasta Ord, sem finnst i þeirre H. Bibliu; Þad allra dijrmætasta og lijfkrostugasta Ord, sem nockurn Tijma hefur talad verid

Jaa, soddann Ord, um̃ hvert þad maa med øllum Retti segiast fierdeilislega, sem DRottenn JEsus vitnar um̃ øll sijn blessudu Ord almennelega, ad þau eru Ande, og þau eru Lijf, Joh. 6. Þau eru Kraptur Guds til eilijfrar Saaluhiaalpar øllum þeim, sem þar aa trwa, Rom. 1. So skulum vid nu, Saala miin, med hiartanlegre Andagt og gudrækilegre Eptirtekt yfervega þetta blessada Jesu Ord; og hvad Sonur Guds meint hefur, er hañ sagde: Þad Er Fullkomnad.

Þad er vitannlegt, miin Saal, ad almaattugur Gud wtgaf Fordum aa Fiallenu Sinai sitt haaleita og heilaga Logmaal, 2. Mos. 20. hvert hanns dijrdarfulla Haatign med hinu straangasta Riettlæte alvarlega skipar og bijdur øllum Monnum fullkomlega ad hallda, og fyrer utann nockurn Brest ad uppfylla; Þad wtheimter algiørt Riettlæte bæde hid innra i Saalunne og wtvortis aa Lijkamanum; Þad krefur fullkomens Heilagleika og heilags Fullkomlegleika bæde i Hugrenningum Ordum og Athøfnum; Þad bijdur ad Madur skuli, fyrer utann nockurn Brest, Yfverdrepskap edur Ofullkomlegleika, elska Gud af øllu Hiarta, allre Saal og øllum Mætte, og Naunganñ so sem sialfañ sig, 5. Mos. B. 6. Hver saa sem þetta giøre ad fullu og øllu Leite hallded, atte þar af ad lifa, 3. Mos. 18. Enn øllum þeim, sem i hinu minnsta þar wtaf briti, var hootad tijmannlegre, andlegre og eilijfre Bølvan, 5. Mos. B. 27. Nu var þad og er alldungis O-

mögulegt öllu syndugu Hollde, sijdann Adam braut, þessum heilaga Guds Riettlætis Vilia i þinu allra minnsta ad fullnægia, hversvegna Synda-Sekt allra Maña vard hin Obærilegasta; Þvi efter Guds Oumbreitannlegum Riettlætis Vilia atte Logmaaled algiörlega ad uppfyllast, eda ad ödrum Koste, allt Mannkyned eilijflega ad fortapast. Yfer þessa vora aumkunarlegustu Eymd og Neyd, leit hiñ eilijfe Guds Sonur JEsus synum blessudu Myskunar Augum, og þvi liet hann sig fæda i þeñann Heim, og giördest Logmaalenu underorpenn, so hañ frelsade alla oss, sem under Logmaalenu vorum, Gal. 4. Þesse JEsus hefur i vorn Stad og vor vegna fullnægt Guds Riettlæte, og gollded alla þaa Logmaalsins Skylldu, sem vier aattum ad gialda, med sijnu flecklausa Framferde. Þesse JEsus hefur fridstillt Guds Reide, og bored alla þaa Logmaalsins Bölvan, sem vier bera aattum i sinni sꝏru Pijnu. Nu hafde þad fyrerheitna Kvinnunnar Sæde sundurbroted þess helvitska Hoggorms, Diöfulsins, Höfud, 1. Mos. B. 3. og uns der eins giörst Fôorn og Forlijkun fyrer allrar Veralldarennar Synder, 1. Joh. 2. Nu hafde JEsus leyst oss fraa Bölvan Logmaalsins, þar hann vard Bölvan fyrer oss, so vier i honum blessader yrdum, Gal. 3. Nu hafde Gud giördt siñ Son ad Synd fyrer oss, þar hann visse ꝏ ecke af Synd, so vier yrdum i honum þad Riettlæte, sem fyrer Gude gillder, 2. Cor. 5. Þetta auglijser nu hinn

mikle

mikle Mannanna Elskare millderiikur JEsus full-
komlega framkvæmt og farsællega fullkomnad vera:
Gled þig þvi, Saala miin, hiartanlega i hæbl-
essudum JEsu Heilsugiafara þiinum, sem so hugg-
unarsamlega hefur a Krossenum til þiin talad, seg-
ande: ÞAd Er FUllkomnad. Fyrer þig er Log-
mæalsins Hliidne Fullkomlega golldenn; Fraa þi-
er er Logmaalsins Bolvan Fullkomlega burttekinn,
þier til Handa er Fullkominn Naad, Synda Kv-
ittun og Saaluhiælp afrekud og feinginn. Aller
Gamla Testamentisins Spaadoomar, sem hliiddu
uppaa þiina eiliifa Endurlausn, eru nu Fullkom-
lega framkomner. Oll Guds Naadar Fyrerheit
Kulu þier nu til æuarande og æskeleguſtu Blessun-
ar verda Fullkomed Jaa og Obrygdanlegt Amen,
2. Cor. 1. Ollu þessu villde Lausnare þinn JEsus,
miin Saal, opinnberlega yferliisa i sinne bitru Kv-
ol aa Krossenum haangande, og hartnær komenn ad
Dauda, til ad auviisa þar med, ad oll siin blessud
Forþienusta og Fullnægiugiord skyllde vera mier
liiskroftug Huggun i ollum miinum Eymdum, og
þad fegursta Glede-Lioos i miinu Andlaate. Ei-
liiflega lofadur siert þu, Lausnare minn, fyrer so
æskelega Blessan, sem þu hefur mier afrekad; Laat
guddoomlegann Krapt þiins fegursta Fullkomleg-
leika vera bliida Naadar-Boot og fullkomna Frid-
þæging fyrer alla miina Breste og margfalldann O-
fullkomlegleika. Þu hefur allt Fullkomnad mier
til Endurlausnar og eiliifrar Saaluhiaalpar; St-

 yrk

yrk mig og stioorna mier, Drottenn minn, ad eg i þiinum Otta fullkomne mitt Hlaup med Fagnaı Þijnu blessada Nafne til Lofs og Þocknunar og megi so behallda Trwnne og goodre Samvitsku allt til Æfiloka, 2. Tim. 4. Laat þetta þitt fagnadarrijkasta Lijssins Ord aa þinne Dauda-Stundu, styrkia miina veiku Trw, hughreysta mitt hrædda Hiarta, og gledia miina sorgmæddu Saalu aa miinum Andlaats Dege; Hroope þaa þitt Fullkomna Forþienustu Riettlæte Naad, Kvittun og Fridþægging aa moote miinu fordæmanlegu Synda Ranglæti, so eg fullkomenn og eilijfann Dijrdar Fognud megi hiaa þier hliota, Amen.

## 44. Pijslar Pæinke.

Siounda Ord Christi aa Krossinum.

Og JEsus kallade upp hærri Roddu i Annad Sinn og sagde: FAder! J PJJnar HEndur Fel Eg MJnn ANda.

Sa sem vill faa farsællega ad deya, hann skal kosta alls Kapps um gudrækilega ad lifa; Hver er sem lifer i Krapte JEsu Forþienustu riettlaatur fyrer Drottne, hann deyr eirnenn i JEsu Nafne eilijflega sæll og blessadur i sijnum Gude, Opinb. B. 14. Þetta ætte ad upporfa sierhvern Christenn Mañ til ad hafa sem optast i Huga og Miñi

bloodugann JEsu Krossins Dauda, og sierdeilis þau blessudu Ord, er hann talade under sitt signada Andlaat, þvi þar inni finnum vier bæde lagdañ hiñ beinsta Veg til ad lifa heilogu Guds Barna Lijfe, og lijka giefed þad besta Medal til ad deya Riettlaatra Maña Dauda: FAder, J ÞJJnar HEndur Fel Eg MJnn ANda.

Af þessu Siounda og sijdarsta Lausnarans JEsu Lijssins Orde aa hanns Dauda-Stundu, skallt þu, christenn Madur, med sannre Gudrækni siaa, læra og yfervega. 1. Ad Frelsarenn bæde byriade sijna bitru Kvøl i Grasgardinum, og endade lijka sitt blessada Lijf aa Krossenum med þvi ad aavarpa Gud med þvi elskufulla og gledilega Fodurs Nafni; Viliande þar med kienna þier, christenn Madur, ad þu i allskonar uppaafallande Mannraunum, og einkum i hiñe sijdurstu Daudans Neyd, laater þad vera þijn helgstu og gledilegustu Urrædi, ad upphefia þijn Trwar og Bænar Augu i Himinenn til þess mikla Myskunsemdaña Fodurs og milldasta Guds allrar Huggunar, sem bæde hefur Viliann og lijka Maattenn, til ad hugga þig i allre þinne Hrygd, og biarga þier i øllum þijnum Baagiendum, aa hvers Liknar Naader þu maatt flija med oruggu Trwar-Trauste, og nefna hann þinn Giædskurijkann Fodur; Þvi JEsus hefur giefid þier Magt Guds Barn ad vera, Joh 1. JEsus blygdast ecke vid ad kalla sig þinn Broodur, Ebr. 2. og nefna sinn himneskann Fodur lijka eiñ-

iñ

inn þinn Fødur, Joh. 20. Þocknest nu þessum þinum haablessada Hiartans Fødur ad leggia þier Krossenn aa Herdar, þaa laat þad vera þier eilijfa Huggun; ad ef þu ber hann med ydrande audmiuku og þoliñmoodu Hiarta; þaa frambijdur Gud sig þier so sem Barne, Ebr. 12. Þaa maattu vera vissastur um giædskurijkt Guds Faderne og þiñ gledelegann Barna-Reett: Jaa, lijka sem Fadirenn er Bornunum lyknsamur, eins þaa vill DRottenñ Fodurlega Myskun og Medaumkan sina, Fodurlega Hiaalp og Hugsvolun senda bæde þier og ollum sijnum naudlijdande Barna-Skiepnum, Ps. 103.

2. Silner þier þesse blessada Lausnarans Andlaats Bæn; ad Saaleñ er Odaudlegur Ande, sem eitigenn kann Lijfe ad svipta, þo Lijkamenn hlioote andvana og ad kolldum Naa ad verda, Matth. 10. Eckert Raad giorde Lausnarenn fyrer Greftran sijns H. Lijkama, enn sinne blessudu Saalu saa hañ besta Farborda. Lær þad af DRottne þinum, O Madur! ad þu fyrer eingann jardneskañ Mun gleymer eda vanrækter ad bwa so med Poliñmæde og goodum Verkum i Veg fyrer Saalu þina, ad henne sie i Fride og Vingan DRottens tiimannlega og eilijflega vel borged; Giær þess, ad aller jardnesker Muner eru so sem faaniitt Hey og fallvallt Hiegoome, Es. 40. sem ad eingu verdur i Daudanum, enn þiin Odaudlega Saal skal bwa ad þvi eilijflega, hverninn þu hefur sied fyrer hennar

Naade hier tijmanlega; Laat þvi blessada Andlaats Bæn Lausnara þins kienna þier, christeñ Madur,

3. Hvar þu bæde æatt og kant ad siaa Sælunni fyrer Ohættum Samastad og øruggu Athvarse, nefnelega: J Naadar og Verndar Hondum þiins himneska Guds og Fodurs: FAder! J Þijnar Hendur Fel Eg Minn Anda. Enn þess ber þier vandlega ad giæta, ad ef þu villt ad Sælinn þijn eige vijsann æskilegann Hvijldar og Sælu Sama-Stad i Guds Hende, þegar hun skilur vid Lijkamann i Daudanum, þa siaa vel til, ad hun med audmiwkre Hlijdne og heilagre Þolinnmæde ligge under Guds Hende, æ so leinge sem hanns lyknarfullt Læanglundar Gied lijdur hana vid Lijkamann samteyngda hier i Heime; Laat þier, so sem Guds Bornum soomer, stioorna af Guds Naadar Anda, Rom. 8. Laat þig leida af Guds Naadar Hende; Laat þier undervijsa af Guds Naadar Orde; og bevara þad æ jafnañ i þiinu Hiarta, so þu syndger ecke vijsvitande aa moote Gude þiinum, Psal. 119. Þockneft Guds Hond ad hyrta þig, þa hrind henni alldrei fraa þier med nockre Obolennmæde, kyss helldur feginn aa hana med gudrækilegu Umburdarlynde, og laat þier gott þykia ad falla i Guds Hendur, þvi hañs Myskunseme er stoor, 2. Sam. 24. Þegar mannleg Hiaalp bilar og brestur i Heimenum, gleym þa ecke ad mæna þiinum Trwar-Augum uppaa maattuga og myskunarrijka Guds Hond i Himnenum, þoott hun legge þier

Þwnga

Þwnga aa Herdar, þaa vert viß um̃ ad hun styrker þig best til ad bera hann, Psal. 68. Guds Myskunar Hønder eingu sijdur tom aa ad græda einn særa, eingu sijdur flioot til ad lietta af Hørmungunum, helldur enn ad laata þær aa detta efter siinum Raadar Vilia, 1. Sam. 2. Miñst þeß, bæde ad byria sierhvern Dag Æfe þinnar fyrst aa Morgnana, og lijka ad enda hann seinast aa Kvølldenn, og þad af Hiarta og Alvoru, med þessare dijrmætu JEsu Andlaats Bæn: FAder, J Þ... nar HEndur Fel Eg MJnn Anda. Og nær þu þannig gudrækilegu breitir, medann þier er unnt ad lifa, þaa maatt þu vera þeß fullviß, ad Saalenn þijn mætir myskunarrijkre Adhiwkrun i þijns himneska Fødurs Raadar Hende, þegar þu aatt ad deya, þar mun hun af allre Mædu hægt hvijlast, ad burtvikenne allre Sorg fagurlega glediast, og i eilijfum Dyrdar Fognude faa ad siaa Gud Auglite til Auglitis fyrer utann Enda, 1. Cor. 13.

4. Er vel merkiande, ad Sonur Guds JEsus wtvallde siina siidurstu Andlaats Bæn af H. Ritningu, og took hana ordriett af þeß diira Guds Manns Davids Munne, Psal. 31. Lær þad af þessu Lausnarans Dæme, christenn Madur, ad þu bygger alldrei Bæn þiina a þvi holldlega og forblindada Hyggiu-Vite; Bid ætiid i Trwnne efter blessadre Guds Orda Reglu, Jac. 5. Bid i JEsu Nafne og efter hañs bliida Raadar Vilia, 1. Joh. 5. Vier erum so miøg af Holldsins Bernsku blindader, ad vier vitum ecke hvers vier bidium,

Matth. 20. Leitum þvi i Liifsins Orde DRottins ad þeim sanna Wiisdoome til ad bidia, so Gude mege vel liika, Jac. 1. og vier faaum i JEsu Nafne naadarsamlega Bænheyrslu.

O! minn Hiartans Giædskuriike Gud og Fader, eg grætbæne þig i þiins eingietins Sonar, miins blessada Broodurs JEsu, Naadar Nafne: Vert þu mier naadugur, lyknarfullur og myskunsamur Gud og Fader i Liise Dauda og Doome! Millderiik Hond þinnar fodurlegu Forsioonar vardveite mig fraa þeim breida Glæpa og Glotunar Vege; almættug Hond þiñar volldugu Verndar og Varatektar stydie mig og styrkie a þeim þraungva Liifsins og Saaluhiaalpariñar Vege; Miuk Hond þinnar guddoomlegu Hiaalpar væge og biarge mier þaa best, nær eg mist hef alla mannleg Adstod; A þiina hyrtande Hond vil eg feginn kissa med Saarlegre Undergiefne; Virdst þu blessadur best ad aalijta miina Eymd i fodurlegre Vægd og Myskunseme, Psalm. 25. Þiin Hiaalpar Hond sie minn Hlijfdar-Skiolldur og mitt Sigurvinningar Sverd! i miinu sijdarsta Dauda Strijde; Þiin Fodurs Hond taki þaa vid minne aumu Saalu, og innleide hana til eilijfs Liifs, so eg megi þa gladur hiedann i Fride fara. Feginn vil eg med Gudrækni geyma i miinu Hiarta þitt signada Andlaats Ord, miñ sætaste JEsu, sem þu talader a Krossenum, æ! Laat þinn H. Anda minna mig a þaa blessudu Bæn, allra sijdarst þaa eg skal deya i burt

wr Heiminum, Amen.

# 45. Pijslar Pꝏnki.

Um Andlꝏt Christi a Krossinum.

**Og sem hañ hafde þetta sagt, ad hneigdu Hǫfde, uppgaf hañ siñ Anda.**

Eckert ædra Elsku-Merke mꝏtti hin eilijfa Giædskann sijna oss syndugum Mønnum; Einginn addꝏannlegre edur Ogrijpannlegre Dꝏsemd kuñi a Himne edur Jǫrdu til ad bera, helldur enn þesse, ad hann, sem er bæde Gud og Madur i einni Persoonu, Madureñ JEsus Christur, 1. Tim. 2. Hvør ed sialfur er sannur Gud og þad eilijfa Lijfed, Joh. 5. Af Guds Naad vid mannlegt Kyn smackade hann Daudann ǫllu daudlegu Mannkyne til Lyknar og Lijfgiafar, Ebr. 2. Gudleg Sanninde eru þad ad vijsu, sem S. Paall seger, Rom. 6. ad Verdlaun Syndarinnar sieu Daudeñ; Og med þvi Syndenn, sem er Daudans Broddur, 1. Cor. 15. hafde sært og helstungid bædi Adam og alla hanns holldlega Nidia, þaa var sa Dauda-Doomur af DRottens strꝏnga Riettlæte epter ǫllum Maklegleikum yfer þeim uppsagdur, ad sierhvør, sem syndgar, skule vissulega deya, Ezech. 18. Enn soddann Sakferlis Doomur ꝏtti eingañ veginn heima hiꝏ þeim saklausa og sannh ilaga JEsu, hver ed ꝏn allrar Saurgunar var gietinn og fæddur, ꝏn allrar Saurgunar lifde og doo hinn fegur-

ste Lioome Guds Dyrdar, og riett Imynd hanns guddoomlegu Veru, Ebr. 1. Saa er alldeilis einga Synd giorde, og ecke voru nockur Svik fundiñ i hanns Munni, 1. Pet. 2. Hvar fyrer hefur þaa hinn heilage og trwe Guds Bioon so harda Kvala og Dauda Refsing lided, hann sem þo alldrei til nockrar Refsingar unnid hafde? DRottens Andi leisir hvad liooslast wr þeirre Spurning, fyrer Muñ Spaamañsins Esajæ, C. 53. segiande: Ad fyrir vorra Misgiorda Saker sie hañ særdur, og fyrer vorra Synda Saker lemstradur, þvi DRotteñ hafe i stad ollum vorum Syndum uppaa hann. O! sia hier, min Saal, med Hiartans Glede og gudrækilegre Forundran; hvilijkann Kiærleika Gud hefur haft til þijn, 1. Joh. 3. JEsus hefur saklaus i þinn Stad Straffed lided, hann hefur siaalfviljugur þijn vegna Daudañ smackad, so þu sem hafder til Straffs og Dauda unned, skyllder i honum hafa Lijfed og fullkomna Naadar Nægd, Joh. 3. O HErra Gud! hvad var Madurinn þess, ad þu so minntest hanns, og Mannsins Barn, ad þu so vitiader þess? Psalm. 8. Eg var, vegna minnar Yfirtrodslu og Bodorda Brots, sakfallenn fyrer almaattugum Gude, og hafde forskulldad fyrer Ogn Daudans i eilijfre Angistar og Kvala Prælkan halldenn ad vera, Ebr. 2. Logmaaled augliisser minna Synda Verdlaun, Rom. 3. Verdlaun Syndarennar er Daudenn, Rom. 6. Epter Daudann kiemur Doomurinn, Ebr. 9. Doomureñ

ur-

urskurdar Straffed, Straffed varer um̃ alla Eilijfd, Eilijfdenn, sem alldrei endast giører Kvalernar hvad Ognarlegastar og Obærilegastar.

Ef þad mætti segiast, ad Løgmaaled hefde nockurn Tijma mis-gaad sijn, þaa hefur þad skied hier alleinasta einusinne, þar ed þad fellde Doom yfer siñ eiginn DRottenn og HErra solætande: Ad sa skyllde vera bølvadur, sem aa Trie hanger, 5. Mos. B. 21. og i Krafte þessa Dooms dyrsdest Daudenn ad vega ad sialfu Lijfenu; Enn losadur sie Lijfsins Høfdingenn JEsus, sem svipte Daudann sinne Magt, enn leidde i Lioos Lijfed og Odaudlegleikann, 2. Tim. 1. JEsus hefur borgad þaa Sekt, sem Løgmaaled af mier heimte; JEsus hefur sundurbroted þann Brodd Kvalanna, sem Daudenn ad mier otade, JEsus hefur deydt þann eilijfa Dauda, sem minne Samvitsku Ognade. J Krapte JEsu Dauda er miñ Daude fyrer Orottne dijrmætur, Psalm. 116. enn mier kiærkomenn og gledelegur; Daude, hvar er þinn Broddur? Helvijte, hvar er þinn Sigur? Gude sieu Packer, sem oss hefur Sigurenn giefed fyrer JEsum Christum, 1. Cor. 15. Nu er Daudenn ordenn øllum Guds Børnum gledelegur Jñgangur til þess eilijfa Lijfsins og ækelegur Blessunar Abate, Phil. 1. Ecke nær nu Daudans Magt leingra yfer øllum Guds Elskendum, helldur enn til ad skilia Saal og Lijkama hvert fraa ødru; Lijkameñ leggst med Fride i Svefn-Herberge Grafarennar,

Es. 56. enn Sælenn verdur flutt med Fögnude i fagrañ Abrahams Fadm eilijfrar Sælu, Luc. 16. O minn lyknärfulle Lausnare JEsu! Læt guddomlegann Rædar Krapt þijns dijrmæta Dauda þrimpa inn i mitt Hiarta, mier til gudrækilegrar Betrunar medann eg life; Mier til eilijfrar Huggunar, þegar eg a ad deya! Gief ad eg deyddur fra Syndenne, æstunde ad lifa Gude, Rom. 6. so eg vid Gud fridþægdur, sie og verde hanns bæde Lijfs og lidenn! Þu hneigder þitt blessada Hofud a Krossinum i þijnu Andlati, hneyg þitt Hiarta til ad myskuna mier a miñe Dauda-Stundu! Gief ad eg sem optast gudrækilega hugleide og kuñgiöre þinn Dauda a medann eg life, so eg med Gledi megi upplypta mijnum Augum i Himinenn til þijn, og sia ad sia hunneskañ Liooma þiñar Dijrdar, þegar eg a ad deya! Æ! virdst þu, DRottinn minn, fyrer þinn dijrann Dauda, ad giefa mier goodann, gledilegann og farsælañ Dauda! Læt mitt Holld med Fride hvijla sætlega i Grofinne; Leid mijna Saal ur öllum Eymdum, og lofadu henni ad nioota eilijfs Fridar og Fagnadar i þijnu himneska Dijrdar-Rijki, Amen.

# 46. Piislar Paanki.

Um Teiknenn, sem skiedu i Christi Andlaate.

Og skal, ad Tialldid Musterisins rifnade i sundur i Tvo Parta fra ofanverdu allt nidur i giegnum, og Jordenn skalf, og Biorginn klofnudu, og Grafernar lukust upp, og marger Lijkamer Heilagra risu upp, þeir ed svafu, og geingu epter hans Upprisu i þa H. Borg og auglijstust þar morgum. Enn Hofuds-Madurenn, og þeir, sem med honum voru ad vardveita JEsum, þa þeir sau Jardskialfstann og þad hvad þar giordist, urdu þeir mióg Ottaslegner og sogdu: Sannlega var þesse Guds Sonur.

Þad er ecke skied af nockre Ovißre Hendingu, helldur Almættis-rijkre DRottins Raadstofun, ad so Dasemdar og Forundrunar-full Jard-Teyn skiedu i JEsu Dauda; Laatum ockur, mijn Saal, hyggia nockud framar þar ad med Andagt og alvarlegre Gudrækne, þvi þad er eingu sidur enn onnur Guds Verk uppteiknad, ockur til Lærdoms og Vidvorunar, 1. Cor. 10.

1. Merkium vid, ad Jordenn hafe skolfed, og Biorgenn klofnad i JEsu Andlaate, lijka sem ad villdu þau bera Harm og Medaumkan yfir so hersklegum Kvolum og Dauda sijns DRottens og

Skapara. O! HErra Gud! viist maa þess syndugs Manns Hiarta vera hardara enn nockur Steirn, sem heyrer rædt um JEsu bitru Kvol og Krossens Dauda, enn viknar þo eckert þar vid, helldur skiemter sier aungvu ad siidur vid Syndarennar Glaum og Giaalijfe Veralldarennar. Eda maa þad ecke þikia hinum stærstu Undrum sæta, ad su þwnga Jord skalf og hristest, þau hordu Biorg brustu og klofnudu i JEsu Dauda, hverium þau voru þo i aungvann maata ollande; Enn su vesæla Manneskia, sem þo er Molld og Aska, hefur aungva Angurs Tilfinning vegna Illgiørda sinna, fyrir hverra skulld DRottenn Dijrdarennar var so herfelega krossfestur, og Hofdinge Lijfsins so aumkunarlega deiddur, Post. G. B. 3. Hvernenn maa soddann Hiarta, sem er hardara hverium Steine, og vill sier ecke umvenda, Jer. 5. Hvernenn maa þad hafa nockur Naadar Not af himneskum Daggar-Dropum HErrans JEsu Pijnu og Dauda? Minn Gud mykune mier, og take naadarsamlega burt fraa mier Stein-Hiarta Ogudlegs Andvaraleises og Forherdingar, enn giefe mier kiotlegt Hiarta sannar Audmyktar, og gudrækelegrar Yfirbootar! Ezech. 36.

2. Er þad merkelegt, miin Saal, ad hid innra For-Tialld Musteresins, sem var i mille þess heilaga, og allra helgasta, 2. Mos. B. 26. Rifnade sundur þegar DRottenn doo aa Krossenum, til, ad sijna þar med, 1.) ad nu skyllde til fulls endast

og

og af takast Logmalsins Fyrirmyndaner, hinn Levitiske Kennemanns skapur og konungleg Stioorn Gydinga, sem allt voru Skugge og Skiöla þeirra himnesku Nadar og Blessunar Giæda, hver nu voru fyrir Lausnarans JEsu Kvol og Dauda oll- um Monnum auglijst, afrekud og fram bodenn til eilijfrar Mykunar og Saaluhialpar. Inn fyrir þetta For-Tialld Mustereſins maatte eingenn ganga inn i þad allra helgasta, nema saa ypparste Prestur einu sinne a Are, 3. Mos. B. 16. Þesse Skiöla rifnade sundur i JEsu Dauda, 2) Til ad siina, ad nu være hryggeleg Hindran Syndanna Sektar og Saurenda, sem bægde oss daudlegum Monnum fra DRottens Helgedoome, fyrir Je- su Dauda, olldunges ur Vege tekenn, en ollum þeim, er þiggia vilia og kunna, frambodenn frij-op- enn Tilgangur, og hindrunarlaus Blessunar Vegur, fyrst til hins andlega Helgedooms þeirrar strijdande Guds Kyrkiu hier i Heime, hvar ed dijrdleger Hluter DRottens Nadar og Blessun- ar verda i Guds Borg Guds Bornum predikad- er og frambodner, Psalm. 87. Og ad sijdurstu hafe JEsus med sijnum Dauda opnad ollum sijn- um trwudum Elskendum fagra Fridar-Braut i giegnum Daudann inn i eilijfann Dyrdar Helge- doom hinnar Sigre hroosande Guds Christne i Himnenum, hvar ed vera mun Gnoott Fagnad- arens, og gledelegt Lijferne til Guds hægre Hand- ar eilijflega, Psalm. 16.

3. Vitnar Historiann, ad fyrir Guddoomlegann Lyknar og Lijfgunar Kraft JEsu Dauda, hafe Grafernar upplokest, og marger Likamer heilagra rised upp, til eins gledelegs merkes þar um, ad i JEsu Dauda være Daudenn uppsvelgdur i Sigur, og ad hann deyande hefde hvad best orded allra sinna Barna Lijf, og giört þeim Daudañ ad besta Blessunar Abata. Enn þad er fierdeiles merkelegt, mijn Sæl, ad þaa hid fyrsta, þegar JEsus var upprisenn, opennberudust eirnenn þeir heilögu Guds Viner, sem i DRottens Dauda hösdu endurlifnad, þvi hier giördest Guds Sonur hinn fegurste Frum-Groode þeirra framlidnu, 1. Cor. 15. Og hefur so þar med afrekad öllum sijnum blessudum Börnum sæluhiaalplega Endurlausn og Sigur-rijka Uppprisu ur Gröfunum aa sijdarsta Deige til eilijfrar Dyrdar og Sælu aa Lande lifande Mañа.

4. Auglijstest hier guddoomlegur Dæ[illegible]semdar Kraptur JEsu Dauda aa þeim heidna Hofuds Manne, og öllu þvi Foolke sem horfde aa þesse furdanlegu Stoormerke, og hlaut med hræddu Hiarta og nagande Samvitsku ad jaata JEsum ad vera riettlaatann og sannheilagann Guds Son, hverium þeir höfdu þo skomu aadur, so sem hinum argasta Glæpa Manne utskrofad, og næsta hrapаrlega ofkad Kvala og Krossens Dauda. Varast þu, O Madur! af þessu Dæme, ad rasa nockurn Tijma fyrir Raad fram i Athöfnum þijnum

og

og Aliktunum, þvi margur giører þad ſkama Stund, ſem hann maa leinge ydraſt epter; Høndla þvi jafnann i Guds Otta med ſkynſamlegre Umþeinkingu, ſo þu ecke, ſem diarfur Daare, ſteiper þier i Angiſt og Olucku, Ordsk. 15. O! minn hiartkiæraſte Lauſnare JEſu! þu ſem aa Kroſsenum deyande uñwendter þeim heidna Høfuds-Manne til ſannrar Ydrunar, og þinar Saaluhiaalplegu Vidurkieñingar; Virdſt þu, O Drottenn miñ, ſem nu ert i Himnenum eilijflega rijkiande, ad ſkapa i mier hreint Hiarta i ſañre Ydran og Umvendan! virdſtu ad efla med mier nijann ſtødugann Anda i ſaaluhiaalplegre Trw, og gudrækelegre Lifnadarens Betran, ſo eg bæde i Lijfe og Dauda meige hiaa þier Frid og Myſkun fiña, Amen.

## 47. Pijſlar Pinki.

Um Chriſti Kunningia.

EN aller hanns Kuñingiar ſtoodu laangt fraa, þar voru og margar Konur, ſem ſaau þar uppaa aaleingdar, medal hverra var Maria Magdalena, og Maria hiñs litla Jacobs, og Joſes Mooder, og Salome Mooder þeirra Zebedæi Sona, þær hønum høfdu epter filgt þaa hañ var i Galilæa, og þioonad hønum

um, og margar adrar, hverjar med hønum høfdu uppfarid til Jerusalem ur Galilæa, og horfdu aa þetta.

JAfnvel þoott eirn tryggur og falslaus Vinur sie su besta Eign, og hinn kostulegaste Diir-Gripur sem finnast maa hiaa syndugum Mønnum Syr. 6. Þaa er hann þo reindar, eins og øll vnnur Jardnesk Giæde, fallvalltur og fæniitur Hiegoome, Pred. 1. Eirn triwfastur Vinur er ad sonnu trugg Vernd alla þaa Stund, sem Madur lifer, Syr. 6. Enn nær hinn kallde Daude kiemur ad Hondum, þaa maa eingenn Verolldar Mañaña Vinætta framar hiaalpa; Þaa bliootа øll Jardnesk Lijfsins og Luckuñar Giæde, so sem Gusa, ad hiadna og hverfa i burtu, Jac. 4. Aller Lausnarans JEsu Viner og Kunningiar horfdu med harmande Hiarta og grætande Augum uppaa hañs blessada Lijkama allsnakenn, alsærdañ og andvana aa Krossenum hangande, enn gaatu þo ecke adgiört, nie honum nockra Hiaalp audsynt. Latum ockur minn Saal af þessu Dæme ockur til gudrækelegrar Eptertektar læra og athuga:

1. Hversu fæniitt og fallvallt þad er, ad setia of-mikla Von uppaa Verolldar Mannaña Vinfeinge og Adstod, sem bregdst og bilar þaa helldst, nær mest aaliggur. J adþreingiande Lijfsins Eymdum kann ad viisu eins Vinar Hond nakvæma Adhiwkrun og Hiaalp ad veita, enn ur

Dauda

Daudans Bendum megnar ecke eirn Brooder ãñann ad leisa, Psalm. 49. Þaa er øll mañleg Hiaalp ute, og hliitur med Hrygd og Harme ad laata vid so bwed standa. Siaa þvi vel til, Saala mijn, ad þu eiger giædskurijkann Gud fyrer Vin, þvi hanns Vinar Hiarta vill þier alldrei gleyma; Hanns Vinar Hond þier alldrei sleppa. Vilier þu, O! Madur i DRottens Fride deya, þaa kappkosta i hanns Vingan ad lifa; Viñ þad alldrei fyrir Veralldar Mannaña samiitt Vinskinge, ad abla þier med viijsvitande Glæpa Ydiu eilijfraar og obærelegrar Guds Obliidu; Halltu med helgre Trw og hreinferdugu Liiferne hiartanlegann og hræsnislausann Viñskap vid þinn mattugasta og milldasta Astvin JEsum, sem þig hefur elskad, og vill elska allt til Enda, Joh. 13. Elskadu ecke Heimenn, nie nockud þad illt og Oguðlegt sem er i Heimenum, 1. Joh. 2. So þu briooter ecke af þier Ast og Naad þiins besta Astvinar JEsu i Himnenum; Hanns Hond hiaalpar þier best, þegar øll mañleg Hiaalp er ute; Hañs Hiarta elskar þig heitast, þegar øll Heimsins Elska mæa ecke leingur duga; Þoott Mooduriñ forgleyme siinu Barne, so hun siaae ecke aumur aa Afkvæme siins Kvidar, þaa kañ JEsus ecke, og vill ecke gleyma þier ad eiliifu, þvi þu ert teiknadur i hanns Hondum.

2. Lærum vid þad Saala mijn af þessu Dæme,

ad þeir sem JEsu voru hvad nærteingdaster i Ellf-
unne, voru honum og hvad nalægaster i Piin-
uñe, og so geingur þad til enn nu i Dag, ad Christs
Born eru Kross Born; Ef þu villt so sem
JEsu Astvin una þier vid hanns Elsku i þijnu
Hiarta, þa hlijtur þu so sem JEsu Læresveirn ad
bera hanns Kross med Polennmæde hier a Jörd-
um, Luc. 14. Og eru þad reindar aungver Ok-
koster; þvi under eins og JEsus leggur a þig Kr-
ossens Þwnga, under eins giefur hann þier St-
yrk og Krapta til ad bera hann, Psalm. 68. So
miked sem þu verdur under JEsu Kross Byrde
þiaadur og þiakadur, so kroptuglega verdur þu
lika af JEsu Nadarrijku Hiarta Giædsku gla-
ddur og endurnærdur, 2. Cor. 1.

3. Er vel merkiande, ad jafnvel þo Jesu Astvin-
er hafe staded nockud langt fra hanns Krosse,
hafa þeir þo aller sameigenlega haft fulla Sioon a
hanns bloodugu Piislar-Mind. O! komed i
DRottens Nafne, þier christnar Saaler, og lijted
sem optast ydar andlegum Trwar, Bænar, og
Elsku Augum uppa ydar krossfesta og blessada
Lausnara JEsum; Þvi hvormulegar sem ydar
Synda og Sorga Neyd særer og angrar ydur,
þvi kroptuglegar mun blessud og bloodug JEsu
Piislar Mind lækna og lyfga ydar Gied og Siñe.
Ef ad þier erud þiaadar og þreittar ordnar under
ydar þwngu Synda og Eymda Byrde, þa vited
ad JEsu svijdande Saar er ydar hægasta Hvil-
dar-

dar Sæng; Hanns fossande Blood-Dropar ydar sætasta Svala-Lind; Siaid hverju hann bar ydar Krankdæme og ydar Pijnum hlood hann uppa sig, Es. 53. So hann bæde villde og kynne þess mysmunsamlegar ad hafa Medaumkan med ydar Eymdum, Ebr. 5. Sie ydar Samvitska særd og kramenn af Syndaña Tilfinningu, O! horfed þa beint a blessadañ JEsu Blood-Fadm, þar finned þier ydar fullkomna Synda Beot og saluhiaslplega Naadar Lækningu; Siaid hvad þrongt ad Hegningenn hefur a heilogum JEsu leiged, so þier, sem af Syndenne særderarud, skyldud hafa Fridenn, og fyrir hañs Beniar heilbrygder verda, 1. Pet. 2. Sierhver medal Israels Barna, sem leit þann uppfesta Eyrorm i Eydemorkuñe fordum, vard af eytrudu Hoggorma Bite og brennande Plagu gledelega læknadur, 4. Mos. B. 21. Hverju banvænt sem þitt Synda Saar kann ad vera, þu ydrande Sala, þa er þier handvijs himnesk Naadar Lækning, þegar þu mæner Augum aud:mjwkrar Trwar uppa þinn a Krossenn festa Endurlausnara og Saluhialpara JEsum; Þu munt ecke fortapast i þijnum Synda Meinum, helldur finna himneska Heilsu Boot og hreppa ad. Lyktunum eilijft Lijf, Joh: 3. O! minn elskulegaste JEsu! eg vesæll Syndare, mæne nu, so sem aleingdar og i Fiarska verande, minne Hugskots Sioon uppa þinn blessada Bloodfadm, so sem þu hieckst fordum a Krossenn

um; Uppliis þu DRottenn miin dopru Trwar og Vonar Augu, ſo eg meige horfa a þitt Myſkunar Hiarta og finna þar af Lykn og Læknjng, þar ſem þu ſitur nu j Himnenum! þegar eg ſie miin roinu Synda Kaun, þar ſviidur miinu Hiarta med ſarre Angurs Tilfinningu, æ! lofadu mier Lauſnare minn, ad liita i Trwñe þiin bloodugu Piiſlar Saar, ſo eg meige finna þar af bleſſada Meina Boot og Myſkunar Smurningu! læt alldrei Synder miinar ſkilia ſo langt a mille miñ og þiin, ad eg, i miinu Synda Bole, miſſe andlegrar Siionar a Saarum þiinum. Hiaalpa mier til ad heita og vera þinn Vin og Kunninge minn JEſu! ſo þo Liif mitt og Saal vanmegneſt, meige eg ſamt una mier vid þiina Aſt og Millde. Eg fel mig, med Saalu og Liikama, og alla miina, i Vernd og Skiool þinnar Elſku og Myſkunar; Læt mig i Liiſe og Dauda finna þar inne oruggt Naadar Hæle, og ofallvallt Lyknar Skiool, allt þar til eg fæ til fulls ad una mier vid þiina Elſku i eiliifu Liiſe, og þu minn JEſu verdur mier þar allt i ollu, Amen.

## 48. Piiſlar Palki.

Uñ Chriſti Siidu-Saar.



NN Gydingar med þvi þad var Adfaanga Dagureñ ſo ad Liikamarner være ecke a Kroſſenum uñ Sabbaths Dageñ (þvi ſaa ſame Sabbaths Dag-

ur var mikell), þaa bædu þeir Pilatum, ad þeirra Bein brited og ofantækest. Paa komu Striids-Meñerner, og brutu sundur Bein hinns fyrsta, og so þess aññars, sem med honum voru krossfester. Eñ þaa þeir komu til JEsum, og saau ad hann var alla reidu daareñ, þaa brutu þeir ecke hañs Bein, helldur opnade eirn af Striids-Moñunum hañs Siidu med Spioote, og strax þaa rañ þar ut Blood og Vatn. Og saa er þad hefur sied ber þar Vitne uñ, og hañs Vitnesburdur er sañur, og hañ same veit þad ad hañ seiger satt, so ad þier og so trwed. Þetta er skied, so ad Ritningarnar uppfylldust: Eige skulud þier briota nockud hañs Bein. Og eñ aptur seiger oñur Ritning: Þeir munu siaa hañ, i hvorn þeir stwngu.

J fyrstu meigum vid, Saala miin, med gudrækelegre Forundran rekia hier Spor dijrdarfullrar DRottens Speke og daa samlegrar Raadstofunar, sem ecke villde liida Heiptar Frekiu hinna gudlausu Striids-Manna ad briota i sundur Bein i andvana Lausnarans Lijkama, so ad bæde fyllde Fyrirmindan Paaska Lambsins, hvers

Beinecke mætte briota, 2. Mos. B. 12. Og lijka Spadoomur Zachariæ, Cap. 12. Um Lausnarans Sijdu Saar, auglioosslega rætast og fagurlega uppfyllast. Þanneñ lijta hin alskignu DRottens Augu yfir þaa riettlaatu bæde lijfs og lidna; Hann ber millderijka Myskunar Umhyggiu jafnvel fyrir þeirra andvana Lijke, og lifflausu Beinum, so þoott þau, epter Edle syndumspilltrar Naatturu, verde aptur ad Molldu hvadañ þau eru afkomenn, þaa forvarar þo DRottens Naadar Forsioon þau so dæsamlega ad ecke ert af þeim brotnar; eda olldungis tortijnest, Psalm. 34. Oll faa þau i Fride ad hviila, þar til þau, med fagre Dijrdar Forklaran, skulu til eilijfrar Vegsemdar upprijsa og endurlifna, 1. Cor. 15. O! hvad gott og gledelegt er þad, fyrir Guds Born bæde deyande og lifande, ad falla i Lyknar Hendur DRottens, 2. Sam. 24. Haaleitlega lofud sie hanns mikla Myskun ad eilijfu!

I odru lage merkium vid, Saala mijn, ad lijka so sem almaattugur Gud af Sijdu hins sofnada Adams i Alldengardenum, dæsamlega myndade, og sijdann gaf honum eina frijda Konu og fagra Brwde, hveria hann af Svefne aptur uppvaknadur, sæmde med þvi veglega Nafne, ad hun skyllde Karliña kallast, þvi hun være af Karlmanne komeñ, 1. Mos. B. 2. Vidlijka virdest mier, ad hinn añar Adam, og hæblessadur Himnaña DRottenn JEsus, i sijnu signada Andlaat

lærte a Krossenum sofnodur, hafe af siinu opnada Siidu-Saare, og þadan utrunu Bloode og Vatne, tilreidt sier diirdlegan Sofnud sinna heilögu og blessudu Barna, og trwlofad sier þau, so sem andlega Brwde, i Naad og Myskun, i Riettlæte og Doome, Os. 2 Og þar hann blessadur, af brennande Kiærleik til þessarar Brwdur sinnar, hafde nu daaed fyrer hennar Synder, uppriesed henne til Riettlætes, Rom. 4. Og var med Guddoomlegre Hægtign til Himna uppfarenn, fieck hun þann ypparlega Æru Titel, ad nefnast CHRISTne epter siinum blessada Brwdguma Christo, Post G. 11.

J þridia maata maa siaa hier og finna fagra Merking þeirrar heilögu og blessudu Skiirnar. Af JEsu Siidu utran Blood og Vatn a Krossenum; J JEsu Nafne, og af sinne einskiærre Naad og Myskun, giörer Gud oss saaluhioolpna fyrir þaa heilögu Skiirnar Laug, Tit. 3. J hverre vier verdum adreisder þvi naatturlega og jardneska Vatne, sem vor Liikamans Augu siaa, enn þar under eins sær vor andlega Trwar Sioon ad liita, vor andlega Trwar Hond ad medtaka Guddoomlegann Blessunar Krapt þess dyra JEsu Bloods, sem drypur yfir oss, i og asamt med Skiirnar Vatnenu, til ad þvo oss af vorum Syndum, og giöra oss til andlegra Konunga og Kiennemanna fyrir Naadar Auglite vors himneska Guds og Fødurs, Openb. B. 1.

J fioorda mæta vilium vid, Saala miin, med sañre Gudrækne forlista ockur enn framar med andlegre Yfirvegan þess opnada JEsu Siidu Saars a Krossenum. Maklega meigum vid Sancte Thomam sælañ priisa, sem sinne veikre Trw til veglegrar Styrkingar, fieck Leife til ad þreifa a Frelsarans JEsu Saara Drum, Joh. 20. AE! ecke munt þu helldur banna miñe þiaudre Saalu, miñ blessade JEsu! sijnum daupu Trwar Augum a þau ad horfa, mier til Saaluhiaalplegrar Glede og Hiartans Huggunar. Allañ Mottul sins heilaga Lijkama hafde Lausnarenn adur laugad i Bloode, 1. Mos. B. 49, Sem af ollum hanns opnudu Saarum og sundur flakande Ædum utflooda og streimdu til fullkomennar Fridþægingar ollu syndugu Mañkyne; Eñ so eg mætte þess augliooslegar siaa og sanna miins JEsu elskuriika Astar Þel til miin, þa villde hann blessadur ecke helldur laata vera, oskærdar siinar heilogu Hiarta Ædar, til glédelegs og obrygdanlegs Merkes þar uñ, ad hanns Myskunar Hiarta være sundurbrosted af Medaumkan yfir mier, Jer. 31.

Þar voru fordum opnar Dyr a eiñe Siidu Noæ Arkar, inn uñ hveriar milldur Gud baud ad Menn og Skiepnur skylldu ganga, til ad þiggia Lyf, Lausn og Frelse af þvi yferdyniande Ogurlega Vatns-Floode, 1. Mos. B. 7. Fyrir DRottens JEsu diirmætt Siidu Saar er hier Saal miin, og ollum Synndum þiaadum Vesalingum

nigum upploknar fagrar Liifsins og Naadar Dyr, innañ hvorra ockur verdur fra ollu Reide og Neydar Floode nærdarsamlega biargad, og ad eilijfu vel borged; JEsus skiiler ockur med siinum Myskunar Fiodrum, og ockar Athvarf er under hanns Verndar Vængium, Ps. 91. Gledelegt hefur þad vered fyrir Noa fordum, iñeluctañ i diñum Skugga, og diniande Vatns Bilgium uñkryngdann, ~ horfa giegnum Arkarennar Glugga upp til Himens og vænta epter siinu gledelegu Frelse, og fagre Soolarennar Birtu, 1. Mos. B. 6. Þuse undsiñum gledelegra er þad fyrir miina Syndaña Myrkrum uñkryngda, og af Sorgaña Bilgium hrakta Saalu og Samvitsku ad faa ad horfa giegnum oped JEsu Siidu Saar a Krossenum iñ i Naadlioomande Elsku Hiarta miins gooda og glædskurijka Guds og Fodurs i Himnenum; Þar sæ eg med Fognude ad liita, ad DRottenn er mitt Lioos og minn Heilsugiafare midt i miinum Hormungum, Psalm. 27. Og mun loksins leida mig ur ollum Synda Skugga og Angurs Bilgium iñ i blessada Sælu Hofn og biart Glede Lioos eilijfrar Himnanna Glede.

Þad var millde件rijkt DRottens Daadsemdar Verk, ad þegar Moyses sloo med siinum Staf a Steinenn i Horeb, þaa wtflaut þadann nooglegt Vatn, þiaadum og þreyttum Israels Bornum til heilnæmrar Svolunar, 2. Mos. B. 17. Miklu stærra Millde-Verk lifanda Guds skiede hier i Je-

su Piinu, þar ed sa himneske Faderenn hefur lost-ed siins Eingietins Sonar Hiarta med siinum Re-ide-Sprota, og læted hanns H. Siidu med Sver-de giegnum stijnga, til þess, ad hinir sætustu Lijfs og Blessunar-Straumar skylldu þadann wtflioo-ta ollum Nad-þyrstum Saalum til himneskrar Svolunar og lijfkroftugrar Endurlausnar. Wid þennann frij-opna Nadar-Brunnenn skal miin þyrsta og þiada Saal feginn þreya, þar mun JEsus gesa henne ad drecka Lijffins Vatn, sem i oll-um hennar Angistar Þorsta verdur henne Brun-ur sa, er flijtur til eilijfs Lijfs, Joh. 4. J þessar signudu Biargskorur þess blessada JEsu Siidu-Saars, Lofkv. 2. skal miin skielfda Samvitska sem optast flija, þar mun JEsus vera hennar Hiaalp-ar-Skiolldur, og nadarfull Verndan fra ollu Jllu. O minn lyknarfullaste Lausnare JEsu! Hier er kunnugast hversu herfilega mitt Hiarta er saurgad af Syndarennar Eitrinu, hreinsa þu þad og helga, DRottenn minn, med þijnu guddoom-lega Hiarta-Bloode! Þu þecker best hversu þiaad og mædd mijn Saal er ordinn under Symdanna Byrde; Eg grætbæne þig, O JEsu! endurnær hana og lijfga af þiinum sætasta Nadar-Brunne! Hiarta miins instu Ædar skulu þitt Nadar Nafn elska, vegsama; Hiarta þijns hei-logu Bloods ag Vatns-Straumar, virdest miina aumu Saal ad hreinsa og hressa, græda, aledia, og blessa! Hiartans eilijfar Packer og Odaudleg

Æra

Vera siingest hier og segiest bæde a Himne og Jördu um Tijma og Endalausa Eilijfd, Amen.

# 49. Piijslar Pænkt.

Um Christi Greftran.

Var eptir bad Joseph af Arimathÿa (hver ed var Lærisveiñ JEsu, þo heimuglegur fyrer Otta=Saker vid Gydinga) Pilatum um, ad hañ mætte taka nidur Lijkamañ JEsu, og Pilatus leyfde honum bad; Þa kom hañ og took nidur Lijkamann JEsu. Þar kom og Nicodemus, sa ed fyrr kom um Nott til JEsum, færande samblandada Myrru vid Aloe, nær Hundrad Punda. Þa tooku þeir Lijkamañ JEsu og sveipudu hañ i Lijne med dijrmætu Salve, so sem Gydinganna Sidur er til ad greftra. Eñ þar i þeim Stad, sem hañ var krossfestur, var Grasgardur, og i Grasgardinum nij Grof, i hveria eingiñ hafde eñ vered lagdur. Þangad løgdu þeir JEsum fyrer Saker Adfanga=Dagsins Gydinga, þviad sw Grof var nærri.

Ódæanlegt Glede og Blessunar Efni er þad fyrer ockur, miin Sæl, ad hugleida HErrans Je-

su heidurlega Greftran, þvi i þessum fagra Aldingardi spretta margar heilnæmar Himna-Jurter sæluhjalplegra Lærdooma, sem vid skulum med Gudrækni geyma.

1. Siaum vid hier vid JEsu Greftran þaa Gudhræddu Menn Joseph og Nicodemum, sem adur voru heimugleger JEsu Lærisveinar og þyrdu ecki ad laata sig opinberlega þar med merkia; Enn nu faa þeir nijann Dug og Odeiga Dierfung til ad augliisa fyrer ollum sitt Astar-Þel til hinns andvana JEsum, Þann Veg vill hinn naaduge Gud ecke wtslockva þann liitt-logande Trwar-Hor-Kveik, i Hiarta sinna blessadra Barna, Es. 42, helldur nærir hañ og lijfgar hinneskur Naadar-Krapture H. Anda, so þar af kviknar fagurt Trwr-Lios, og yndislegur Dygdanna Lioome bæde fyrer Gude og Monnum, Matth. 5. Hugge sig vid þetta veglega Dæme aller synduger, enn þoo sannydrande: Aller veiktrwader, enn þo riett-trwader; Aller hrædder, enn þoo gudlega hriggver DRottens Vesælingar. Samur er Gud i sinne Myskun eñ þaa, og hañ hefur verid; Gratbænum þvi hañs Naadar Giædsku, ad hann virdest ad styrkia vora veiku Trw; Nærum þetta dapra Lioos med yduglegre Eftirtekt og Yfervegan JEsu lijfkroftugu Orda; þaa mun hann blessadur best fyrer þeim bidia, so þeirra Trw þrotne ecke, Luc. 22. O minn giædskuriiki Kaste JEsu! Veit mier veikum Vesæling Krapt, epter Riikdoome þinnar Naadar, ad styrkiast

fyrer þinn Anda i sæluhiæplegre Trw, og sannri Hiartans Ast til þiin, sem opinnberlega megi hiaa mier siast og augliisast, þiinu blessada Nafni til Dijrdar, enn odrum til goods Eptirdæmis.

2. Mæ hier siaa og læra af soomasamlegre Lausnarans Jardar-Før, ad þad er eingannveginn milldum Gude aa moote, ad hanns framlidnum Astvinum sie veitt ærleg Greftran, Syr. 28. Guds Ande helgar og priider allra riett-Christenna Manna Liikame, so sem siin dijrmæt Mustere, med sinne Naadarfullre Ibwd aa medann þeir lifa; Þvi er þad vel verdugt, ad þeim sie nied Sooma og Ærru af þeim efterlifande veitt siw siidarsta Þioonusta þegar þeir deya, þo med goodre Stilling og i Guds Otta, þvi Ohooflegar Erfis-Dryckiur og annar hiegoomlegur Heidingia Sidur ætte ecke ad nefnast, miklu siidur brwkast medal vor christinna Manna, sem einkannlegast i soddann Eyrendum, ætlum sie ælfer ad gainga þrwngbwner med Daudans gudrækilega Hugleiding. Jaa, i hvert Sinn, sem þu, christenn Madur, sier nockurt andvana Liijk til siins siidarsta Legstadar borid, þaa skallt þu i Guds Otta hryggur vera, og hugsa til þess, ad so sem saa sami þinn Brooder hefur daaed, so bliitur þu eirnenn ad deya, Syr. 38. Þegar þu sier Liijked lææted ofann i Jordena, þaa imynda þier Daudann i Eyra þitt hviislande, ad skie megi þar sie varla eitt Foot-Maal millum þiin og hanns, 2. Sam. 20. og þu eigir faa Spor eptir framm aa Grafar-Backann. Vid

þvi

Þvi Gud med audmiwku Hiarta, ad kienna þier, ad hugsa um þinn Dauda og hwaſt vid honum r.ſ. ettilega, Pſ. 39. ſo þu megir i JEſu Nafni taka a mooti honum gledilega. Virdſt þu, mim goode JEſu! fyrer þiina heilogu Jardan, ad bleſſa og farſæla miina ſijdurſtu Utfor af þeſſum Eymda-Dal; Lat þar mitt andvana Holld med Æru i Grofina leggiaſt, Enn veit, ad Sælenn min verde innleidd i eilijfann Dijrdar-Frid og Fognud.

5. Giefſt hier ollum oſs daudlegum DRottens Veſælingum ylmſæt Huggun moot Daudans Ogn og Beyſkleika, þar ed Sonur Guds hefur lated ſig greſtra til Heidurs og heillaſømuſtu Bleſſunar allra ſinna Aſtvina ſijdurſtu Jardar-For. JEſu helgaſta Holld, ſem lagt var i Grofina, hefur ollum hanns helgudum Bornum helgad Jordena og bleſſad hana, bæde medann þau lifa a henne, og ſijka þegar þau ſkulu laatenn leggiaſt i hennar Skaut; Hann hefur giordt þeim Grofina ad gledilegu Svefn-Herberge, Molldina ad miwkre Sæng, hvar þeirra bleſſadur Lijkame, ſo ſem dijrmætt DRottens Korn-Sæde, ſkal i Fride geymaſt, þartil þad i Uppriſu Riettlaatra endurlifnar til eilijfrar Glede og innſafnaſt i Bindene lifande Manna hia Drottne Gude ſijnum, 2. Sam. 25. Gief þu mier, minn giædſkuriike Lauſnare, gudrækilega ad lifa, ſo eg mege gledelega deya! Gief mier ſo gledelega ad deya, ad eg i giegnum Daudann megi inngannga til eiliifs Liiſs Fridar og Fagnadar; Veit mier

sem Guds Barne i Grøfina ad leggiast, so eg sem Guds Barn megi aa siidarsta Degi fyrer Þiinum Doomstoole byrtast, Amen.

# 50. Piislar Pænki.

## Um Vardhallds-Mennena.

Og annann Dag, þann sem efter Adfaanga-Dagenn er, søfnudust samann þeir yppurstu Prestar aasamt til Pilatum og søgdu: Herra! Vær minnunst aa þad, ad þesse Svikare sagde, þaa er hann lifde: Epter Þriia Daga mun eg uppriisa; af þvi skipa þu ad forvara Grøfina, allt til hins Þridia Dags, so eigi komi hanns Lærisveinar umm Noott, og stele honum i burt, og sege Foolkenu, ad hann sie uppriisenn af Dauda, og verdi hin seirni Villann argari hinni fyrri. Pilatus sagdi til þeirra: Þar hafid þier Vard-Mennina, farid og forvarid, sem þier hafid Vit aa. Enn þeir geingu i burt, og forvørudu Grøfina med Vards-Mønnunum, og innsigludu Steininn.

Ognarlegt er umm þad ad hugsa, miin Saal, hverssu heitt ad Baal Heiptarinnar brennur i Mannsins Hiarta, þegar þad hefur ecke Guds Kiærleika

i ſier bliifande, Pad mai med ollum Riette þar um ſegia, ſem Poſtulinn Jacob vottar um vonda Tungu, ad þad er upptendrad af Helvijte, Jac. 3. Þetta mai liooſlega ſiai af Dæme hinna gudlauſu Gydinga, hverra Heiptar-Giede og Hiartans Illſku þad þookte ecke nægia, ad þeir hofdu hinn ſaklauſa JEſum ſo hryggelega kvaled og hormulega ütleikid i Liifenu, helldur laſta þeir lijka hans bleſſada Nafn og Minning i Grofinne. Varaſtu, O Madur! ſoddan Fijſliſku og forblindada Heiptræk-ne, ef þu villt vera Guds Barn og Vinur; Laſtadu alldrei nie lijttu Mollder edur Minning framlidenna Manna, fordaſtu þeirra vondu Vijte, ef þu veitſt nockur verid hafa, enn legg eingann Loſtunar edur Sakfellis Doom þar ai; Þvi hver ert þu ſem aihatlegann Þioon dæmir, ſai daude ſtendur y fellur ſiinum Herra, Rom. 14. Giæt þvi ſem beſt i Guds Otta ad þiinum eiginn Hogum, og hugſa til þeſs, ad DRottenn er ſai, ſem dæmir þig, 1. Cor. 4.

Gydingar þeinktu ad nidurþryckia og dempa Dijrd DRottens Uppriſu, med þvi, ad beidaſt Vardhallds-Mannana, ſem Grofina ſkylldu vakta; Enn þad ſama hefur DRottins alviiſa Raadſtoſun laatid hen̄i verda til liooſaſta Vitnis og viidfrægaſtu Vegſemdar; Þvi hefdu ecki Vard-Menner vered tilſetter hiai Grofinne, þa hefdu þeir haft ſtærri Ordſok til ad efaſt um Lauſnarans Uppriſu; Enn nu hafa þeir ſiaalfer berlega og augliooslega vitnad um allt þad ſem hiai Guds Sonar

Grof

Grof giordst hafdi, Matth. 28. so ecke gætu sialfer Kiennimenn Gydinga niðurþryckt þessum gudlega Sannleika. Þannmn Onijter almattugur Gud øll Svikrædi og Vielabrøgd Ogudlegra Manna, nær hønum blessudum so þocknast, enn Raad Drottins stendur stødugt ad eilijfu, hans hæleita Nafne til Odaudlegrar Vegsemdar, enn øllum hanns hiartkiærum Børnum til æskelegra Velferla og veglegustu Blessunar Nota, Psalm. 33.

Allra sijdarst leita eg aumur Vesælingur mijnu Hiarta og Paunkum Hvijldar og Huggunar vid Þijna H. Grof, minn hæblessade Lausnare JEsu! Þijn dijra Greftran er mier daudlegre Skiepnu sæt Svala-Lynd mooti Daudans Ogn og Ofbode. Þu blessada Guds Lamb barst mijnar Synder i þinne bitru Pijnu mier til eilijfrar Myskunar; Þu forlijkader mig vid Gud med þijnum dijra Dauda og borgader mijna Synda-Sekt mier til eilijfrar Kvittunar, þu afmader alla mijna Glæpe med þinne heilogu Greftran, og kastader þeim i Hafsins Diwp þinnar grunnlausu Myskunar, so þeirra Minning mun alldrei mier til maklegs Straffs, ad eilijfu uppkoma, Mich. 7. Þanng hefur þu, Drottinn minn, minne Ifertrodslu hamlad, mijna Synd innsiglad, minn Misgiorning forlijkad, og mier, æsamt øllum ydrande og trwudum Salum til æskilegustu Blessunar, þad eilijfa Riettlæti afrekad, Dan. 9. Lattu nu, DRottenn minn þin dijra Dauda deyda mijnar vondu Gyrnder! Lat

 þijna

þijna heilogu Greftran hylia mijna liootu Glæpe! Laat þyna diirdarfulla Uppriſu efla med mier aliſhaattada Gudlega Krapta, ſem til Lijffins og gudlegs Athæfis þiena, 2. Pet. 1. Gief ad Steinþroo mijns Hiarta, ſem þu hefur ſiaalfur med þijnum Naadar Anda tilbwed, ſie þier vel tilreiddur og þægilegur Bwſtadur, hvar inne eg megi veſia þig, minn Hiartans Brwdgume, i hvijtum Lijndwkum heilagrar Trwar, og ſmyria þig med ylmande Smyrſlum audmiwkrar og elſkufullrar Ydrunar. Hvijſt þu ſo, minn bleſſade JEſu, i miinu mædda Hiarta og Briooſte, og veit mier hæga Hvijld ad finna i þijnum miwka Myſkunar Fadmi! Laat þins H. Anda himneſkann Naadar Kraft innſigla þeſſa andlegu Steinþroo med oruggu og elſkufullu Trwnadar-Trauſte, ſo ad eg ſleppe þier alldrei; þangad til þu bleſſar mig med þinne diirdarfullu Naaviſt og æſkileguſtu Fagnadar Sioon i eilijfre Himnanna Glede! EJa VÆrum VJer þAr! EJa VÆrum VJer þAr! Enn þier, þu Lyknarfulla Lambed Guds, vor Lauſnare JEſu Chriſte! Sie Lof og Dijrd, og Spekt, og Packer og Heidur, og Kroptur og Stijrkleike fraa Eilijfd til Eilijfdar, AMEN.

* * * *
* * *

Vær:

# Bæn,

## Sem lesast maa epter Predikun aa Midviku-Dogum i Fostu.



Þu alleina goode Gud og giædskurlik-aste Myskunsemdanna Fader! Vier brotleger Syndarar, enn þo þiinar dyrkeypptar BarnaSkiepnur, kriupum i Dag aa Foot-Skør þiina, og segium þier med samstemande Hiarta og Munne audmiwkt Lof og innilegustu Astar Þacker fyrer þaa Ovidiafnnannlegu Raad og Ometannlegann Kiærleika, ad þu þyrmder ecke þinum Eingietnum Syne, helldur gafst hann wt til þess, ad hann skyllde liida þær saarustu Kvaler oss sekum Synda-Þrælum til Saaluhiaalpar og Myskunar. Æ! Hvernig maatti þitt Myskunar Hiarta taka saa nara til vor Synda-Þrælanna, enn so, ad þu lietst þad bitra Sverd þinnar Reide gaanga yfer þinn Eingietna Hiartans Son, i hverium þu hefur alla þiina Velþocknan, so þu mætter breida þin miwkan Myskunar-Fadm aa mooti oss, sem af Natturunne erum og vorum Oviner þiiner? Þu lietst hann borga þad sem hann ecke rænti, so þu giæfer oss kvitta þaa Obærilegu Synda-Sekt, sem vier ættum ad lwka; þu lietst hann saklausann liida þaa hryggelegustu Hegning, so vier seker mættum hiaa þier faa gledilega Naad og Fyrergiefning; Þu lietst hann lijda Kvaler og

Kroßsins Dauda, so vier skylldum ecke fortapast, helldur hafa þad eilijfa Lijfed! O HErra Gud! Hvad var Madurenn þeß, ad þu minntest hanns, og Mannsins Barn, ad þu vitiader þeß? Lofi þig þar fyrer Andenn vor, þu eilijfe Lyknar Brunnur, og allt hvad med oß er, þad Lof-sijnge þijnu Nadar-Nafni nu og ad eilijfu.

Æ Hiarta-goode Gud og Fader! Þu sem giörder so miked Miskunar-Verk a oß, þegar vier vorum þijnir Ovinir; Vier grætbænum þig fyrer þijns Sonar saaru Kvaler, apturloka alldrei fyrer oß þijnu Elsku Hiarta; Lat þijna foodurlega Millde og Myskun, Naad og Farsælld vara og vidhalldast yfer oß, sem erum fyrer þijns Sonar Dauda forlijkader vid þig. Lat þijna heitu Foodurs Elsku hræra þitt Hiarta til ad vægia oß og myskuna; Lat hana hræra vor Hiortu til ad Ottast þig og elska af Hiarta, til ad þioona þier og þocknast af ollum Kroft um alla vora Æfidaga, so einginn Hlutur sære oß fraa þinne Elsku skiled.

O vor hæblessade Brooder og hiartkiære Brwdgum, HErra JEsu Christe! Þu sem oß ert nu i þijnu H. Orde fyrer Augum asmaaladur albloodugur og alsærdur a Kroßsinum hangande, so sem ein Forn og Forlijkun fyrer vorar og allrar Veralldarennar Synder, med audmiwku Avarpe hiartanlegrar Elsku og Lofgiordar, Bænar og Andvorpunar kriwpum vier i Dag ad þijnum Krosse,

þu krossfeste og blessade Dyrdarennar Konungur!
Oss brestur Ordfæri, og Twngutak til ad vegsama
þann brennandi Kiærleika, sem þu hefur audsiint
oss, til ad viidfrægia þaa Naad og Saaluhiaalp, sem
þu hefur afrekad oss, til ad wtmaala þær bitru Kvalér
og Kvellingar, sem þu hefur lided vorra vegna.
Vier siaaum ad sonnu, med Taarum og Trega,
hverſu þijn blessudu Saar hafa vorra Synda vegna
verid boolginn og sviidande af Kvolinne, enn
vier vitum og trwum þoo, O Drottinn minn! ad þitt
blessada Brooðurs og Brwdguma Hiarta hefur
undireins heitt brunned og naakvæmlega sundurbrosted
af Elsku og Myskun yfer oss, af Lyst og Langun til vorrar eilijfrar Saaluhiaalpar. O JEsu!
Vier begium oss med Bligdan fyrer þijnum
Krosse, vier horfum med sundurknosudu Hiarta aa
moote þiinum Blood-Fadme, vier leggium vorar
Trwar og Bænar Hendur inn i þijn H. Saar og
Beniar. O HErra! Laat þaa saaru Hrygd og
Hormung, sem þu þolder, vera vora æskeleguſtu
Huggun og Harma-Boot bædi i Liifi og Dauda:
Laat þær sviidande Under, sem þu barst, vera vort
oruggt Naadar Athvarf og miwka Hviildar Sæng
i allri vorri Mædu og Eymdanna Erfidi; Laat þa
fossande Blood-Dropa, sem þu wthellter, hrlijna aa
vorum Saalum og Samvitskum til Synda Hreinsunar
og Svolunar, til Riettlætis, Helgunar
og eilijfrar Endurlausnar. O vor krossfesti og
blessade JEsu! Vier graatbænum þig; Gief oss

kwsann og falslausann Vilia: Auk oss gudelega og lifande Krafta, so vier lætum ævarande Minning þinna Dumræduleg Kroßsens Kvala krossfesta, deyda og dempa illar og Ostyrilatar Gyrndir vors spillta Holds og Blods, so vier alldrei med Vantrw edur Yfirunarleyse hetum þig, sem oss hefur so hiartanlega elskad, og burtoctum af oss þan Nad og Saaluhiaalp, sem oss er med so dijru Verdi afrekud.

O þu heilage og hæblessade DRottens Ande! gief oss ollum ad geyma og vardveita þau Lijfsins Ord, sem vier nu i Dag af Lausnarans Krosse heyrt hofum, i goodum og sidsomum Hiortum, og færa þar af Avoxt i Polennmæde. Lat þess krossfesta JEsu Minning, fyrir þinn Guddoomlegann Myskunar Krapt, innskrifast og þrickiast i allra vor Brioost og Hiortu, þijnu haaleita Nafne til Lofs og Dijrdar, enn oss til Saaluhiaalplegrar Trwarstyrkingar, til Gudrækelegrar Lifnadarens Leidriettingar, til timanlegrar og eilijfrar Blessunar. Bænheyr oss, þu blessade Gud, eirn i Þrenningu, og þrennur i Einingu, hædst lofadur og hiartanlegast vegsamadur nu og ad eilijfu, Amen.

## Priu Psalm-Vers,

Ordt af Saal. Sr. Halldori Hallssyni.

Ton, Heyr mig JEsu Lækning Lijda, etc.

Kisse

KIsse eg JEsu Kvala Under, klaarum Trwar Munne þo, Angist hanns og Eymdar-Stunder, eilijfann mier Fognud bioo, bætte hann fyrer Misgjørd mijna, mig kann Diøfull ecke ad pijna, Fiandans Hlecker fiellu af mier, fyrer þad JEsu þacka eg þier.

Eg vil bijda, eg vil þreya, Unda Flood þitt huggar mig, eg vil lijda, eg vil deyia, O JEsu so kisse eg þig, eg vil þier til Foota falla, flatur um̃ mijna Daga alla, laata Hiarta og Huga minn, heidra þig fyrer Kraptenn þin̄.

Daude þin̄ mier dæmer Lijfed, Daudans Neyd er horfenn øll, þegar eg dey, mun Þrauta Kijfed, Þverra, Neyd og Eymd giørvøll. O! þu Daudans Daude fyrste, sem doost og lifer, JEsu Christe, laat mig deya, meiga mier, minn JEsu, so life eg þier.

## Prent-Villur.

A Sijdu 8. Linu 5: har, les: þar. S. 23. l. 11 DRvtten̄ l. DRotten, S. 92. L. 2. yltist, l. fyltist. S. 100. L. 5. sijdursia l. sijdurstu. S. 115. L. 25. læce l. læte. S. 150. L. 12. fesiur l. festur. S. 157. L. 13. heir, l. hier. S. 176. L. 13. Moodi, l. Moodir. S. 190. L. 13. il l. til. S. 202. L. 28. ug, l. og. S. 209. L. 12. gudrækelegu l. gudrækelega.

Hvad fleyra smaveiges hefur kun̄ad yfirsiaast vid Þrycking þessarar Bookar, er goodfws Lesare um̃beden̄ ad lagfæra og lesa i Maaled.

